# Almanak

fyrir árið

# 1918

sem er annað ár eftir hlaupár og fyrsta ár frá sumarauka.

Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

---

TUTTUGASTA OG FJÓRÐA ÁR.

WINNIPEG
Útgefandi og Prentari Ólafur S. Thorgeirsson.
1917

## Á þessu ári teljast liðin vera :

frá Krists fæðingu - - - - - 1918 ár

---

Árið 1918 sunnudagsbókstafur F Gyllintal : 19.
Milli jóla og langaföstu eru 6 vikur og 5 dagar.

---

## Myrkvar.

Árið 1918 verða þrír myrkvar, tveir á sólu og einn á tungli.

1. Sólmyrkvi 8. júni ; ekki sýnilegur í V.-Canada.
2. Tunglmyrkvi ; ekki sýnilegur hér.
3. Sólmyrkvi ; sýnilegur í Ameríku.

---

## Tunglið.

Fylgisgjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður ; er það tímabil alment talið 28 dagar, en í raun réttri 27 dagar og 8 klukklustundir, eða rétt um það bil.

---

## Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiptu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru,---og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.) voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm tll að segja borgarbúum hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir---sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri og Rómerjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn fyrsta sunnudag eftir fyrsta tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á timabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl og 18. april bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskudagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir síðast árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | |
|---|---|
| 1919 - - - - | 20. Apríl |
| 1920 - - - - | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafnlangur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltimi er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði "meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að "meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

## VEÐURFRÆÐI HERSCHEL'S.

er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni er bygð á athugunum, er starfið hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðrabreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður ... ....... .. . | Frost, nema sunnanvindur sé. |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum ............ | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 og 6 " " .... | Regn ......................... | Regn. |
| " " 6 og 8 " " .... | Vindur og regn ............. | Stormasamt. |
| " " 8 og 10 " " .... | Breytilegt veður ........... | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór, sé vindur af austri. |
| " " 10 og 12 " " .... | Tíðar skúrir................. | Kalt og hvast veður. |
| " " 12 og 2 e.m.......... | Mjög rigningasamt ........... | Snjór og regn. |
| " " 2 og 4 " .... ... | Breytilegt veður ............ | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 og 6 " ......... | Fagurt veður ................ | Fagurt veður. |
| " " 6 og 8 " ......... | Fagurt, sé vindur af norðvestri | Fagurt með frosti, sé vind. af n. eða n.a. |
| " " 8 og 10 " ......... | Rigning, sé vindur af s. eða s.v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " " 10 og miðnættis....... | Fagurt........................ | Fagurt veður með frosti. |

## Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða slái á, hann grænum eða gul-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sólarlag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

## Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta, er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

## Kóróna.

Með kórónu meinum vér smáa hringi, er sjást oft um sólina eða tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stœkki hún, er fagurt veður í vændum.

## Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er álitinn boða regn; regnbogi að kveldi, fagurt veður.

## Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skýjað loft, boðar það fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

## Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

## Kafheiður himinn.

Þegar gufuhvolfið er óvanalega skírt, og mjög stjörnubert er, og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

## Skýin.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hreyfast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau, er menn oft nefna "hestatögl" köllum vér þráðaský (Cirri). Einkenni þeirra er, að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnast fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar, reglulega myndaðar þyrpingar af skýum þessum sjást oft fyrir stöðugu blíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm, eru þau vanalega þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvítleitum, löngum skýbakka. Ský þau er alment eru kölluð "baðmullarsekkir", eða "þrumuhöfuð', köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins, en hverfa með kvöldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga hægt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regni. Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast við skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggja marflöt og taka yfir mikið svæði, boða fagurt veður. Lítil svört vindaský eru fyrirboði regns.

## Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann "fellur" fljótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur--smábreytist ekki--, verður sama fallega veðrið, þótt búast mætti við þykku lofti. Ef hann stendur lágt og er að "falla", er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hann "stigur" eða "fellur" skyndilega (meira en 0,01 úr þumlungi á kl., stund) bendur það á óstöðugt veður og storm.

---

## Artöl nokkura merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trójuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krtst. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 73 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinst | 1602 |
| Þrátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamingarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frimerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld, Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er á ritum talinn bygð um 984, að Ási í Hjaltadal,

en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gussursson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.

Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vest.-Skaftafellssýslu 1186.

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262---63.

Svarti dauði geysaði, 1402.

Seinni plágan 1492.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.

Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.

Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.

Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.

Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.

Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).

Stórabóla geisaði 1707.

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslandi 1760.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.

Hið íslenzka lærdómslistafél. stofnað í Kaupmannahöfn 1779.

Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.

Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1798.

Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.

Landsyfirréttur settur á laggirnar í R'vík 1800.

Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju 1800.

Hólaskóli fluttur til Reyjavíkur 1801.

Landið gjört að biskudæmi 1801.

Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.

Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.

Hið islenzka biblíufélag stofnað 1816.

Hið íslenzka Bókmentafélag stofnað 1816.

Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818 (Minnisverð tíðindi ekki talin ; þau koma út 1796---1808.

Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.

Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jón Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848
Fyrsts blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélgið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.
Settur háskóli í Reykjavík 1911.

---

**Stærð úthafanna.**

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | " " | 30,592,000 | " " | " |
| Indlandshafið | " " | 17,084,000 | " " | " |
| Atlandshafið | " " | 24,536,000 | " " | " |
| Kyrrahafið | " " | 50,309,000 | " " | " |

---

**Lengstur dagur.**

| | kl. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 36 |
| Endinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| París | 16 05 |
| Victoria B.C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

**Þegar klukkan er 12**

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinburgh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indland | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.64 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád |

---

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# JANÚAR hefir 31 dag 1918

MÖRSUGUR

*Umskurn Krists, Lúk. 2*

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Nýársdagur |
| M | 2 | su. 9.51, sl. 4.55—Helgi lekt. Halfd. s. d. 1894 |
| F | 3 | |
| F | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 |
| L | 5 | Stjórnarskrá Ísl.1874--☽Síð.kv.6.50 f.m.--11.v.v. |

*Barnamorðið í Betlehem, Matt. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | s. e. nýár—Þréttándi (jóladagurinn gamli) |
| M | 7 | Knútsdagur—Eldbjargarmessa--Árni Magnúss. d. |
| Þ | 8 | Galilei d. 1642 [1730 |
| M | 9 | s.u.7.49,sl.5.00—Napóleon 3. d. 1873 |
| F | 10 | |
| F | 11 | Brettivumessa |
| L | 12 | G. jarl Þorvaldss. d.1268---●N. 5.36 e.m.---12.v.v. |

*Þegar Jesús var 12 ára, Lúk. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 1. s. e. þrett.—Geisladagur |
| M | 14 | Mag. lög. Ólafsson d. 1800—Geldingaholtsbar- |
| Þ | 15 | Hilmar Finsen d. 1886 [dagi 1255 |
| M | 16 | s.u. 7.46, sl.5.08—British Museum opnað 1759 |
| F | 17 | Antoniusmessa—Benjamín Franklin f. 1706 |
| F | 18 | B. Lytton d. 1873 |
| L | 19 | Gull f. í Californíu 1848---☾F. kv.9.38 f.m.--13.v.v. |

*Brúðkaupið í Kana, Jóh. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | 2. s. e. þrett.—Bræðramessa |
| M | 21 | Agnesarmessa |
| Þ | 22 | Vincentiusmessa—Byron f. 1788 |
| M | 23 | Gustav Doré d.1883 |
| F | 24 | Friðrik mikli f. 1712 ÞORRI |
| F | 25 | Pálsm.—Kirkjufél. V.-Ísl.stofn.1885—Miður vetur |
| L | 26 | ☺Fult 10.14 e.m. 14.v.vetrar |

*Verkamenn í víngarði, Matt. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | Níuviknafasta —Mózart f. 1756 |
| M | 28 | Holberg d. 1754 |
| Þ | 29 | Em. Swedenborg f. 1688. |
| M | 30 | |
| F | 31 | Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889 |

## FEBRÚAR hefir 28 daga 1918

Þorri

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Ráðherrastjórn á Íslandi 1904 |
| L | 2 | Kyndilmessa 15. v. vetrar |

*Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8*

| | | |
|---|---|---|
| S | 3 | 2. s. í níuviknaföstu—Mendelsshon-Bartholdy f. [1809 |
| M | 4 | Blasíusmessa—☽Síð.kv. 2.55 f.m. |
| Þ | 5 | Jóhann Runeberg f. 1804 |
| M | 6 | su.7.26,sl.5.38 |
| F | 7 | Charles Dickens f. 1812 |
| F | 8 | Arngrímur Vídalín d. 1704—Petur mikli d. 1725 |
| L | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 16. v. vetrar |

*Skírn Krists, Matt. 3*

| | | |
|---|---|---|
| S | 10 | Langafasta—Föstuinngangur—Sjöviknafasta |
| M | 11 | Bellman d. 1795---●N. 5.05 f. m. |
| Þ | 12 | Sprengikvöld—Hvíti Týsdagur—Lincoln f. 1809 |
| M | 13 | Öskudagur—su.7.16,sl.5.48 |
| F | 14 | |
| F | 15 | Jón landlæknir Þorsteinsson d. 1855 |
| L | 16 | Melankton f. 1497 17. v. vetrar |

*Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4*

| | | |
|---|---|---|
| S | 17 | 1. s. í föstu ---☾F. kv. 7.57 e.m. |
| M | 18 | Martein Lúter d. 1546 |
| Þ | 19 | Nikulás Kópernikus f. 1473 |
| M | 20 | Styrmir fróði Kárason d. 1245 |
| F | 21 | Spinoza d. 1677 |
| F | 22 | Pétursmessa—George Washington f. 1732 |
| L | 23 | Þorraþræll 18. v. vetrar |

*Kanversku konan, Matt. 15*

Góa

| | | |
|---|---|---|
| S | 24 | 2. s. í föstu—Matthíasmessa |
| M | 25 | Thomas Moore d. 1852---○Fult 4.35 e.m. |
| Þ | 26 | Victor Hugo f. 1902 |
| M | 27 | Longfellow f. 1807 |
| F | 28 | |

## MARZ hefir 31 dag 1918

GÓA

F 1

L 2 John Wesley d. 1791 19. v. vetrar

*Jesús rak út djöful, Lúk. 11*

S 3 3. s. í föstu—Jónsmessa h. f.
M 4 Sigurður Breiðfjörð f. 1798
Þ 5 Oddgeir Stephensen d. 1885
M 6 su.6.43, sl.6.15---M. Angelo f. 1475--☽S.k.7.44 e.m
F 7
F 8 Alþing Ísl endurreist 1843---J. Thoroddsen d. 1868
L 9 Sverrir konungur d. 1202 20. v. vetrar

*Jesús mettar 5000 manna Jóh. 6*

S 10 Miðfasta—Árni lögm. Oddsson d. 1665
M 11
Þ 12 Síra Páll Þorláksson d. 1882---● Nýtt 2.52 e.m.
M 13 su. 6.32, sl. 6.25—Guðbr. Vigfússon f. 1827
F 14 Klopstock skáld d. 1803
F 15 Július Cæsar d. 44 f. Kr.
L 16 Gvöndard: (Guðm. hinn góði Hb. d. 1237). 21. v. v.

*Gabriel engill sendur, Lúk. 1*

S 17 5. s. í föstu—Geirþrúðard—B. Gunnlögss. d. 1876
M 18 Fyrsti landlæknir á Íslandi 1760
Þ 19 ☾F. kv. 8.30 f.m.
M 20 H. Ibsen f. 1828
F 21 Benidiktsmessa—Jafndægur—Vor byrjar
F 22 Goethe d. 1832
L 23 Halld. yfirk. Friðriksson d. 1902 22. v. vetrar

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21*

S 24 Pálmasunnudagur—Dymilvika—Thorvaldsen d.
M 25 Boðunardagur Maríu---Góuþræll

EINMÁNUÐUR

Þ 26 Beethoven d. 1827
M 27 Yfirrétur settur á Íslandi 1563---☺Fult 10.33 f.m.
F 28 Skírdagur
F 29 Föstudagurinn langi---Swedenborg d. 1772
L 30 23. v. vetrar

*Krists upprisa, Mark. 16*

S 31 Páskadagur---Páskavika

# APRÍL hefir 30 daga 1918

EINMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Fyrsti lyfsali á Ísl. 1772 |
| Þ | 2 | Emil Zola f. 1840 |
| M | 3 | su. 5.52 sl. 6.50 |
| F | 4 | Ambrosiusmessa---☾Síð.kv. 8.33 e.m. |
| F | 5 | Joseph Lister f. 1827 |
| L | 6 | Sókrates d. 399 f. Kr. 24. v. vetrar |

*Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 1. s. e. páska—Drummond d. 1907 |
| M | 8 | Kristján IX. f. 1818 |
| Þ | 9 | Staðarhóls-Páll d. 1598---Kristj.Jónsson d. 1869 |
| M | 10 | su. 5.40, sl. 6.56---●Nýtt 11.34 e.m.---Swinburne [d. 1909 |
| F | 11 | Leonisdagur |
| F | 12 | Páll rektor Árnason d. 1851 |
| L | 13 | 25. v. vetrar |

*Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 2 s. e. páska --Tibúrtiusmessa |
| M | 15 | Abraham Lincoln d. 1865 |
| Þ | 16 | Magnúsmessa (Eyjajarls h. f.) |
| M | 17 | su. 5.28, sl. 7.02---☽F. kv. 11.08 e.m.---Benj. |
| F | 18 | Franklin d. 1790 |
| F | 19 | Melankton dáinn 1560 ---Darwin d. 1882 |
| L | 20 | Sumarmál (af 26. v. vetrar |

*Burtför Krists til föðursins, Jóh. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 3. s. e. páska --Muhamed f. 571 |
| M | 22 | Immanuel Kant f. 1724 |
| Þ | 23 | Jónsmessa (h. s.)---Brjánsbardagi 1014 |
| M | 24 | su. 5.17, sl. 7.12---Verzlunarfrelsi á Ísl. 1854 |
| | | HARPA |
| F | 25 | Sumardagurinn fyrsti 1. v. sumars |
| F | 26 | Björnstjerne Björnsson d. 1910---○Fult 3.05 f. m. |
| L | 27 | Herbert Spencer f. 1820 |

*Sending heilags anda, Jóh. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 4. s. e. páska—L. Tieck d. 1853 |
| M | 29 | Konráð Maurer f. 1823 |
| Þ | 30 | J. P. Jacobsen d. 1885 |

# MAÍ hefir 31 dag 1918

HARPA

M 1 Tveggja postulamessa—D. Livingstone d. 1878
F 2 Gunnlaugur prestur Oddsen d. 1835 2. v. sumars
F 3 Krossmessa á vori (fundinn krossinn)--☽Síð.
L 4 Huxley f. 1825 kv. 5.26 e.m.

*Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.*

S 5 5. s. e. páska—Napóleon mikli d. 1821
M 6 Johan Ludvig Runeberg d. 1877
Þ 7 Önundarbrenna 1197
M 8 su. 4.59, sl. 7.30—Hannes bisk. Finnsson f. 1739
F 9 Uppstigningardagur— Schiller d. 1805—3. v. sum.
F 10 Eldaskildagi---●Nýtt 8.01 f.m.
L 11 Joh. Arndt d. 1621

*Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.*

S 12 6. s. e. páska—Oddur Hjaltalín d. 1840
M 13 Fr. Auber tónskáld d. 1871
Þ 14 Vinnuhjúaskildagi á Íslandi
M 15 Hallvarðsmessa--Pétur biskup d. 1891
F 16 4. v. sumars
F 17 Tómas Sæmundsson d. 1841---☾F. kv. 3.14 e.m.
L 18 Magnús prestur Jónsson, Grenjaðarst. d. 1889

*Hver mig elskar, Jóh. 14*

S 19 Hvítasunnudagur—Helgavika- -Gladstone d. 1898
M 20 St. Mill d. 1866
Þ 21 Kristófer Kolumbus d. 1506
M 22 su. 4.51, sl. 7.37—Sæmundur fróði d. 1133
F 23 Hinrik Ibsen d. 1906 5. v. sumars
F 24 Nic Kopernicus d. 1543

SKREFLA

L 25 Úrbanusmessa—○Fult 5.32 e.m.

*Kristur og Nikódemus, Jóh. 3*

S 26 Trínitatis—Þrenningarhátið—J. Hallgr. d. 1845
M 27 Þormóður Torfason, sagnfræð. f. 1636
Þ 28 Gissur biskup Ísleifsson d. 1118
M 29 su. 4.40, sl. 7.50—Gísli Brynjólfsson d. 1888
F 30 Dýridagur—Eggert Ólafsson d. 1768—6. v. sumars
F 31 Jón ritstjóri Guðmundsson d. 1875

## JÚNI hefir 30 daga 1918

SKERPLA

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | ☽F.kv.11.20 e.m. | |
| | | *Hin auðugi maður, Lúk. 16* | |
| S | 2 | 1. s. e. trín.—Garibaldi d. 1882 | |
| M | 3 | Síra Jón Bjarnason, D.D., d. 1914 | |
| Þ | 4 | Vísi-Gísli d. 1696 | |
| M | 5 | Weber, tónskáld d. 1826 | |
| F | 6 | Alexander mikli d. 365 f. Kr. | 7. v. sumars |
| F | 7 | Tómas Sæmundsson f. 1807 | |
| L | 8 | Jón Hjaltalín d. 1882---●Nýtt 5.03 f.m. | |
| | | *Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14* | |
| S | 9 | 2. s. e. trín.—Charles Dickens d. 1870 | |
| M | 10 | | |
| Þ | 11 | Barnabasmessa | |
| M | 12 | su. 4.36, sl. 7.58 | |
| F | 13 | Jón Sveinsson, landlæknir d. 1803 | 8. v. sumars |
| F | 14 | Steingr. biskup Jónsson d. 1845 | |
| L | 15 | Vítusmessa | |
| | | *Hinn týndi sauður, Lúk. 15* | |
| S | 16 | 3. s. e. trín.—☾F.kv.8.12 f.m. | |
| M | 17 | Bótólfsmessa—Jón Sigurðsson f. 1811 | |
| Þ | 18 | Bardaginn við Waterloo 1815 | |
| M | 19 | su.4.36, sl. 8.02—Björn Jónsson, ritstj. Nf. d. 1886 | |
| F | 20 | | 9. v. sumars |
| F | 21 | | |
| L | 22 | Sólstöður—lengstur dagur | |
| | | *Verið miskunnsamir, Lúk. 6* | |
| S | 23 | 4. s. e. trín.—Vilhj. Finsen d. 1892 | |
| | | | SÓLMÁNUÐUR |
| M | 24 | Jónsmessa---○Fult 5.38 f.m. | |
| Þ | 25 | Guðmundur ábóti Arason d. 1390 | |
| M | 26 | su.4.34, sl. 8.06---Jón Sigurðsson á Gautl. d. 1889 | |
| F | 27 | Arugrímur Jónss. lærði d. 1648 (f. 1568)---10. v. sum. | |
| F | 28 | Björn á Skarðsá d. 1655 | |
| L | 29 | Pétursmessa og Páls---Huxley d. 1895 | |
| | | *Jesús kennir af skipi, Lúk. 5* | |
| S | 31 | 5. s. e. trín.—Jón biskup Vigfússon d. 1690 | |

# JULÍ hefir 31 dag 1918

SÓLMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Dominiondagur---☽Síð.kv.3. 43 f.m. |
| Þ | 2 | Þingmaríumessa (vitjunard. Maríu)---Sviðhúnsm. |
| M | 3 | Konráð Gíslas. f. 1808---Magnús Eiríksson d.1881 |
| F | 4 | Þjóðminningardagur Bandar. (1776) 11.v.sumars |
| F | 5 | Þjóðfundurinn settur í Reykjavík 1851 |
| L | 6 | Jóhann Húss brendur 1415 |

*Réttlœti faríseanna, Matt. 5*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 6. s. e. trín. |
| M | 8 | Seljumannamessa---●Nýtt 3.22 f.m.---Grundar- |
| Þ | 9 | bardagi 1362 |
| M | 10 | su. 4.47, sl. 759 --Jóhann Calvin f. 1509 |
| F | 11 | Benidiktsmessa 12. v. sumars |
| F | 12 | Hinrik Wergeland d. 1845 |
| L | 13 | Margrétarmessa---Eiríkur kon. Magnúss. d. 1299 |

*Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 7. s, e. trín---Þjóðminning Frakka (Bastille) 1789 |
| M | 15 | Sviðhúnsmessa h. s.--Krossfar. tóku Jerúsal.1099 |
| Þ | 16 | ☾F.kv.1.25 f.m. |
| M | 17 | su. 4.52, sl. 7.55 --Adam Smith d. 1790 |
| F | 18 | Sira Jón Þorsteinsson, píslarvottur 1627---13.v.s. |
| F | 19 | |
| L | 20 | Þorláksmessa á sumri---Guðbrandur bisk. d. 1627 |

*Um fals-spámenn, Matt. 7*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 8. s. e. trín.---Sig. Breiðfjörð d. 1846 |
| M | 22 | Kolbeinn ungi Árnórsson d, 1245 |
| Þ | 23 | Ísleifur Einarsson d. 1836---(☺)Fult 3.35 e.m. |
| M | 24 | su. 4.59, sl. 7.50---Canada fundin 1534 |
| F | 25 | Jakobsmessa---Bólu-Hjálmar d. 1875 14.v.sum. |
| F | 26 | Sig.skólakennari Sigurðsson d. 1884 |
| L | 27 | Atlantshafsritsíminn fullger 1866 |

*Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16*

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 9. s. e. trín.---Kopavogseiður 1662---Miðsumar |
| M | 29 | Ólafsmess h. f.---Pétur próf. Pétursson d. 1842 |
| Þ | 30 | William Penn d. 1718---☾Síð.kv.8.14 f.m. |
| M | 31 | Kolbeinn kaldaljós Arnórsson d. 1246 |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1918

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| F | 1 | Bandadagur—Jón Espólín d. 1836 | 15. v. sumars |
| F | 2 | Benidikt Sveinsson, sýslum. d. 1899 | |
| L | 3 | Ólafsmessa h.s.—Þormóður Kolbrúnarsk. féll 1030 | |
| | | *Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.* | |
| S | 4 | 10.s.e.trín.—H.C.Andersen d. 1875 | |
| M | 5 | Brynj. Sveinsson, bk. d.1675—J.Gutenberg d.1396 | |
| Þ | 6 | Krists dýrð— ●Nýtt 3.30 e.m. | |
| M | 7 | su.5.15,sl.7.55—Spánska flotanum eytt 1588 | |
| F | 8 | Canning d. 1827 | 16. v. sumars |
| F | 9 | Þjóðfundinum slitið 1851 | |
| L | 10 | Lárentíusmessa-- Lárentíus bp. Kálfsson f. 1267 | |
| | | *Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.* | |
| S | 11 | 11 s. e. trín.--Jón próf. Steingrímsson d. 1791 | |
| M | 12 | Egill bisk. Eyjólfsson d. 1341 | |
| Þ | 13 | | |
| M | 14 | su.5.55,sl.7.55--☾F.kv.6.16 e.m. | |
| F | 15 | Maríumessa h.f.---Himnaför Maríu | 17.v.sumars |
| F | 16 | | |
| L | 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 | |
| | | *Daufi og málhalti maðurinn, Mark. 7.* | |
| S | 18 | 12.s.e.trín. | |
| M | 19 | Gestur Pálsson d. 1891 | |
| Þ | 20 | William Booth d. 1912 | |
| M | 21 | su.5.55,sl.7.55- -Njálsbrenna 1011 | |
| F | 22 | Symphóríanusmessa--○Fult 12.02 f.m--18.v.sum. | |
| F | 23 | W.Herschel d. 1822 | |
| L | 24 | Barthólómeusmessa---Bjarni Thórarensen d.1841 | |
| | | *Hinn miskunnsami samverji, Lúk. 10.* | |
| S | 25 | 13.s.e.trín.--Pétur Guðjónsson d. 1877 | |
| M | 26 | | |
| | | | TVÍMÁNUDUR |
| Þ | 27 | Finnur Magnússon 1781 | |
| M | 28 | su.5.44,sl.7.00---☽Síð.kv.2.27 e.m. | |
| F | 29 | Höfuðdagur--Jóhannes skírari líflátinn--19.v.sum. | |
| F | 30 | Jón bisk. Vídalín d. 1720 | |
| L | 31 | Jón konferenzráð Eiríksson f. 1728 | |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1918

TVÍMÁNUDUR

*Tíu líkþráir, Lúk. 17*

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 14.s.e.trín.---Egidiusmessa |
| M | 2 | Verkamannadagur í Canada--Henry George f.1839 |
| Þ | 3 | Oliver Cromwell d. 1658 |
| M | 4 | su.5.45,sl.6.50---Franska lýðveldið stofnað 1870 |
| F | 5 | Jón Jónsson lærði d.1846--🌘N. 5.44 f.m.--20.v.s. |
| F | 6 | McKinley forseti d. 1901 |
| L | 7 | |

*Enginn kann tveimur herrum að þjóna, Matt. 6*

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 15.s.e.trín.---Maríumessa h.s. (fæðingard. Maríu) |
| M | 9 | Svoldarorusta 1000 (fall Ól. Tryggvason) |
| Þ | 10 | Jón próf. Steingrímsson f. 1728 |
| M | 11 | su.5.25,sl.637 |
| F | 12 | Orustan við Quebec 1759 21. v. sumars |
| F | 13 | Bretar taka Quebec 1759---☾F.kv.10.02 f.m. |
| L | 14 | Krossmessa (krossins upphafn.)---Wellingt.d.1852 |

*Sonur ekkjunnar af Nain, Lúk. 7*

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 16.s.e.trín.--Moscow-borg brend 1812 |
| M | 16 | |
| Þ | 17 | Lambertsmessa--Willard Fiske d. 1904 |
| M | 18 | su.6.00,sl.6.23---Fyrsti banki stofn. á Íslandi 1885 |
| F | 19 | Garfield forseti d. 1881 22. v. sumars |
| F | 20 | Geir biskup Vídalín d. 1823--🌕Fult 8.01 f.m. |
| L | 21 | Mattheusmessa--Walter Scott d. 1832 |

*Vatnssjúki maðurinn, Lúk. 14*

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 17.s.e.trín.--Ólafur konungur kyrri d. 1093 |
| M | 23 | Snorri Sturluson veginn 1241---Jafndægur |
| Þ | 24 | Niels Finsen d. 1904 |
| M | 25 | su.6.09,sl.6.10---Björn Gunnlaugsson f. 1788 |
| | | HAUSTMÁNUDUR |
| F | 26 | Kristj. X. Danak.f.1870--☽Síð.k. 11.39 e.m--23.v.s. |
| F | 27 | Fyrsta járnbraut á Englandi 1825 |
| L | 28 | Louis Pasteur d. 1895 |

*Hvers son er Kristur? Matt. 22*

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 18.s.e.trín.---Mikaelsmessa---Nelson lávarður f.1758 |
| M | 30 | Hitardals brenna---Magnús bisk. Einarsson d. 1148 |

# OKTÓBER hefir 31 dag 1918

HAUSTMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Remigiusmessa |
| M | 2 | su.6.17,sl.5.57---Bardaginn að Sauðafelli 1550 |
| F | 3 | Pétur bisk. Pétursson f. 1808 24. v. sumars |
| F | 4 | ● Nýtt 10.05 e. m. |
| L | 5 | Jón Thoroddsen f. 1819 |

*Hinn limafallssjúki, Matt. 9*

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | 19.s.e.trín.---Eldadagur---Tennyson d. 1892 |
| M | 7 | Edgar Poe d. 1849---Marteinn bisk. Einarss. d.1576 |
| Þ | 8 | Weyse d. 1842 |
| M | 9 | Díónysiusmessa---Chicago brann 1871 |
| F | 10 | su.6.25,sl.5.42 25. v. sumars |
| F | 11 | Ari Magnússon í Ögri d. 1652 |
| L | 12 | Kolumbus fann Ameríku 1492--☾F. kv. 12. f. m. |

*Brúðkaupsklœðin, Matt. 22*

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 20.s.e.trín.---Bjarni meistari Jónsson d. 1798 |
| M | 14 | Kalixtusmessa---Wellington d. 1852 |
| Þ | 15 | Gregoriska tímatalið innleitt 1582 |
| M | 16 | su.6.35,sl.5.32---Gallusmessa |
| F | 17 | 26. v. sumars |
| F | 18 | Lúkasmessa---Brynjólfur Pétursson d. 1851 |
| L | 19 | Einar Ásmundss. í Nesi d. 1893---☺Fult 4.35 e.m. |

*Konungsmaðurinn, Jóh. 4*

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | 21.s.e.trín. |
| M | 21 | Síra Jón Þorláksson á Bægisá d. 1819 |
| Þ | 22 | Jón Espólíu f. 1769---Flugumýrarbrenna 1253 |
| M | 23 | su.6.45,sl.5.22---W.Penn lenti í Ameríku 1682 |
| F | 24 | Veturnætur (af 27. v. sumars) |
| F | 25 | Magnús konungur góði Ólafsson d. 1047 Gormánuður |
| L | 26 | Vetrardagur fyrsti---☽S.kv.12.35 e.m.—1.v.vetrar |

*Tíu þúsundir punda, Matt. 18*

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | 22.s.e.trín.—Hallgr. Pétursson d. 1674 |
| M | 28 | Tveggja postulam. (Símon og Júdas) |
| Þ | 29 | Síra Arnljótur Ólafsson d. 1904 |
| M | 30 | su.6.55,sl.5.13---Gambetta f. 1832 |
| F | 31 | Reformation Lúters 1517 |

## NÓVEMBER hefir 30 daga 1918

Gormánuður

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Allra heil.messa--Jón Loptsson í Odda d. 1197 |
| L | 2 | Allra sálnamessa---Esajas Tegnér d. 1846---2.v.v. |

*Jesús predikar um sœlu, Matt. 5*

| | | |
|---|---|---|
| S | 3 | 23.s.e.trín.---Nýtt 4.02 e.m. |
| M | 4 | Mendelshon-Bartholdy d. 1847 |
| Þ | 5 | Jón Gizurarson á Núpi 1648 |
| M | 6 | su.7,01,sl.5.00---Fall Gustafs Adolfs 1632 |
| F | 7 | Aftaka Jóns bisk. Arasonar og sona hans 1550 |
| F | 8 | Milton d. 1674 |
| L | 9 | Ari fróði Þorgilss. d.1148--Skúli fóg. d.1794---3.v.v. |

*Blóðfallssjúka konan, Matt. 9*

| | | |
|---|---|---|
| S | 10 | 24.s.e.trín.—Lúter f. 1483---Schiller f. 1759 |
| M | 11 | Marteinsm.-Willard Fiske f.1831--F.kv.11.46 f.m |
| Þ | 12 | Knútur konungur ríki d. 1035 |
| M | 13 | su.7.10,sl.4.55---Árni Magnússon f. 1663 |
| F | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 |
| F | 15 | F.W.Herschel f. 1783 |
| L | 16 | Jónas Hallgrímss.f.1807 4.v.vetrar |

*Viðurstygð eyðileggingarinnar, Matt. 24*

| | | |
|---|---|---|
| S | 17 | 25.s.e.trín.-Lönguhlíðarskriða (Rafn lögm.d.1390) |
| M | 18 | Hannes striptamtm. Finsen 1892—F. 2.33 f.m. |
| Þ | 19 | Albert Thorvaldsen f. 1770 |
| M | 20 | su.7.19,sl.4.50—Vígð Hóladómkirkja 1763 |
| F | 21 | Maríumessa (Maríu offurgjörð)--Þríhelg. |
| F | 22 | Ceciliumessa—Rasm. Kr. Rask f. 1787 |
| L | 23 | Klemensmessa 5.v.vetrar |

*Eg þakka þér, faðir, Matt. 11*

| | | |
|---|---|---|
| S | 24 | 26.s.e.trín.---Björn Jónss. ráðh. d. 1912 |

Ýlir

| | | |
|---|---|---|
| M | 25 | Katrínarmessa---Síð.kv.5.25 f.m. |
| Þ | 26 | Konráðsmessa |
| M | 27 | su.7.27,sl.4.46---Grímur Thomsen d. 1896 |
| F | 28 | Jens próf. Pálsson d. 1912 |
| F | 29 | Pétur Guðjónsson f. 1812 |
| L | 30 | Andreasmessa---Karl XII. d. 1718 6.v.vetrar |

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÝLIR |
| | | *Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21* | |
| S | 1 | 1. s. í jólaföstu---Aðventa---Eligiusmessa | |
| M | 2 | Orustan við Austerlitz 1805 | |
| Þ | 3 | Steinn bisk. Jónsson d. 1739---🌑Nýtt 3.10 f.m. | |
| M | 4 | su.7.55,sl.4.42---Þorleifur Repp d. 1857 | |
| F | 5 | Mozart d. 1791 | |
| F | 6 | Nikulásmessa---Ben.próf.Kristjánsson d. 1903 | |
| L | 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 | 7. v. vetrar |
| | | *Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.* | |
| S | 8 | 2. s. í jólaföstu---Maríumessa---Getnaðard.Maríu | |
| M | 9 | Gustaf Adólf f. 1594---Milton f. 1608 | |
| Þ | 10 | Jón ritstj. Guðm.ss. f. 1807---☾F.kv.9.31 e.m. | |
| M | 11 | su.7.42, sl.4.40 [Alf.Nobel d. 1896 | |
| F | 12 | Skúli fógeti Magnusson f. 1711 | |
| F | 13 | Lucíumessa---Magnúsmessa Eyjajarls h.s. | |
| L | 14 | George Washington d. 1799 | 8. v. vetrar |
| | | *Jóhannes í böndum, Matt. 11.* | |
| S | 15 | 3. s. í jólaföstu---Þórh. bisk. Bjarnarson d.1916 | |
| M | 16 | Beethoven f. 1770 | |
| Þ | 17 | Páll amtm.Briem d 1904---🌕Fult 2.18 e.m. | |
| M | 18 | su.7.55, sl.3.37 | |
| F | 19 | Björn próf. Halldórsson í Laufási d. 1882 | |
| F | 20 | Stefán amtm. Stephensen d. 1820 | |
| L | 21 | Tómasmessa | 9. v. vetrar |
| | | *Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.* | |
| S | 22 | 4. s. í jólaföstu---Sólhvörf, skemstur dagur | |
| M | 23 | Þorláksdagur (Þorlákur helgi d. 1193) | |
| Þ | 24 | Aðfangadagur jóla, jólanótt, nóttin helga | |
| | | | MÖRSUGUR |
| M | 25 | Jóladagur---☽Síð.kv.1.31 f.m. | |
| F | 26 | Annar í jólum---Stefán frumvottur | |
| F | 27 | Magnús konf. Stephensen f. 1762 | |
| L | 28 | Hóladómkirkju braut 1393 | 10. v. vetrar |
| | | *Símon og Anna, Lúk. 2.* | |
| S | 29 | S. m. jóla og nýárs---Gladstone f. 1809 | |
| M | 30 | Bjarni Thorarensen f. 1786 | |
| Þ | 31 | Gamlársdagur---Dr. Hallgr. Scheving d. 1861 | |



*Brjóstlíkan af Stepháni G. Stephánssyni.*
*Eftir RÍKARÐ JÓNSSON*

Almanak

22. ár. WINNIPEG 1918

# HEIMFÖR
## Stephåns G. Stephånssonar, skálds
1917.



*EINN merkastur viðburður í sögu Vestur-Íslendinga er heimboð Stephåns G. Stephånssonar til Íslands árið sem leið. Öll helztu menningarfélög þjóðarinnar gengust fyrir boðinu. Var á móti honum tekið forkunnar vel, eins og við mátti búast, og óhætt má segja að þjóðin öll hafi borið heiðursgestinn á höndum sér landshornanna á milli. Fagnaðarsamkomur voru honum haldnar víðsvegar um land og mörg helztu skáldin fluttu honum kvæði og snjöllustu ræðumenn mæltu fyrir minni hans og honum færðar margar kostulegar gjafir. Skagfirðingar gáfu honum skriffföng, sem hér fylgir mynd af; Akureyrarbúar skrautlegt borðflagg; Ísfirðingar göngustaf úr íbenholt, silfurbúinn með gullhörpu greipta í handfang; Reykvíkingar málverk af Jökulhlaupi eftir Ásgrím Jónsson; Andvökur, ljóðabók skáldsins, bundin í há-*

*karlsskráp með miklu gull-útflúri af Ástsæl Jónssyni bókbindara ; mynd af Drangey, máluð af Einari Jónssyni, myndhöggvara. Ríkarður Jónsson, myndhöggvari gerði af skáldinu brjóstlíkan og lágmynd, sem hér eru sýndar. Bókmentafélagið gerði hann að heiðursfélaga og að síðustu sæmdi alþingi hann fimm þúsund króna heiðursgjöf.*

*Stephán fór heiman frá sér 7. maí, en dvaldi um tveggja vikna tíma í Winnipeg, áður hann lagði af stað til New York, því þaðan var ferðinni heitið yfir hafið með Gullfoss, skipi Eimskipafélags Íslands, sem boðið hafði Stepháni að vera sinn gestur landa milli. Meðan á dvöl Stepháns stóð í Winnipeg, var honum haldið veglegt kveðjusamsæti, ásamt herra Árna Eggertssyni, sem honum varð samferða til Íslands. Fyrir því stóð klúbburinn Helgi magri. Til Reykjavíkur kom Stephán daginn fyrir minningardag þjóðarinnar, sem orðinn er 17. júní. Að undantekinni hinni vanalegu virðingar-athöfn, sem sýnd er þjóðhetjunni framliðnu, Jóni Sigurðssyni, þann dag, snerist hátíðahaldið að mestu leyti utan um Klettafjallabóndann og skáldið : Stephán G. Stephánsson.*

*Útgefanda Almanaksins kom í hug, að bæði væri það gagn og gaman að safna öllu því saman í eina heild sem um Stephán var sagt heima, í bundnu og óbundnu máli og kom á prenti hér og þar í blöðum, og í sérprenti, en þó er hér fleira, sem eigi var borin á prentsverta. Veit eg það vel að öllum Vestur-Íslendingum mun mikil nautn í að lesa það, sem hér fer á eftir um einn mætasta manninn sem þeir eiga. —Útgefandinn.*

---

# Stephán G. Stephánsson á Íslandi.

---

## ÁSKORUN TIL FJÁRSÖFNUNAR.

**Stephan G. Stephansson** er eitt af frumlegustu skáldum þjóðar vorrar, víðsýnn, djúphygginn og orðspakur. Sum kvæði hans eru snildarverk. Hann fór tvítugur til Vesturheims 1873 og hefir dvalið þar síðan. Hann er alþýðumaður og hefir jafnan unnið hörðum höndum fyrir sér og sínum. Þó hefir hann lagt þann skerf til bókmenta vorra, er seint mun fyrnast, því að hann hefir auðgað þær bæði að efni og formi. Þjóð vorri, landi og tungu ann hann heitt, sem kvæði hans bezt sýna. — Landar hans í Vesturheimi hafa á ýmsan hátt vottað honum þökk sína, en íslenzka þjóðin hér heima hefir ekki enn sýnt honum neinn vott virðingar sinnar né þakklætis. Kvæðin hans falla henni í skaut, og mætti ætla, að henni væri kært að sýna á einhvern hátt þökk sína í verki.

Vér undirritaðir fulltrúar: Ungmennafélaganna í Reykjavík, Hins íslenzka stúdentafélags, Stúdentafélags háskólans, Lestrarfélags kvenna Reykjavíkur, mentaskólafélagsins Framtíðarinnar, verzlunarmannafélagsins Merkúrs og sambandsstjórnar U. M. F. Í., höfum því afráðið, að gangast fyrir því, að bjóða skáldinu hingað í kynnisför á komanda vori, og safna því fé, er til þess þarf. Vonum vér að öllum vinum skáldsins verði ljúft að leggja nokkurn skerf til þessa, eftir efnum og ástæðum.

Gefendur riti nöfn sín og tillög á lista þenna, og sé hann síðan sendur, ásamt fénu, til gjaldkera nefndarinnar, Helga Bergs, Þigholtsstræti 27, Reykjavík

Reykjavík, 12. desember 1916

Ágúst H. Bjarnason, Guðbrandur Magnússon, Guðm. Davíðsson, Guðm. Finnbogason, Gunnl. Einarsson, Helgi Bergs, Laufey Vilhjálmsdóttir, Stefán Jóh Stefánsson, Steinþór Guðmundsson, Theódóra Thoroddsen.

## BOÐSBRÉFIÐ.

Reykjavík, 2. janúar 1917.

Herra Stephan G. Stephansson,
Markerville, Alberta.

Kæra skáld!

Oft hefir hér verið á það minst manna á meðal og jafnvel á prenti, hve gaman það væri fyrir oss landa yðar, ef oss eittsinn mætti auðnast að fá að sjá yður hér heima á ættlandi yðar. Þér eigið hér að vonum marga vini, sem unna ljóðum yðar og dást að þeim, og mundu þeir einkis fremur óska en að mega sýna yður einhvern vott þeirrar virðingar og þess þakklætis, sem íslenzka þjóðin skuldar yður. Eins og í sumum öðrum efnum hefir þó hingað til framkvæmdanna verið vant, þótt viljinn væri góður. En fyrir skömmu tóku Ungmennafélögin í Reykjavík, Hið íslenzka stúdentafélag, Stúdentafélag háskólans, Lestrarfélag Kvenna Reykjavíkur, Mentaskólafélagið Framtíðin, verzlunarmannafélagið Merkúr og sambandsstjórn Ú. M. F. Í. sig saman um það, að bjóða yður hingað í kynnisför á komandi vori og safna því fé, er til þess þarf. Vorum vér undirrituð kosin í nefnd til að hafa á hendi framkvæmdir í þessu efni.

Vér leyfum oss því hér með að flytja yður heimboð í nafni þessara félaga og allra þeirra, er með oss vinna, og óskum vér þess innilega, að þér mættuð sjá yður fært að taka þessu boði. Það er í ráði, að Gullfoss fari til New York síðast í Apríl næstk. og mundi hann þá að öllum líkindum fara þaðan heimleiðis um miðjan maí, en koma hingað seint í þeim mánuði. Hefir oss hugkvæmst, að sú ferð mundi ef til vill henta yður vel. Gætuð þér þá dvalið hér yfir sumartímann og ferðast um landið eftir vild yðar og langan. Vonum vér að sú ferð mætti verða yður til nokkurrar skemtunar, ef íslenzka sumarið fagnar yður svo sem þér hafið til unnið.

Allur kostnaður af för yðar, frá því þér farið að heiman unz þér eruð aftur heim kominn, skal yður verða greiddur og ferðakostnaður að vestan sendur yður fyrirfram. Munum vér gera það, sem í voru valdi stendur til að yður verði heimkoman ljúf.

Ef þér, sem vér vonum, þiggið heimboð vort, væri oss

kært að fá sem fyrst svohljóðandi símskeyti: Dr. Finnbogason Reykjavík Yes Stephanson.

Með beztu kveðjum og óskum gleðilegs nýárs.

Virðingarfylst.

August Bjarnason. Guðbrandur Magnússon.
Guðm. Davíðsson. Guðm. Finnbogason.
Laufey Vilhjálmsdóttir Gunnl. Einarsson.
Helgi Bergs. Stefán Jóh. Stefánsson.
Steinþór Guðmundsson. Theódóra Thoroddsen.

---

**STEPHAN G. STEPHANSSON.**

**Skáldagramur, gestur mæti,**
**Gaktu' í bæinn, taktu' þér sæti.**
**"Langförull" í listar heimi,**
**Lands vors sæmd af beztu gerð.**
**Óra fórstu, en endist lengur,**
**ennþá muntu fullvel gengur.**
**:,: Klettafari í hug og hreimi,**
**hvað er títt úr þinni ferð? :,:**

**Af þér straukstu vetrarvindinn,**
**vatzt þér upp á hæsta tindinn,**
**söngva vanst úr víðsýninu,**
**vökufús og geislakær.**
**Nær sem Ísland af þér frétti,**
**altaf varstu' á geistum spretti**
**:,: fram úr miðlungs mýsuðinu,**
**máttkvæður og hamrafær. :,:**

**Dýr og þung er þeigna gjöfin.**
**Þú slóst vita' á breiðu höfin.**
**Sólarris að vestanverðu**
**virðir Frón þinn hörpuslátt**
**arnfleygastur Íslendingur,**
**Ameríski bragkýfingur**
**:,: gæfulega goðorð berðu,**
**gelur nýjan Egilshátt. :,:**

**Nú er "Fóstran" fjálg og ræðin:**
**"Fyrirgefðu vöggukvæðin.**
**Gáfur svona glaðvakandi**
**get eg aldrei krept né svæft.**

Þolinn varstu — því fór betur —
þinnar æsku snjóavetur.
:,: Fremd vor bezt í fjörru landi,
frækilega' er mark þitt hæft. :,:

Velkominn þig vornótt býður;
vinarkveðja' í blænum líður.
Dalaelfur djúp þitt róma;
duna fossar gleðislag.
Stormur betri stilling sýnir.
Stuðlabjörgin, frændur þínir,
:,: tíguleg í tíbrá ljóma,
telja sér þinn höfðingsbrag. :,:

Ekki þarftu' í langar leitir,
ljós er kveikt um allar sveitir.
Saman lesa æska' og elli
undir hinstu náttamál.
Logar yfir þessu þingi
þökk frá hverjum Íslendingi.
:,: Heilir þeysi' að þínum velli!
Þakka fyrir silki' og stál! :,:

17. júní 1917. Jakob Thorarensen.

---

## RÆÐA

**dr. Guðmundar Finnbogasonar í heiðurssamsæti fyrir Stephan G. Stephansson, 17. júní 1917.**

Eg man hve starsýnt mér var á grösin, sem uxu upp úr sandinum austur á Fjöllunum, þar sem eg var í æsku. Þau voru kjarnmeiri en aðrar jurtir, og þar var ilmur úr grasi. Eg hefi líka oft hugsað um það, að einhver orðspakasti maðurinn, sem sögur vorar greina frá, var einmitt sá, sem allra manna lengst varð að fara einförum og hafast við á öræfum; eg á við Gretti Ásmundsson. Og mér finst það ekki síður einkennilegt, að tvö afskekt eyðikot skuli me'ast um heiðurinn af því að hafa fóstrað annað eins kraftaskáld og heiðursgesturinn okkar, Stephan G. Stephansson, er. En þetta ber alt að sama brunni. Það sýnir, að

öræfanna andi,
sem á sér ríki og völd

á þessum slóðum, er heilnæmur og **hreinn.** Í biblíunni er oft getið um **óhreina** anda, og eitt af störfum frelsarans var það, að reka óhreina anda út af mönnum, sem þeir höfðu farið í. Hann spurði einn þessara óhreinu

anda að heiti. En hann svaraði: "Legíó heiti eg, af því að vér erum margir." Það var þessi Legíó, sem bað um að mega fara í svínin, og það fekk hann. En Legíó er ekki úr sögunni. Hann lifir enn. Legíó er hinn óhreini andi, sem púkkar upp á fjöldann, höfðatöluna, meirihlutavizkuna, aldarandann, tízkuna. Það er hann, sem vill steypa alla í sama mótinu, þola engum að hugsa, tala, lifa og láta öðruvísi en allur almenningur. Legíó er fjandi alls þess, sem frumlegt er, allra þeirra, sem ekki vilja "binda bagga sína sömu hnútum og samferðamenn". Legíó leitar á hvern mann og margir eru þunglega haldnir af honum. Hann er því magnaðri sem þéttbýlið er meira. En uppi á öræfum má hann sín einskis. Þar ræður hinn hreini andi einverunnar, víðáttunnar, andi frjálsra ferða. Þar er einstaklingurinn veginn á sína eðlisvog. Grösin, sem þar gróa, eru landnemar. Þau byggja ekki í skjóli annara. Þau festa rætur í sandinum upp á sína ábyrgð, lifa eftir eðlislögum sínum af eigin ramleik, í frjálsri samvinnu við sólina, regnið og blæinn. Þess vegna er þar einkennilegur ilmur úr grasi. Þar og finnur andi mannsins sjálfan sig, þar stillast strengir hans í samræmi við náttúruna. Þess vegna eru orð Grettis svo djúpúðug. Skáld öræfanna er

"haralyndur
hlákuvindur —
höfundur sem engan stælir,
sitt í eigin orðum mælir
hvað sem hugsar tún og tindur —
starfar, stundar,
straums og grundar
öflin leysa úr ísa-tjóðri,
opna dyrnar fyrir gróðri,
rumska því sem bundið blundar."

Eg sé ekki betur, en að þetta sé lýsing á heiðursgestinum okkar. Og hafi andi öræfanna nokkurn tíma orðið hold og búið með oss, þá situr hann nú hérna. Stephan G. Stephansson er í mínum augum dularfylsta fyrirbrigðið í íslenzkum skáldskap. Hann er, eins og eg benti á áðan, uppalinn á tveimur eyðikotum, sem nú eru, og hefir víst ekki farið víða um þetta land. Hann hefir aldrei gengið á neinn skóla. Hann hefir alla æfi unnið hörðum höndum fyrir sér og sínum. Hann fer héðan tvítugur og nemur land í annari heimsálfu, ekki einu sinni, heldur þrisvar. Þrisvar hefir hann tekið nýtt land til ræktunar, rutt mörkina og lagt land undir plóg. Slíkt gerir enginn nema sá, sem fæddur er landnámsmaður, forustumaður, sem alt af þorir að ríða á vaðið undan öðrum og

leggja fyrstur hönd á plóginn. Reyndar veit eg ekki, hvers vegna Stephan G. Stephansson hefir ekki numið yndi í fyrstu eða öðru landnámi sínu og ekki fyr en hann var kominn vestur undir Klettafjöll, nema það hafi verið af því, að hann vildi vera sem fjærst Legíó og sem næst öræfunum, svo að hann gæti kveðist á við "andheita fjallrænuna". En í öllum þessum önnum frumbýlingsins, meðan hann var að **yrkja landið**,

> "opna dyrnar fyrir gróðri,
> rumska því sem bundið blundar"

í moldinni, þá hefir hann verið að **yrkja ljóð**, sem hafa flogið eins langt og íslenzk tunga er töluð og geymast munu jafnlengi og hún. Sáðmaðurinn og skáldið **yrkja** báðir á íslenzku, og í lífi Stephans hefir þetta orð alt af haldið sinni tvöföldu merkingu.

Og þetta er það, sem mér þykir merkilegast: Þessi maður sem í æsku lifði óbrotnu lífi alþýðudrengsins á afskektum stöðvum, og síðan hefir nálega hvern virkan dag haft höndina hefta á öxinni, plógnum, orfinu, rekunni, hann er einn af víðlendustu landnámsmönnum og höfðingjum í andans ríki þjóðar vorrar. Þegar hann fór tvítugur úr landi og allir hugðu að hann flytti aleigu sína í einu kofforti, eða hver sem hirzlan hans var, þá flutti hann með sér ósýnilegan sjóð alls þess, sem dýrast er og bezt ættað í tungu vorri, bókmentum og þjóðareðli, og þann sjónauka, er sýndi honum ættlandið í allri sinni tign og fegurð, hvenær sem hann brá honum fyrir augu. Á þann einn hátt get eg gert mér grein fyrir því lífi, sem íslenzkan lifir í ljóðum hans og þeim myndum, sem þar eru af landinu okkar. Í ljóðum Stephans er íslenzkan frjó, hún er þar "mærðar timbur máli laufgað", eins og Egils. Það er eins og honum séu tiltæk orð úr hverju fylgsni íslenzkunnar, forn og ný, þau koma þar í nýju ljósi og óvæntum samböndum, eða steypt upp í þau form, er tungan hefir skapað endur fyrir löngu. Eg varð alveg forviða, þegar eg heimsótti Stephan og komst að því, að hann á enga íslenzka orðabók sem gagn er í—nema sjálfan sig. En þar er líka það orðasafnið, sem seint mundi þrjóta. — Ef eg á að dæma af kvæðum Stephans, þá er íslezkan fær í allan sjó, og verður aldrei kveðin í kútinn, hvaða yrkisefni sem henni er beitt við.

Lýsingar Stephans virðast mér hafa það til síns ágætis, að um leið og orðunum slær niður, einmitt þar sem þeim er ætlað að hitta, þá sindra samlíkingarnar og gera alt lifandi og sjálfstakt. En einmitt þetta hefir á öllum öldum verið einkenni hins sanna skáldskapar, að gefa öllu líf og andardrátt, að gera hina sýnilegu veröld sam-

kvæða við sál mannsins, svo að hún yrði eign hennar og óðal. Og í mörgum beztu kvæðum Stephans finnum vér einmitt þennan undirstraum lífsins í náttúrunni, finnum, að lýsingin gefur hvorttveggja í senn: mynd hins sýnilega og sögu hins ósýnilega anda, sem í því býr og bærist. Í tíbrá málsins rennur náttúran og mannslífið saman. Þar endurspeglar hvað annað, þar sprettur hvað af öðru:

"Mér skapar veröld með einstökum orðum,
íslenzkan nú, eins og hann gerði forðum",

kveður skáldið. Og stundum getum vér naumast greint rödd náttúrunnar og rödd skáldsins að, því að þær eru samróma.

Yrkisefni Stephans eru ekki síður auðug og margháttuð en málið hans. Mann furðar, hvaðan honum kemur allur sá hugmynda-auður, hvar og hvenær hann hefir numið alt það, sem hann veit. Hann hefir sagt, að

"lífsins kvöð og kjarni er það að líða
og kenna til í stormum sinna tíða."

Og það hefir hann gert. Hann er svo veðurnæmur, að hann finnur jafnt til með því sem gerist hér heima á Íslandi, austur á Rússlandi, suður í Transvaal og því, sem nær honum er, og hugur hans býr jafnt í fornöld vorri og sögum og í nútíð og framtíð. Hann fær yrkisefnin úr öllum áttum. Og þegar vér gætum alls þessa og minnumst þess, að skáldgyðjan á sextugasta afmælisdaginn hans sagði við hann:

"Þú helgaðir stritinu hraustleik og dag,
mér hríðar og nótt og þreytu."

Þegar vér með öðrum orðum minnumst þess, að ljóðin hans, með öllu því sem í þeim felst, eru aðallega andvökustarf, þá verður manni að spyrja: Hvenær hefir hann sofið? Eitt er víst:

"Þú hefir af þér æfilangt
engan róður sofið."

Og nú situr þú hér á meðal vor, Stephan G. Stephansson. Vertu velkominn! Við báðum þig að koma vegna þess, að okkur langaði svo innilega til að taka í hönd þína og þakka þér fyrir landnámsstarf þitt í þarfir íslenzkra bókmenta. Þú hefir auðgað þær að margvíslegum ljóðum, sem lifa munu um ókomnar aldir, því að eins og þú hefir sjálfur kveðið til annars skálds:

Yfir áraflóðið
út með Furðuströndum,
langseildara er ljóðið
lengstu vinahöndum!

Það berst út á Ægi eilífðanna
eins og byr til frægstu siglinganna.
Þér þarf ekki að segja það né sanna,
sextugum í flokki yngri manna.

Yfir aldasjóum
óma hörpur Braga,
enn frá eyðiskógum
elztu landnámsdaga.

Hver sem **orti**, ungur þó að félli,
uppi er hann! því kvæði heldur velli.
Aftanskin **þér** skín frá hverju felli.
Skáldin bera fegurst hæstu elli."

Þetta á alt við sjálfan þig, og það er gaman, að því lofi sem þú hefir kveðið um aðra, má snúa upp á sjálfan þig og segja eins og strákarnir: "Það getur þú sjálfur verið." En þú ert jafnframt eitt hið fegursta dæmi þess, sem eg tel ódauðlegan heiður þjóðar vorrar, að íslenzkur bóndi, sem

"ár og eindaga sólbitinn slær,
siglir særokinn, stjörnuskininn stritar,"

hann getur sezt á hinn æðra bekk með andans mönnum þjóðarinnar og skipað þar sæti sitt með rögg og skörungsskap.

Ljóð þín eru oss og sönnun þess, að íslenzkan er landnámstunga og þarf ekki að visna í rót né fölna, þó hún sé gróðursett á fjarri strönd innan um aðrar fjölmennari tungur, að hún reynist máttug í eðli, hvar sem hún kemur og yngist upp með hverju nýju yrkisefni. Vér könnumst í fari þínu við margt það, sem mestum ljóma hefir orpið yfir líf og bókmentir forfeðra vorra: drengskapinn, hreinlyndið, áræðið, einræðið og orðspekina. Þú hefir farið þinna ferða, hvort sem öðrum líkaði betur eða ver, og fylgt því einu að málum er þú hugðir sannast og drengilegast. Allar götur eru í fyrstu einstigi, allir forustumenn einyrkjar. En þar sem góður drengur er fyrir, þó í allra óþökk sé, þar fara aðrir eftir:

"og alfaraleið verður einstígur hans
þó aldirnar fenni yfir sporin."

Við þökkum þér fyrir þann hug og það hjartalag, er þú hefir borið til þjóðar þinnar og ættjarðar, fyrir öll yndislegu kvæðin, sem þú hefir til þeirra kveðið. Við þökkum þér fyrir það, að þú lézt þér ekki fyrir brjósti brenna að leggja út á hafið það hið djúpa og hættulega og koma hingað, og við óskum og vonum, að ferðin megi verða þér til ánægju og að ættjörðin fagni þér með öllum þeim unaði og blíðu, sem hún á til. Við vonum, að hún reynist þér eins og þú hefir kveðið:

nóttlaus voraldar veröld
þar sem víðsýnið skín.

Sít heill með oss!

---

## UM STEPHAN G. STEPHANSSON.

(Flutt á kvennahátíðinni í Reykjavík 19. júní 1917.)

Skáldið vestur-íslenzka, Stephan G. Stephansson, er kominn heim. Það er næstum eins og æfintýri, að við skulum loks fá að sjá hann hér heima og geta þakkað honum sjálf með hlýju handtaki fyrir ljóðin hans. Þau hafa alt af borist oss úr svo mikilli fjarlægð, full af heimþrá, full af ást og fölskvalausri trygð til ættjarðarinnar og alls, sem íslenzkt var. Ástaljóð til ættjarðarinnar eru altaf fögur, en þó hjartnæmust úr fjarlægðinni. Það átti vel við, að höfuðstaðarbúar gátu fagnað honum hér heima 17. júní, á minningardegi þjóðarinnar, en konurnar vildu líka fegnar minnast heimkomu hans á hátíðisdegi sínum 19. júní.

Og konurnar hefðu líka fylstu ástæðu til þess. Stephan er jafnréttismaður meir en að nafninu til. Fá skáld okkar myndu fremur samfagna konum með fengin réttindi, skilja betur hverja þýðingu þau réttindi hafa og gleðjast yfir því, að konur kynnu að meta þau. Þetta sýna margar kvenlýsingar hans ótvírætt. Það eru engin væmin ástaljóð, enginn fagurgali. Þau eru þar hvergi til þessi "vesælu lognmolluljóð" um "lífið mitt blíða" og "elskan mín fríða". Hann krefst þess líka af konunum, að þær hafi til að bera heilbrigði og andlegt göfgi, séu sannar konur. Þá eiginleika kann hann að meta. Hann markar þá með fám orðum en skýrum. Og mér finst hver kona oft vera betur sæmd af að fá viðurkenningu frá Stephani í tveimur, þremur ljóðlínum, en af löngum lofkvæðum af venjulegri gerð. — Eg mundi fljótt hafa getið mér til um höfundinn að öðrum eins vísuorðum og þessum:

"Og drotningar hjarta er viðkvæmt og varmt
þó varirnar fljóti ekki í gælum".

En hann hefir líka auga fyrir kvenfegurð sé hún hrein og sönn.

"Og vorsins yndi og örugt traust
mér ofið fanst í svip þinn inn,
og viðmót hýrt og hispurslaust"

segir hann í eina mansöngnum, sem til er í Andvökum. Þar finnur hann að vorið sjálft hefir tekið sér gerfi þessarar konu. Hann er viss um það, því allir eiginleikar hennar eru eiginleikar vorsins. Í yfirliti hennar er vorfegurð.

"Og svipur yfir ennið hátt,
—svo æskuslétt og frítt og breitt—
af dagsbrún langri í austurátt
þá alt er loftið milt og heitt.
Hún árdags lit og ljóma ber,
en ljósið bak við skærra er.

Og augun dökk við dimma brá
— svo djúp og skær og morgunglöð —
þau sýndust öllu ljós sitt ljá.
Eins ljóma í geisla döggvot blöð,
þá út um skúra skýin svört
sést skína um dagmál sólin björt."

En sál hennar er líka þrungin af geislum og heiðríkju vorsins.

Og mér fanst æ við orðin þín
mér opnast heimur fagurskýr
og alt hið forna sökkva úr sýn,
en sjónarhringur birtast nýr.
Svo breytir vorið velli og björk
og víkkar heimsins endimörk.

Það var sem inst í öndu mér
að augun þín þú hefðir fest,
og eins og vísað væri þér
á versin þau sem kvað eg bezt.
Svo ratar vor á blómablað,
sem býr í skugga á eyðistað."

Það væri engin tískubrúða né tildursdrós, sem fengi svona kvæði. Ljóðin til þeirra eru öðruvísi. Þar er Hlaðgerður fremst í flokki. Þar kveður við annan tón:

"Nú skil eg hví hönd þín var hvít eins og ull
en haldlaus,—og þetta sem skein eins og gull
í silkiþráð glitað, þitt glóbjarta hár,
var gefið til sýnis, en engum til fjár.
Þú hefðir ei léð það til liðþurfa manns,
í lífshættu stöddum, í bogastreng hans.

Nú sé eg að augun þín svelldoðagljá
sem sævarós lagður, en djúpöldublá,
en tennurnar, hvirfing úr hafperlum gjör
um hláturinn tamda, er svaf þér á vör —
og heiðslétta ennið og íroðin kinn
var alt saman gert fyrir spegilinn þinn."

Eg hefi oft undrast, hvernig hægt var að koma svo glöggri mynd og jafn sárbiturri ádeilu fyrir í tveim erindum. En hann skygnist líka dýpra:

"Trúðu mér, Hlaðgerður að eins um eitt,
eg yrki ekki til þess að sakast um neitt."

Afsökunin er þessi.

"Venjurnar heimta þig svona til sín,
úr siðum og háttum er innrætni þín.
Og það er oss sveinunum sjálfþakkavert,
því svona við höfum vor boð til þín gert."

Þeir væru ekki allir, karlmennirnir, sem fengjust til að viðurkenna þetta, að almenningsálitið þurfi hér að breytast, kröfurnar að verða heilbrigðari og stærri. En þá eru kvenréttindin fyrst komin í rétt horf, þegar bæði karlmenn og konur skilja það til fullnustu.

Stephan finnur sjálfur til þess, að hann er ekki ástaskáld, eftir venjulegum mælikvarða. Hann kann ekki listina þá, að ríma alt upp á "sál" og "bál", "hjarta" og "bjarta" og "ást" sem "brást". Hann segir sjálfur um það:

"Já, mig, sem var þrásinnis kveðinn í kút
og kaus mér að hlusta og þegja,
er hjúfrandi ástaskáld heltu sér út —
ef hendingar kvæði eg til meyja:
hver tólf vetra Rósalind reigðist við mér
með "rómaninn" fyrsta í kjöltunni á sér!"

Því miður eru þær konurnar of-margar, sem halda áfram við rómanalesturinn, en reigjast við kröfum og kenningum þeirra, er hugsa eins og Stephan G. — Of fáar konur hafa líka lesið ljóð hans þannig, að þær hafi grafið þar

til gullsins. Þær gætu ekki allar sagt eins og Ólöf á Hlöðum:

"Stephan G. minn Stephansson
stendur bak við tjöldin.

Annars hugar utan við
oní potta gæti' eg,
stari inn á andans svið,
óði hans þar mæti eg."

Stephan er orðfár. En það sem hann segir, er honum alvara. Þess vegna er stundum hálfkveðin vísa frá honum meira virði en eldheitar ástarjátningar á vörum sumra annara. Það er ekki íburðamikið þetta um stúlku, sem hann játar, að ekki hafi neinn sérstakan fríðleik til að bera:

"En liti eg augun hennar hlýju í,
hreinlega sagt: eg fann til ljúfrar gleði."

Og svo kemur þessi lýsing á tilfinningalífi hans sjálfs:

"Eg á til, karl minn, kró í huga mér,
hvaðvetna fagurt óvart þangað safnast.

Sumarkvölds eilífð, skógur skúra blár,
skrúðbúin hlíð og fossahljóð þar stendur,
hrafnsvartir lokkar, ljósar augnabrár,
ljúflinga brjóst og mjúkar hvítar hendur.

Mér er þó sérhvers svipmynd ung og ný—
samt á eg enn þar marga kyma tóma.
Fallegu augun hennar þráfalt því
þangað sér smeygja milli eldri blóma."

Finnum við ekki að inn í þessa kyma hefir fátt getað smeygt sér, nema það, sem var "ekta"?

Og hún er "ekta" myndin, sem hann dregur upp, þar sem hann í minningarljóðum um frændkonu sína kveður þannig:

"Og höndin þín kvenlega, knáleg og feit,
sem kærleikur mjúk og sem einlægnin heit,
jafn hæf til að styðja og hjúkra:
öll vandaverk sýndist að gæti afgreitt
og geirinn, ef þyrfti, eins hæglega reitt
sem hagræða hægindi sjúkra."

Væri ekki hver kona öfundsverð, sem fengi slík erfiljóð? Einmitt frá manni eins og Stephani G. Stephanssyni,

manni, sem ekki virðist kunna að smjaðra. Eða sú, er fengi minningarljóð, lífs eða liðin, líkt og í kvæðinu "Kurly". Það er æskuvina hans. Hann hefir ekki séð hana né frétt af henni árum saman:

"Þann kaldlýsta haustmorgun höfðum við kvaðst,
þú hrygg, — eg með fáyrðaró."

Hann gleymir henni aldrei. Eftir þessi mörgu ár, er hann að geta sér þess til, hvar hún muni vera og hvernig henni líði. Hann veit það ekki, en eitt veit hann: hún hefir aldrei getað tapað manngildi sínu, sem sönn og fögur kona, hlýtur alt af að vera dýrmæt og hrein perla, hvert sem fífsflaumurinn hefir skolað henni.

"Þú átt kannske í fjölsótta garðinum gröf
við "gleym ei" og drjúpandi tré —
'ið bezta kvað fallvaltast, forlögin þau,,
að fegurðin skammlífust sé.
Og það, sem er ágætast, þroskast og fyrst,
og þarf ekki áranna með.—
Eg fæst ekki um ranglátt þó ræzt hafi á þér
sú reglan, sem vel getur skeð.

Þó sætir í dýflissu, dæmd henni var
oft drenglund, eins hrein eins og þín. — —

Og eins er það sama þó sjálfsmenskuþræll
þú sért eins og fjöldinn og ég,
þín snild breytir hreysum í hallir og skart
í heimkynni allsnægjuleg.
Því kongborin sál gerir kimann að sal,
að kastala garðshornið svalt!"

Þó frú sértu göfug og skrýðist í skart,
sá skrúði þér maklega fer,
þú prýðir svo gullið! — og demantadjásn
er dýrmætt í hárinu á þér.

Í gröf þína, "Kurly", mín kveð eg um jól
í kot þitt. í höll þína inn.
Í fásinni áranna ekki er þér gleymt,
því enn er eg riddarinn þinn."

Mönnum eins og Stephani G. Stephanssyni er ekki svo mjög hætt við að gleyma. Konur, eins og þær, sem hann lýsir bezt, ættu að vera ógleymanlegar, og hann hefir gert sitt til að þær verði það.

Fáar ræður eru yfirleitt lítilmótlegri og væmnari en allflest "minni kvenna", sem flutt hafa verið í heiminum.

Þau hafa sjaldan haft bætandi áhrif á hugsunarhátt né þroska kvenna, né átt að hafa það. Okkur hefir oft langað til að loka eyrunum fyrir þeim.

En í "Andvökum" Stephans G. eru mörg minni kvenna, sem gætu gert okkur göfugri og stærri. Það ætti engin okkar, að loka eyrunum fyrir þeim. Við konurnar stöndum þar í þakklætisskuld. Þau minni eru þannig vaxin, að við getum helgað þau öll 19. júní.

**Ingibjörg Benediktsdóttir.**

---

**Sundurlausir þankar gamals Þingeyings,** sem ætlaði að vera á samkomunni í Reykjahlíð, en gat ekki komið því við:—

**"Hver er alt of uppgefinn"?—**
**andlit þó að sólin brenni—**
**að taka hnakk og hestinn sinn,**
**hleypa' á sprett um fjallveginn,**
**láta golu leika um kinn,**
**lokka strjúka burt frá enni.**
**Hver er alt of uppgefinn,**
**andlit þó að sólin brenni?**

**Úr Klettafjöllum komið er**
**kraftaskáld á austurvegu,**
**að óðsnild það af öðrum ber,**
**andans jötunn karlinn er,**
**ellimörkin enginn sér,**
**orti hann kvæðin snildarlegu.**
**Úr Klettafjöllum komið er**
**kraftaskáld á austurvegu.**

**Til allrar gæfu andvaka**
**oft og tíðum skáldið þreytti,**
**hljótt þá stilti hann hörpuna,**
**hóf svo flug um geimana,**
**kom á öldnu eyjuna,**
**aumu hreysi í kongshöll breytti.**
**Til allrar gæfu andvaka**
**oft og tíðum skáldið þreytti.**

**Nú er færi að hylla hann,**
**hér í fjallavætta-ranni,**
**þar sem Jökla farveg fann,**
**freyddi hver og hraunið brann,**



*Lágmynd af Stepháni G. Stephánssyni.*
*Eftir RÍKARÐ JÓNSSON.*

Þar sem dísin dýra spann,—
dæmdi sköpin þessum manni.
Nú er færi að hylla hann,
hér í fjallavætta ranni.

Sveitin brosir brúnahýr,
býður faðminn Klettaskáldi,
henni hvað í brjósti býr
boðar sunnan andinn hlýr,
alt hið leiða fælist, flýr,—
felur hún gestinn drottins valdi.
Sveitin brosir brúnahýr,
býður faðminn Klettaskáldi.

I. G.

---

Til skáldsins
STEPHANS G. STEPHANSSONAR
1917

[Ath.—Kveðið eftir ósk merkismanns, ættaðs úr Skagafirði, þegar búist var við að skáldið stigi þar fyrst á Norðurlandi.—M.J.]

I.

Þetta kalda kafbáts-ár
kom þú heill frá Ægi,
líkur Agli kraftaknár,
Klettafjalla-Bragi!

Eftir fertugt ára skeið,
auk þess fjóra vetur,
bygðar þinnar brjóst og
heið
brosa helgiletur.

Mikla sögu þylja þér
þúsund aldir fjalla!
Alt sem lífs og ljóssins er
lifir dagana alla.

Greiði hárið heilög sól
hátt mót Tindastóli,
veki dís og dánarskjól,
dverg og álf í hóli!

Tíbrá leiki töfraspil,
tindri bygð og flæði,
svo við ljós og líf og yl
leiðum skáld frá Græði.

Glymji loft af gleðibrag,
glóðu forni Hólmur.
meðan hnegg og hófaslag
herðir jórinn ólmur!—

Félaus sveinn í ferjuskut
forðum, vinur, stóðstu,
en meður stóran mærðar-
hlut
minnisknörrinn hlóðstu.

Bak við augans ægishjálm
innri barstu þunga—
meiri hugans hreystimálm
Hrólfs eða Kolbeins unga.

Því að fyr en fórst' á hvarf
fannasnótin bjarta
faldi sjálf sinn andans arf
undir rót þíns hjarta.

Bauð þér öll þín aðalljóð
ausa Míms af brunni;
hvar sem mark sitt miðar
þjóð
móti náttúrunni.

Víst þú fórst með ærinn
auð
ef þitt starf er leiga,
síðla verður sveitin snauð,
sem það gull má eiga.

Stutt er æfin, listin löng;
lifi, skáld, þinn óður
meðan kveður svanasöng
sonur góðri móður!

Auður skáldsins segir sex—
sannleik þann ei efum,
því hans arður ætíð vex
æ því meir sem gefum.

Sumra höfuð segjum vér
sýnist Kaldidalur.
Hvað er það, ef hjartað er
helgur dísarsalur?

Kenni jökuls höfuð hans,
hart sem refsar lýði;
hjarta elds og hvera lands
hrósar innri prýði.

Þú hefir spáð að spillingin,
—spilling auðs og valda,—
yrði meir' en menningin
myndi velli halda.

Lífið mörgum sýnist svart:
svikul stjórnarvöldin,
fárra valdið verra' en hart,
— verst ef ræður fjöldinn.

Hvenær olli ágirndin
öðru eins syndaflóði,
þar sem vitskert veröldin
veltir sér í blóði!—

II.

Nú fyrir þings vors boð og
bann,
Bakkus týndi öndu,
siðprýðin og samvizkan
selur nú tóma blöndu!

Þó skal drekka þína skál,
—þó að nokkrir stikni;—
til að fita fjör og sál
færðu — sauðaþykni!

Far svo heill með frægð og
þökk
fyrir komu þína;
ættarbygð þín innir klökk
elsku og virðing sína!

Matth. Joch.

---

Kveðjusending til Klettafjalla-konungsins:
STEPHANS G. STEPHANSSONAR,
frá Ólöfu á Hlöðum.

Nú, þegar kletta-kongsins nöfn
frá kleif og hömrum gjalla,
svo lyftir höfði' og hlustar dröfn,

og hnjúkar minna fjalla,
jeg hefst á loft að horfa á það
að hnjúkurinn lyftist kaldi,
og vildi helzt nú hlaupa' af stað,
að hneigja slíku valdi.

En, þó mig langi, — liggja' á bönd —
að lítirðu fegurð mína.
En eg á langa hugans-hönd
og henni' eg lauma' í þína.
En, hugsir þú: ó, þetta' er frekt,
og þarna' er vitlaus hitinn!
Eg svara: Þetta' er þægilegt,
og þér er sama um litinn.*

Á jólum einum átti' eg þig,
um alla nátt og daginn.
Og eftir það þú eltir mig
um endilangan bæinn.
Eg brendi graut, svo brá hann lit,
og bunu helti' í eldinn.
Sem húsfrú misti' eg hálft mitt vit,
En hlakka til á kveldin.

Þó leiki sér ei létt og ungt
um loft, þinn dýri hróður,
sem hafsins duna, dynur þungt,
þinn djúpi, sterki óður.
Í annara lest þú aldrei sést,
en ert úr þínu' að vinna.
En það sem mest er,—ber af bezt,—
er breiddin vængja þinna.

Á meðan ertu' í heimi hér,
með hraun og klettum ljótum,
og vængir enn meir vaxa þér,
sem valda sveiflum skjótum,
að standir þú, — það ósk mín er, —
sem allra dýpstum rótum,
svo verði aldrei, aldrei þér
neitt ósköp kalt á fótum!

---

*) Sbr. "Minni kvenna" 1917.

## TIL
## STEPHANS G. STEPHANSSONAR

Kom heill til vor, Stephán, um hauður og sjá !—
Sig húmið og vetur nú felur,
en Fjallkonan býður það bezta, sem á,
við brjóst hennar meðan þú dvelur.
Hún á ekkert betra en sumar og sól
og svalandi lindirnar tæru
og vorblómin ungu um velli og hól
og vináttu barnanna kæru.

Þó værir í fjarlægð, hún vissi það ljóst,
þú varst henni trygglyndur mögur,
og mundir alt gott„ sem hún blés þér í brjóst
sem barni, og hvað hún er fögur.
Hún fann það á ljóðunum fegurstu, þeim
sem flutt' h'enni sonurinn góður,
hve margsinnis leitaði hugurinn heim
að hjartastað elskaðrar móður.

Á barnið sitt leggur hún blessandi hönd,
og biður af ástríku hjarta,
að hvar sem að sporin þín liggja um lönd
þá leiði þig hamingjan bjarta.
Hún vill sjá þig lengi í vígefldum móð
á vonzkuna logörvum slöngva
og heyra þig kveða in hamrömmu ljóð
og hugljúfu elskunnar söngva.

Páll J. Árdal.

---

## Í Drangey.

Sauðárkróksbúar buðu Stefáni Klettafjalla-skáldi að fara út í Drangey, þegar hann heimsótti þá í ágústmánuði. Eg var svo heppinn, að geta slegist með í förina. Við fórum á mótorbát 10 saman og eyddi mótorvélin hinni síðustu olíu, sem til var á Króknum, en enginn taldi það eftir. Hann var hvass á norðaustan, svo að sumir vildu letja okkur fararinnar. En okkur Stefáni koma saman um að úr því Gretti hefði tekist að synda milli Drangeyjar og lands, þá ætti okkur ekki að vera vorkunn að komast það á mótorbát. Það gaf talsvert á bátinn, en við vorum allir í olíufötum og vatnsstígvélum eins og ferðamenn í sunnlenzkri rigningatíð. Vorum

3½ tíma á leiðinni. — Eyjan er tignarleg ásýndum, því hún gnæfir hátt úr sjó sem teningsmyndaður stöpull til að sjá, eða eins og fell þau, sem kölluð hafa verið Kistufell. Þegar nær dregur, fríkkar hún, því þá kemur betur í ljós hið móleita berg, sem fuglarnir hafa málað allavega með skringilegum drit-rósum, en að ofan er hún alþakin grænum grassverði. — Bjargið er alsett fugli og heyrist ekki mannsins mál fyrir gargi. Nú eru það nærri eingöngu ritur og einstaka lundar, sem búa í bjarginu. Langvíur og aðrir bjargfuglar, sem mest er af á vorin, hafa flutt búferlum, þegar líður á sumarið. — Við lentum í Heiðnabergsvíkinni. Þar er breið glufa í bergið og partur af eynni hefir klofnað frá, sem heitir Lambhöfði. Í víkinni er blæjalogn og dauður sjór og þar er dálítil fjara, þar sem hægt er að lenda. — Heiðnabergið þótti varasamt fyrrum, þar til Guðmundur góði vígði það. Grá og loðin hönd, sem hélt á beitti skálm, kom út úr berginu og hjó sundur vaðinn fyrir þeim sem, seig í bjargið. — Má vel vera, að einhver hvöss steinnybba hafi kubbað vaðinn og biskup hafi höggvið hana burtu líkt og sagt er um prest nokkurn í Grímsey, sem fenginn var til að vígja bjargið þar. Hann sá strax hvernig í öllu lá, hafði með sér hamar í laumi, en lét karlana syngja sálmsversin svo hátt að þeir heyrðu ekki hamarshöggin. En vígslan dugði vel.

Manni verður starsýnt á fuglinn í bjarginu. Furðanlegt hve honum tekst að finna þrep fyrir hreiðrin, en rúmlítil eru sum þeirra og sést það á dauðum ritu-ungum, sem finnast rotaðir við bjargræturnar í fjörunni. Sumir hafa máske rotast af grjóthruni úr berginu, því alt af er að molna úr berginu, og einhvern tíma verður engin Drangey lengur til. En margar ritur munu þó komast á legg og á loft, áður en svo stór brestur verði.

Fuglinn flýgur snöggvast upp, þegar við lendum, en sezt von bráðar aftur. Samkomulagið er misjafnt, jafnvel milli hjóna. Sumir höggvast með nefjum og fiðurreita hver annan út af síldarbita eða annari átu. En aðrir gleðjast yfir sólskininu, nugga saman nefjum í kærleika eða verma hvor öðrum með dúnmjúkum, blóðheitum brjóstum og vængjakrikum. Munarkossar og móðurfaðmlög. — En af hverju lundarnir eru ýmist kallaðir prestar eða prófastar, skal látið ósagt. Þegar þeir standa hnakkakertir á afturfótunum, ólíkir venjulegum fuglum, og styðja sig við spert stél, svartklæddir, nokkrir saman á bergsyllu í samræðum, — þykir sumum það minna á hempuklædda presta á prestastefnu.

Við megum nú ekki vera að því, að sinna fuglunum frekar, en þó má snöggvast minnast með viðbjóði á, hvernig vesalings langvíurnar eru veiddar hér við eyna.

Lifandi langvía er bundin á fleka, sem margar hrosshárssnörur eru festar við. Langvían baðar vængjunum og reynir að losa sig. Vinkonur hennar og félagar koma til hjálpar, setjast á flekann hjá henni og festast þá í hinum lævísu snörum. Síðan er hópurinn rotaður með sama bareflinu, — af loðinni grárri hönd, sem kemur út úr bátnum. "Svo er lokið því lífi", og er vel ef að gengur eins og í sögu, en aftur má fyrsti fuglinn, og hinir líka, lengi berja vængjunum í sjórótinu, til að verjast köfnun, áður en þeir fái að losna alveg við lífið, og stundum er hópurinn allur drukknaður, þegar að er komið.

Nú ráðumst við til uppgöngu á eyna. Að eins á einum stað verður upp komist, og þó að eins með festi, þar sem erfiðast er. Á dögum Grettis var notaður stigi, en óvíst er, hvort leiðin sé sú sama nú og þá. Ef farið er upp á Lambhöfða, er notaður stigi upp efsta bergvegginn. Fyrst göngum við upp bratta skriðu. Lausagrjótið hrynur undan fótunum í hverju spori og er því ófýsilegt að vera beint á eftir öðrum. Ofan til er skriðan þéttvaxin háu melgresi og er hægt að létta fyrir sér með því að toga í það. — Þá kemur stallur til að hvíla sig á, síðan ný skriða. Því næst beygir leiðin til hliðar inn á mjóa skeið eða syllu í berginu. Þá er maður hálfnaður eða kominn í fimtíu faðma hæð, en eftir eru enn fimtíu faðmar, því bjargið er tírætt. Og nú er gengið á ská upp eftir syllunni, þar til kemur að horni á bjarginu, sem syllan beygir kring um. Syllan mjókkar hér og bergið slútir fram uppi yfir höfði manns, en neðan við er þverhníptur hamar niður í gínandi grænan sjó. Þetta horn er kallað "altarið" og var þar beðist fyrir til forna, en nú er slíkt talið óþarfi af flestum, nema máske í hljóði. Hér hefir löngum þótt ægilegt umferðar og sundlar marga, er þeir horfa niður fyrir sig. Við förum hver á eftir öðrum í halarófu eða göngum áhlið og höldumst í hendur til að styðja hver annan. En þegar við erum sloppnir fyrir altarið, finst okkur þetta hafa verið leikur einn, og spyrjum: — Eru þetta þá öll ósköpin? En bitti nú. Ekki er alt búið enn. Nú kemur enn þá skriða og skáhalt berg, sem ekki verður fótað sig á, nema með festi. Og hér hangir niður af efstu brúninni löng járnfesti til að halda sér í. Hún er orðin gömul, því hún er rauðryðguð, en alldigur er hún. Nú þræðum við okkur hver á eftir öðrum upp með festinni, stígandi upp skriðuna og bergið. Grjóthrunið helzt í hverju spori. Snöggvast kemur í mann geigur, að festin kunni að bila, því hún er orðin okkar líftaug — hver veit nema þann sett ryðið hafi étið sundur einhvern hlekkinn? Og eðlisfræðin segir, að styrkur hennar mælist einmitt við þann ólánshlekk. Kveifarskapur! — Þetta gengur nú alt vel.

En eftir er örðugasti hjallinn og sá efsti. Hann er þverhníptur sem veggur, nær tvær mannhæðir. Þar verður maður að neyta handhafls að mestu, því erfitt er að festa fætur á litlum afþrepum, og vega sig svo upp af handafli. Þetta gengur þó furðanlega, líka sextugum öldungum, sem í förinni eru, og nú gleðjum við okkur við útsýnið og leitum okkur að góðu skjóli í sólríkum hvammi sunnan á eynni. Eftir sjóvolkið og uppgönguna þurfum við hressingar og opnum því nestismali. Óbrotið smurt brauð er nú á bragðið á við hvern herramanna mat. Eftir snæðing fáum við aðra hressingu. Síra Hálfdán hafði verið svo hugulsamur, að taka með sér bæði Grettlu og nokkrar kvæðabækur, og las nú fyrir okkur kafla um Drangeyjardvöl Grettis, kvæði um Glám eftir Grím Thomsen, Drangeyjarkvæði föður míns og seinast fékk hann Stefáni í hendur kvæðabók hans til að lesa upp Illugadrápu. Urðum við sannfærðari en áður um, hve kvæði það er mergjað og vel ort, og yfirleitt nutum við lestursins þarna í eynni ágæta vel. Við lituðumst nú um í eynni. Hún er grösug vel—svo fá tún geta jafnast á við hana, og alt er töðugras. Mætti hér heyja um 200—300 hesta—en að það ferst fyrir, valda erfiðleikar við flutning niður af eynni og til lands. Jónas læknir og Baldvin kaupmaður, sem leigt hafa grasnytjar eyjarinnar, létu í sumar heyja þar um hundrð hesta. Þeir létu heybaggana renna niður fyrir bjargið á streng, en útbúnaðurinn var erfiður og strengurinn vildi slitna. Ef heyþurkar eru slæmir, er dýrt að halda fólk úti í eynni. Fengju þeir lífstíðarábúð, mundu þeir byggja bæ úti í eynni og mundu þá margir keppast um að fá að búa þar, á sumrin að minsta kosti. — Að eins er ilt um vatn í eynni. Það er einungis í einum hellisskúta, sem dálítið vatn seitlar úr berginu, svo að fylla má vatnsfötu á sólarhring, þegar bezt lætur. — Fé getur lifað sjálfala alt árið úti í eynni, en þó hefir komið fyrir svo mikið fannkyngi, að það hefir fallið stöku vetur, ef ekki hefir náðst til þess í tíma. Maður dáist að öllu grasinu, og saknar þess, að enginn skuli búa í eynni. Væri þar vel í sveit komið laglegri riddaraborg. Og væru Skagfirðingar herskáir eða ættu í vök að verjast væri hér vígi gott til varnar óvinaflota, en sennilega þyrftu þeir að styrkja standbergið með steinsteypu gegn hruni, eins og sagt er að Þjóðverjar hafi gert við Helgolandskletta, sem þeir kríuðu út úr Englendingum.

Við göngum fram á Hæringshlaup, þar sem Hæringur flúði fram af undan Illuga. Engin furða, þó að brotnaði í honum hvert bein, eins og sagan segir.

Þar sem eyjan er hæst og þar sem útsýni er bezt um eyna og sjóinn í kring, þar eru rústir af kofa Grettis.

Utan við þær er stór steinn og eru í hann klappaðar tvær holur eins og skessukatlar. Þar er sagt að Grettir hafi safnað í rigningarvatni til drykkjar. Aðrir búshlutir hans eru þar ekki lengur til minja. En í anda sjáum við hetjuna sjúka og særða í rúminu, með Illuga sér til hlífðar að baki, verjast ofurliðinu, sem þurfti að brjóta niður kofann til að ryðjast inn. Síðan hefir Grettisskýli legið í rústum.

Við leggjumst í grasið og syrgjum yfir örlögum Grettis. Okkur verður litið út á sundið, þar sem hann svam yfir til að sækja eldinn. Það er talin vika sjávar, en straumur gengur inn milli eyjar og lands allþungur, sem gerir sundið lengra og örðugra. Sagan segir, að Grettir hafi reiknað það með, tekið stefnuna utar og látið strauminn hjálpa sér. Stefán skáld kvað vísu:

Mörg var sagt að sigling glæst
sjást frá Drangey mundi;
en Grettis ber þó höfuð hæst
úr hafi á Reykjasundi.

En við erum þó svo bjartsýnir, að við teljum sjálfsagt, að enn eigi eftir að fæðast meðal vor jafnokar Grettis á sundi. Sundmaðurinn góði, Benidikt Waage í Reykjavík, hefir glætt þessar vonir hjá okkur.

Við göngum um alla eyna og tekur það töluverðan tíma, því hún er stærri en hún sýnist. Yfirborðið alt um tíu dagsláttur. Að því búnu förum við niður aftur, og veitist það ólíkt léttara en uppgangan. Á leiðinni niður verður maður varla var við altarið svo auðgengt er fram hjá því, þegar undan hallar. Við hvílum okkur á melgresistorfunni og annari torfu, þar sem alt er þakið baldursbrá og skarfakáli.

Förin upp á Drangey er hressandi og skemtileg, nema þeim, sem hætt er við sundli og svima, en hættulaust er uppgangan öllum, nema þeim, sem eru bráðfeigir. Flestir halda uppgönguna erfiðari en raun er á og stafar það sennilega af stærilæti sumra þeirra, sem upp hafa komist, en eitthvað orðið smeykir á leiðinni.

**Steingrímur Matthíasson.**

---

## STEPHAN G. STEPHANSSSON.

**"Sumarið mun líða",**
**laufið dali prýða,**
**syngja munu sólskríkjur**

í sælubústað hlíða;
fljúga munu álftirnar
til fjallanna með söng
og bergmálshuldur hjala margt
í hamra bæja þröng.

"Sumarið mun líða"—
ljósar nætur bíða
upp á heiði og út við haf
unz árdag geislar skrýða;
mildir skína munu þeir
á mosa, lyng og strá,
sem breiða angan, líf og lit
leikstöð forna á.

"Sumarið mun líða" —
langt mun þess að bíða,
að sonur týndur sjái blóm
sinna bernskuhlíða.
Jeg skal segja þröstum þeim,
er þreyta saman óð,
hve sorg hans þráir sáran
sumargesta ljóð.

"Sumarið mun líða"—
Ljúfum fjötrum hlýða
verður hver og vitja' á ný
vorsins laufa tíða.
Eg skal tína blómstur blá
og breiða' á ránarsand
fyrir þann, sem fjarri þráir
fjalla- og strauma land.

HULDA.

---

## AÐ STEPHANS G. STEPHANSSONAR.

Kvöldsólin hnígur í Kyrrahaf
og Klettafjöll rósbjarma skreytir;
eg styð mig við frónskan flækingsstaf
um fagrar og ókunnar sveitir;
svo kem eg að bæ og ber á dyr—
á bjagaðri ensku ég heimamann spyr
hver sé húsbóndi hér,
þá hlær hann af undrun og svarar mér:
Stephan G. Stephansson.

Svo þetta er land hans, og þetta bær,
og þarna' á hann búslóð sína' alla;
svo það er hér, sem hann hörpuna slær
svo að heyrist til Íslands fjalla.
Hér býr hann þá, íslenzki útlaginn,
sem var útlægur gjör fyrir hörpuslátt sinn,
þennan andvöku óð,
sem að ókyrði' og vakti hans sofandi þjóð.

Hér vil eg gista—og heimamann bið
til húsbóndans kveðju að bera
frá vegmóðum Íslending anddyr hans við,
sem óski að fá að vera.
Og sveinninn fer inn að segja það,—
svo kemur maður einn út á hlað,
mundar hendina' á mér,
mælir djarflega: Nefndur eg er
Stephan G. Stephansosn.

Eg stari á hann—undrast þá Íslands synd
að eiga 'ann í fjarlægu ríki.
"Hann er eins og hreystinnar heilaga mynd"
væri' hún höggvin í útlaga líki.
Úr hendi hans streymir styrkur og þor,
stálvilji, framsókn, íslenzkt vor.
Fátt er fatnaði hans,
fjölskyldumannsins og landnemans.

Eg heyrði til Íslands þinn hjartaslátt,
um húmdimmar andvökunætur,
og veit hve oft sá á erfitt og bágt,
sem í útlegð af heimþrá grætur.
Eg þekki þig, hetja, þinn andvökuóð,
þitt Íslendingshjarta, þitt norræna blóð,
þína ættjarðar ást,
sem í útlegð var dæmd til að lifa—og þjást.

Eg þekki þig, hetja, þau skot, er þú skauzt,
það skotvopn er tókstu í hendur,
þegar þú sjálfur blæðandi brauzt
á bak aftur þína fjendur.
Svo græddir þú þeirra svöðusár
með söngvum—nú brosa þeir gegn um tár,
til hins syngjandi svans,
til sigrandi mannúðarpostulans.

Og ef til vill var eg einn af þeim,
sem fékk áverka af þér fyrir löngu,
og gróinn af sárum sæki þig heim,
soltinn og þreyttur af göngu.
Eg er kominn til þín yfir Klettafjöll,
yfir koldimmar sprungur og vatnaföll,
til að þakka þér
þrekvirkið, sem þú vanst á mér.

Hann býður mér inn í bæinn sinn,
og brosandi spyr hann mig frétta
heiman af Íslandi, útlaginn,
með ánægju segi' eg það rétta:
Að Ísland þakki hans andvökuljóð,
því þau örvi og kæti' hina vaknandi þjóð,
þrái að hafa hann
við hjarta sitt skáldið og útlagann
Stephan G. Stephansson.

DAVÍÐ STEFÁNSSON frá Fagraskógi.

---

## MINNI
## STEPHANS G. STEPHANSSONAR, skálds.
### Ísafirði, 30. ágúst 1917.

Vinir mínir hér í bæ hafa leyft mér að bjóða hingað velkominn heiðursgestinn, **Stephan G. Stephansson, skáld,** af því að eg mun vera eini maður hér, sem hefi kynst honum vestan hafs, og mér er þetta bæði ljúft og skylt, vegna þeirrar vináttu, sem verið hefir, og er, okkar í milli.

Kvæði þessa skálds eru mönnum kunn og um þau hefir margt gott verið ritað. Á hinn bóginn eru flestir ókunnir æfiatriðum hans með öllu, því að "um þau finnur enginn einn einasta staf",—eins og Þorsteinn Erlingsson kvað, — raunar um alt annað.

Þó að fjarri fari, að eg þekki æviatriði skáldsis sem skyldi, vil eg drepa á fá ein til skýringar því, sem eg þarf að segja síðar.

Stephan G. Stephansson er fæddur í Skagafirði og ólst þar upp með foreldrum sínum, á þrem jörðum, fram yfir fermingaraldur, en fluttist þá austur að Mjóadal í Bárðardal í Þingeyjarsýslu og var þar 4 ár. En á tvítugasta árinu fór hann vestur um haf og hefir dvalist þar síðan, samfleytt í 44 ár. Þar hefir hann þrívegis numið lönd, tvívegis á sléttunum, en síðast í Alberta-fylki, vest-

ur undir Klettafjöllum, þar sem hann býr nú búi sínu.
Fáir vita líklega hvað á daga hans hefir drifið á þessum árum, nema hvað geta má sér til um ýmislegt af kvæðum hans, því að, þó að hann yrki ekki að jafnaði um sjálfan sig, þá er það hverju orði sannara, sem Dr. Guðmundur Finnbogason sagði nýlega í ræðu, að hið bezta, sem Stephan hefir ort um aðra, það má með mestum sanni segja um sjálfan hann.

Það má meta kosti manna og manngildi margvíslega, en þegar við Íslendingar hugsum til þeirra landa okkar, sem búa utanlands, þá metum við þá fyrst og fremst eftir því, hvaða hugarfar þeir bera til ættjarðar sinnar. En þá verða menn um leið að gæta að tvennu:

Hvað fósturjörðin hefir fyrir þá gjört, og hvernig þeir stóðu að vígi til þess að sýna henni ræktarsemi sína.

Það er sannast að segja, að margur maðurinn mundi ekki telja sig í mikilli þakklætis-skuld við Ísland, þó að hann hefði notið þess hér sem Stephan naut á yngri árum.Hann ólst upp við fátækt, eins og þá var títt, og aldrei steig hann hér fæti í skóla, — hann hefir aldrei í skóla komið. Eg heyrði einn mann spyrja hann, hvort hann hefði nokkuð ferðast um Ísland, áður en hann fór vestur. Ekki sagði hann að það hefði verið, nema þegar hann fluttist búferlum úr Skagafirði til Þingeyjarsýslu. Innanlands-ferðir voru þá fátíðari en nú; engar voru strandferðirnar og enginn vegarspottinn af manna völdum.—"Nei, eg ferðaðist aldrei neitt," sagði Stephan. "Eg var aldrei nema smali," bætti hann svo við, mjög hýrlega og hlýlega.

En nú kunna menn að hugsa, að honum hafi opnast nýir og betri vegir vestan hafs, og gefist hvíld og næði til ritstarfa, en því fór þó fjarri,

—"og honum varð seinvirkt að sópa upp auð,
og svitaverk árlangt ið daglega brauð",

eins og hann lýsir skemtilega í þessari vísu, sem margir kunna:

"Lengi var eg læknir minn,
lögfræðingur, prestur,
smiður, kongur, kennarinn,
kerra, plógur, hestur."

Af þessu geta menn ráðið, að Stephan skorti öll hin ytri skilyrði, að því er virðist, til að bera,—eða geta borið—Ísland sérstaklega fyrir brjósti.

En þegar þessi umkomulausi unglingur var að kveðja land sitt, þá fanst honum þó, sem hann færi ekki allslaus, því að hann hafði ósýnilegan heimanmund, eins og hann segir í vísunni:

"Móðir þín átti,—ör í lund,—
auð fyrir börnin varla,
**en hún gaf þér í heiman-mund**
**hörpuna sína alla."**

Og á þessa hörpu lék hann, **meðan aðrir sváfu**; þess vegna heita kvæðin hans Andvökur.

Og hann var ekki kominn alla leið vestur um haf, þegar hann tók að yrkja hlýlega til Íslands, og svo má að orði kveða. að síðan hafi kvæði hans til þessa lands vaxið að hlýleik og farið stækkandi, og mörgum er það óskiljanlegt, hvernig hann gat aflað sér þeirra bóka vestan hafs, sem til þess þurfti að geta ort öll hin sögulegu kvæði, sem hann hefir gert. En eg vissi það ekki fyr en í sumar, að hann hefir til mjög skamms tíma átt lítið af íslenzkum bókum, en áður en hann fór að heiman — á smala-árunum — hafði hann lesið hverja þá bók, sem hann náði í, og hann bjó að þeim lestri alt af síðan.

Þetta eru, eins og þið sjáið. dálítið önnur kjör, en skáldin okkar sætta sig við nú á tímum!

En úr hörpu þessa smaladrengs hafa heyrst þau ljóð, sem borist hafa til allra Íslendinga. —

Eg man, að mér hefir tvívegis á æfinni, meðan eg var vestan hafs, eins og birzt eða vitrast Ísland í óviðjafnanlega fagurri mynd. Í annað skiftið var eg staddur á fjölmennu samkvæmi í Winnipeg, og þá heyrði eg í fyrsta skifti farið með kvæðið:

"Þótt þú langförull legðir
sérhvert land undir fót".

Það var séra Friðrik Bergmann, sem las það. og hann las það vel. Mér er ekki unt að lýsa þeim áhrifum réttilega, sem eg varð þá fyrir. því að þau komu svo skyndilega og óvænt. Ísland reis þarna alt í einu eins og upp úr "sléttunni endalausu". Og oft hafði það verið fagurt, en aldrei eins og þá, þegar það hilti uppi í allri sinni dýrð, vafið einhverjum undrabjarma, þetta íslenzka óskaland:—

"Að eins blómgróin björgin,
sérhver bald-jökull hlýr."

Eg man. hvað mig langaði þá til Íslands, en þó fanst mér miklu skyldara og maklegra, að sá maður fengi aftur að

sjá ættland sitt, sem þetta hafði ort, og það hefir síðan verið ein mín innilegasta ósk, að Stephani mætti auðnast að koma heim, — og nú er það orðið, þetta, sem þá var að eins veik von.

Eg er hverjum manni þakklátur, sem að því hefir stutt, og eg er sannfærður um, að það verður alla daga talið þessari kynslóð til innar mestu sæmdar, að hann var seiddur heim. —

Þó að ættjarðarkvæði Stephans sé fögur, þá er ekki minna um það vert, hver hugur hefir jafnan fylgt máli í öllum þeim kvæðum. Eg skal nefna eitt dæmi því til sönnunar, að hann hefir ekki látið staðar nema við orðin ein. — Þegar farið var að selja hlutabréf Eimskipafélagsins, þá tók Stephan sig upp frá heimili sínu og hitti hvern Íslending í sínu bygðarlagi, til að fá þá í félagið, og varð vel ágengt. Mér er ánægja að geta sagt frá þessu opinberlega, og það því fremur, sem þetta félag hefir nú flutt skáldið heim hingað og heitið honum heimflutningi sem gesti sínum.

— — — —

Það eru margir strengir á hörpu Stephans G. Stephanssonar, og hann hefir ort um ótrúlega margt, eins og hann telji sér "ekkert mannlegt óviðkomandi"; en eg ætla ekki að hreyfa nema þenna eina streng, strenginn, sem Ísland á. Hér eru margir ræðumenn, sem eg treysti til að taka þar við, sem eg hætti.*). En íslenzki þjóðernisstrengurinn er það, sem dýpstur er og hljómmestur allra, þó að vel sé um hina; hann er sá strengurinn, sem seinast slitnar.

En það, sem fær öllum kvæðum Stephans sameiginlegt gildi, er það, að bak við þau stendur hann alt af sjálfur, heill og óskiftur, því að

"orð þitt hvert, í heitstrenging og ljóði,
var hreina-gull."

Og þetta hafa allir fundið og óbeinlínis látið í ljós við Stephan, með því að furða sig, að hann skuli ekki vera miklu stærri vexti en hann er! Við höfum öll fundið á hverju kvæði hans, að það hafði s t ó r maður kveðið, en okkur yfirsást í því, að stærð Stephans lá fyrst og fremst í sálinni, en ekki að sama skapi í líkamsvexti, og

*) Veizlugestir urðu svo vel við þessari áskorun, að eigi voru færri en 20 ræður fluttar.

okkur hafði ekki hugkvæmst, að á honum sannaðist það, sem skáldið kvað:

"Vöxtur og aflið víða fer,
vitið þó fyrir öllu er."

— — — — —

Mig langar að lokum til þess að minnast á eitt atriði, þó að eg hafi áður um það talað á öðrum stað og í öðru sambandi.

Stephan G. Stephansson hefir ort um nokkra fornmenn, sem uppi voru á Vestfjörðum, þar á meðal um Þormóð Kolbrúnarskáld. Hann yrkir um fall Þormóðs á Stiklastöðum, en þeim atburði er svo afburða vel lýst í fornum fræðum, að eg hafði, satt að segja, ekki búist við, að það væri á nokkurs manns færi, að yrkja svo um þann atburð, að þá væri betur ort en óort. En í kvæði sínu finst mér Stephani hafi tekist að varpa nýju ljósi yfir gamlan sannleika.

Eg get ekki stilt mig um að fara með lítinn kafla úr kvæðinu, og er þá fyrst samanburður skáldsins á hermönnum Ólafs helga og Þormóði inum íslenzka, Kolbrúnarskáldi.

Kongsmönnum óaði við að leggja til orustu, og töldu sér svo vísan bana, að

"mörgum fanst máttur sinn smækka
og moldin í gröf sinni hækka",

en um Þormóð segir hann þetta:

"Í varðmanna-hringnum sat Þormóður þar,
en þögull — í vökunni heima
á íslenzkum stöðvum. Í værðinni var
nú vísur og Kolbrún að dreyma.
Við hana sín kærustu kvæði
hann kendi og slysin sín bæði."

Og kvæðislok eru þessi:

"En það hafa í útlöndum íslenzkir menn
af afdrifum Þormóðs að segja
—og staddir í mannraun, þeir minnast þess enn—:
Um meiðslin sín kunni 'ann að þegja,
að örina úr undinni dró hann
og orti, og brosandi dó hann."

Eg skil ekki í, að menn geti lesið vísur þessar án þess að fyllast talsverðum þjóðarmetnaði og þökk til þess

manns, sem svo skörulega hefir haldið á loft hreysti og drengskap þessa ágæta, vestfirzka kappa.

Og svo bið eg ykkur að hugleiða þá heimþrá og ættjarðarást, sem lýsir sér í því, að skáldið hugsar sér að Þormóður bíði þarna bana síns í hermannahópnum, en hafi þó verið

"Þögull í vökunni **heima á íslenzkum stöðvum**".

Og hverjar voru þessar "íslenzku stöðvar", sem Þormóður dvaldist á, þessar "íslenzku stöðvar," sem skáldið sá vestan frá Klettafjöllum?

Það skal eg segja ykkur: Við sjáum þær héðan, sjáum þær frá Ísafirði. Það var Arnardalurinn hérna úti á nesinu, þar sem Þormóður sá Þorbjörgu Kolbrún fyrst og síðast, þar sem hann orti Kolbrúnarvísur sínar.

Og það fær mér mikillar gleði, að þú, Stephan G. Stephansson, fær nú að líta þessar "íslenzku stöðvar" eiginaugum. Og þó að við eigum nú að skiljast, og þú eigir aftur að hverfa í mikinn fjarska, þá veit eg að hugur þinn muni hér eftir sem hingað til leita sér hvíldar á Íslandi, og eg vil vona, að þér megi þá verða ánægja í að dveljast á þeim sömu stöðvum, sem þú hafðir séð Þormóð á, þessum stöðvum, sem þú hefir nú sjálfur séð.

Og eitt er enn!

Enginn hefir séð Ísland, nema hann hafi séð þann landsfjórðung, sem fóstraði Jón Sigurðsson. Allra sízt mættir þú, skáld, fara þess á mis, svo ágætlega sem þú ortir um þann mann á aldarafmæli hans.

Að svo mæltu þakka eg þér fyrir komuna og býð þig velkominn.

Vertu velkominn á æskustöðvar Þormóðs Kolbrúnarskálds.

Vertu velkominn í ríki Jóns Sigurðssonar.

Vertu velkominn til Ísafjarðar.

**Baldur Sveinsson.**

---

## TIL STEPHANS G. STEPHANSSONAR

**Á samkomu Borgfirðinga 19. ágúst 1917.**

I.

**Hvar er Egill? Hvar er Snorri?**
**Hver á að tóna Braga-spjall**
**— sem að kveðju varpi vorri**
**vestur undir Klettafjall**



*Skriffföng smíðuð af Stefáni Eiríkssyni í Reykjavík. Fótur, pennaskaft og reglustika úr íbenholt, askarnir úr íslenzku birki og pappírshnífur úr hvalbeini með gullskildi ágreiptum:*

*Stephán G. Stephánsson, frá Skagfirðingum 1917*

—sem um breiða Atlants-ála
orðsins leggi festarbönd,
er til góðra giftumála
gefa stuðning anda' og hönd?

Heygður Egill! höggvinn Snorri!
Hljótt er um gamla Borgarfjörð.
—Þó er eins og vinsemd vorri
vaxi orka' í þakkargjörð,
þar sem auðnan öðrum þræði
óraveginn hefir stytt:
"Stephan skáld" með krapta-kvæði
kvaddi heim á ættland sitt.

—Ættarband og ljóðalína
lengi býr að traustri gerð,
hvernig svo sem hvetja og brýna
hvefsinornir bana-sverð;
saman langa leið og tíma
leynibindur r æ k t og v i t
—eiginlega á þann síma
engin verka sambandsslit:

Ekki sótti Svartidauði
sigur inn á snildar lönd;
yfir máls og manndóms auði
máttug ríkti lífsins hönd;
gegn um róstur Rauðadauða
raddir lista hljóma enn
rísa' úr ösku alda nauða
orðsnildar- og speki-menn.

II.

Spaki vísi Vestan-gestur
velkominn í Borgarfjörð!
Braga-hirðar höfuðprestur,
heill og sæll á móðurjörð!
Njóttu sýnar fjarða' og fjalla!
Findu angan dalablóms!
Heyrðu fólksins hörpur gjalla
—hljóma strengi dýpsta óms!

—Þér varð knappur heimahaginn;
hugurinn þráði meira rúm.
Út í frelsið, fram í daginn,

firrast svefnsins rökkur-húm
— það er allra mikilmenna
mark og stefna síðast, fyrst
— þeir, sem andans krapta kenna,
kunna illa þröngri vist.—

Feðramálsins kraptar--kjarna
kaustu' í fararefni þín
— erfðagimstein Íslands barna
ár og síð er fagurt skín—;
þetta aldna aðalsmerki
örugglega hátt þú ber
yfir þínu víngarðs-verki,
virðing svo að fylgi þér.

— Þú hefir helgað hugsjón þinni
hjartaslög og andartök,
merkt og gefið mannúðinni
margbreytt starf og skilnings rök
beint að kreddu-kenningunni
kyngi-spjótum ríms og máls,
sviknum merg í menningunni
máttarsverði andans stáls.

Léttaflug á leigðum fjöðrum
löngun þinni gagnstætt var,
eða koma' í kufl af öðrum
klæddur fram til glímunnar;
ekki falsað tízku-tildur
týgjum á þig komið fékk
— því eins frjáls og góður' og gildur
geturðu mætt á æðra bekk.—

Þú hefir hækkað bekki Braga
breitt þín klæði' á guðsins sess,
— jafnvel nótt sem nýta daga
notað vel til starfa þess—,
elda kveikt á altarinu,
ylað kringum fótskör hans,
raðað um hann reykelsinu,
reifað honum sæmdar-krans.

Þér hefir frjóa f ó s t u r landið
fjölbreytni í gjöfum veitt,
tvinnað um þig trygðabandið,
taugar þínar stælt og þreytt;

Þó að sértu' að h ö n d u m háður
hagsmunanna stöðvum þeim:
allur "söngsins" segulþráður
sýnist vera tengdur h e i m:

Þar sem f y r s t a ljósið ljómar,
lyptist brjóstið, tárið skín
— þar fá hugans helgidómar
heildarblæ á gullin sín,
það sem andans orku hvetur
optast verður þangað sótt
— enginn kvistur grænkað getur
gefi' ei r ó t i n sprettu-þrótt.

Frjáls og starfsöm vorsins vaka
verið hefir skóli þinn
— sem að lætur bresta' og braka
bönd um lækjarfarveginn.
— sem að lætur saman taka
sólskinið og gróðurinn.
— sem að lætur svani kvaka
sætast upp við jökulinn.

Sjáðu fjalla-faðminn sterka,
fjóludal og birkihlíð,
sem að geymir marga merka
minningu frá hverri tíð:
Þó að sjálfsagt fækki fundir,
fjarlægð á þig leggi band
— allar þínar æfistundir
áttu þetta f ö ð u r land.

Sjáðu fólkið ungt og aldið
innilega fagna þér
— þar í liggur þakkar-gjaldið,
þegar fundum saman ber—:
Þó að fölni fjóla' í haga,
frjósi vötn og komi él
— alla þína æfidaga
áttu þetta b r æ ð r a þ e l.

Sittu heill að sumbli Braga,
sæmdur náðargjöfum hans,
marga, langa, ljósa daga
— lengur en endast bænir manns.
Margan Draupni dýrra kvæða

**dragðu' á ljóða-perlu-band.**
**— Allra sannra ann þér gæða**
**Egilsbygð og Snorraland.**

**Halldór Helgason.**

---

**Símskeyti frá Ísafirði.**

3. september 1917.

Stephan G. Stephansson,
Reykjavík.

Skáld! Allir hafa séð þig yngjast á þessu sumri, en veiztu að ættjörðin hefir kyrsett þig til þessa dags, til þess að gleðja þig þeim bragarlaunum, sem hún hefir engum geymt til efri ára nema þér? Í dag færir hún þér tvítugasta afmæli! *

**Baldur Sveinsson og fjölskylda.**

---

KVEÐJA TIL
**STEPHANS G. STEPHANSSONAR.**

Stephan G. Stephansson heldur að heiman heim á leið á næstu daga.

Vinir og lesendur ljóða hans hafa nú séð hann, kynst honum í návistinni.

Við kunnum áður að nokkru skapi hans og skoðunum, kunnum skyn á skáldeðli hans og anda eins og við vissum deili á löngu liðnu skáldi, er við höfðum aldrei séð né heyrt, en höfðum lesið nokkuð eftir. Frumleikur og ótvíræð skáldgáfa virtist okkur aftur koma skýrara í ljós hjá honum en hjá mörgum þjóðskáldum vorra, og okkur furðaði á, ef hún gat dulist mentuðum ljóðvinum, svo skærum leiftrum sem brá fyrir í skáldskap hans. Þar var gnótt ljómandi líkinga, er í geymdust þróttmiklar hugsanir, sannfróðleikur og bersögli um mannlegt líf og mannlegt eðli. Flestum lifandi ljóðskáldum vorra er hann myndfrjórri og myndvísari, en í því

---

*) Hér er átt við að Stephan var 19 ára, þegar hann fluttist burt, en nú var hann heima tuttugasta afmælisdaginn sinn.

mun skáldgáfa auðkendust. Í myndvísi minnir hann á elzta þjóðskáld vort, Egil Skallagrímsson. Mun það sannast sagt um hann, að hann sé meira skáld en listamaður, enn meiri andans maður en skáld. Og við undruðumst íslenzku hans, hve gagnauðugur hann var að orðum og orðvís, þó að hann flyttist tvítugur af landi brott og hefði síðan dvalist alla æfi í annari heimsálfu. Auðvitað mátti sjá útlegðar-merki á stöku orðmyndum, en það var furðu sjaldan. Og við dáðumst enn meira að honum, er við vissum, að hann var bóndi, sjálflærður og sjálfhafinn (selfmade), er æ yrði að vinna erfiðisvinnu. — Sýnt var, að vel hafði hann varið tómstundum sínum. Kvæði hans báru þess vitni, að hann var bæði víðlesinn og víðhugsaður. Þetta vissum við um hann og meira ekki. Æfisögu hans kunnum við sama sem ekket, höfðum ekkert getað lesið um líf hans og stríð, vissum ekkert um, hvaða skáld og bækur höfðu snortið hann fastast, nema hvað auðséð var, að íslenzkar sagnir og sögur voru honum ótæmandi brunnur yrkisefna og hugmynda. Þar var spegill er hann sýndi í skoðanir sínar og mannlífið, eins og hann kendi þess. Og við kunnum engar sögur af honum sem ýmsum skáldum okkar lífs og liðnum.

Og nú hefir gerst það æfintýri, að hann heimsótti okkur. Honum var boðið heim, sem kunnugt er. Hér hefir honum verið ger mikil sæmd, haldin virðuleg samsæti, gerður heiðursfélagi Bókmentafélagsins, og alþingi hefir sæmt hann heiðursgjöf. Með þessu er honum skipað á bekk með mestu merkis- og verðleikamönnum þjóðar vorrar. Á slíkum dómi bera dómendur ábyrgð fyrir dómgreindri framtíð, sem einatt breytir þeim. En eg óttast ekki, að þessi dómur samtíðar skáldsins um hann verði úr gildi numinn, hversu sem hann verður krufinn og kviðristur. Og æ er það fagnaðarefni, er góðgerðamönnum þjóðanna eru fluttar maklegar þakkir, áður en þeir eru lagðir á líkfjalirnar.

Hann hefir í sumar ferðast víða um land, séð meira af því og kynst fleirum landsbúa, en við flestir gerum, er ölum hér aldur okkar, að kalla, alla æfi. Og hann hefir þúað alla, konur og karla, æðri og óæðri. Og alstaðar hefir honum verið tekið tveim höndum. Hann hefir líka skygnst dýpra í íslenzkan anda en flestir heimdragi, frjóvgast meira af honum. Og um land alt voru menn honum að nokkru kunnugir, þó að þeir hefðu aldrei séð hann né heyrt, ef til vill kunnugri honum en mörgum sveitungum sínum. Og þeim þótti vænt um hann fyrir göfgar nautnir, er hann veitti þeim, og að hann hafði klætt búningi óðs og stuðla sitthvað, er bærðist í hugum þeirra sjálfra.

Og hann hefir yngst á heimferð sinni, sem hann vottar í kvæði því, er birtist í "Ísafold" í dag:

"Hverf þú heim! Og þú munt aftur yngjast
orku, er lyftir hverri fjöður hátt."

Sést þetta og ljóslega á kvæðum, er hann hefir ort hér heima í sumar. Þau eru liprari, léttari og varmari en kvæði, er eg hefi séð eftir hann á stangli, síðan "Andvökur" komu út. Einkum hefir hann ort stórfagurt kvæði um Geysi og um æskusveit sína Skagafjörð. Þá er eg les ljóð hans um fjörðinn hans fagra, finst mér sem andi framliðins manns, er dáinn er fyrir hálfri eða heilli öld, líði í sumarblæ yfir æskustöðvar sínar og sveit, minnist bjartra bernskustunda í mel og mó, og manna, er gerðu vel til hans, komi á kirkjustaðinn, þar sem hann var fermdur, rifji þar upp atvik og leika frá þeim tímum og virði fyrir sér niðja samtíðarmanna sinna og sveitunga. Fáir gestir hafa goldið fagurlegar beina en hann með kvæðum sínum.

Og sama var að kynnast honum. Sumir rithöfundar barma sér yfir því, að þeim hafi brugðist vonir sínar, er þeir kyntust einhverjum frægum manni, er þeir dáðust að.—svo hefir ekki farið fyrir okkur hér austan hafs, er komist höfum í kunningsskap við skáldið. Við höfum óvíða komið að tómum kofunum hjá honum. Svo margt hefir hann lesið, tekið eftir og hugsað um. Steinhissa hefi eg oft orðið á, hve þaulkunnugur hann er hér heima. Átthagar okkar Stephans eru grannsveitir, svo að eg þekki nokkuð af raun eða afspurn ýmsa, er hann þekti hér heima í æsku og flestir eru nú dánir. Og allra mest hefir mig furðað á, hve gerla hann, maður búsettur úti í yzta vestri, hefir vitað um hagi þeirra, raunir og breytingar á skaplyndi þeirra síðan hann fór. Það er eins og hrafnar Óðins hafi flogið fyrir hann austur yfir hafið mikla, hafi njósnað fyrir hann um smátt og stórt og sagt honum gerla, hvers þeir urðu vísari, er þeir komu úr Austurvegi og hann síðan numið öll tíðindin. Hann hefir æ verið okkur hinn mesti aufúsugestur, viðræður hans skemtilegar og fróðlegar, viðmót hans alúðlegt og fas hans viðfeldið, laust við alt yfirlæti og tildur. Hann virðist nú mesti rósemdarmaður í skapi, líkist að því leyti öðru íslenzku skáldi, frægu á sinni tíð, Sighvati Þórðarsyni. Hann ver skoðanir sínar með stillingu og festu, en þýtur ekki upp, þó að honum sé andmælt, sem dæmin gerast um sum skáld.

— — Í eftirmælum og æfisögum nafnkunnra manna er það einatt kallað merki manngildis þeirra, er þeir hafa

hafist úr fátækt til valda og veraldartignar. Þar er þó vörumerki, er mjög má vara sig á. Stundum var það fávísi einhvers valds, stjórnar eða þjóðar eða, ef til vill, ódrengskapur sjálfra þeirra, er þeir máttu þakka ríki sitt og upphefð. Stærra er hitt áreiðanlega, að hljóta slíkan veg og frama, sem Stephani G. Stephanssyni hefir hlotnast, og hafa samt aldrei lotið né kropið neinu valdi, hvorki lýð né landshöfðingjum. Og þó er slíkt skuggi einn, svipur, ekki maðurinn sjálfur, né verk hans, er mest ēr um vert. Stærst er, að hafa orðið svo raunspakur andans maður, sem hann, máttugur í orði og óði, og hafa þó orðið að stríða við ómegð og erfiðan efnahag alla æfi.

Kæri Stephan G. Stephansson! Margir eru þeir, sem þakka þér heimsókn og hlýja viðkynning. Seint mun kunningjum þínum fyrnast skírskorið andlit þitt, rákir þess og dræt ir. Og af alhuga óska þeir þér góðar heimfarar og heimkomu. Og það er ekkert skjall né skvaldur, að margur hugur mun fljúga til þín héðan af landi, þó að órahöf og fjarlægðir skilji þig frá fósturjörð, frændum og vinum.

**Sigurður Guðmundsson.**





# SAFN til Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

## VATNABYGÐIR.

Eftir FRIDRIK GUDMUNDSSON.

(FRAMHALD).

Áður en eg tel fram landnema þá, sem þessa árs kafli hefir meðferðis, þykir mér vel viðeigandi að gefa viðauka upplýsingar um tvo af landnemum þeim, sem getið var næstl. ár.

**Tómas Paulson.**—Þegar eg næstliðið ár mintist þeirra hjóna, Tómasar og Þórunnar, þá hafði fallið úr sögu minni að geta um börn þeirra, sem þó engan veginn mátti fyrir koma, þar sem sonur þeirra var einn af landnemum bygðarinnar. Börn þeirra hjóna voru fjögur, sem hér segir: **Jóhannes Þórður Paulson,** kom hér með foreldrum sínum árið 1898. Giftist hann hér í sveit Klöru dóttur Lars Hogan (sjá Almanak 1917). Þau hjón eignuðust eina dóttur, Þórunni Margréti. Jóhannes nam s.v. ¼ af 22-31-13. Seinna seldi hann það og fluttist í bæinn Leslie, bygði þar

lyfjabúð og síðan akuryrkjuverkfærabúð og rak verkfærasölu í félagi við föður sinn þar til hann dó, 29. okt. 1910. Jóhannes heitinn varð fyrstur manna í þessari bygð til þess að innleiða hér Goodtemplara-Regluna; skrifaðist hann á við stórstúkuna í Winnipeg og fékk því til vegar komið, að stofnuð var stúka í Leslie, sem nefnd var "Stígandi". Var stúka sú vel og gagnlega starfandi meðan hans naut við.—Jóhannes var vel gefinn, félagslyndur maður og drengur góður. — Hin önnur börn þeirra Tómasar og Þórunnar voru þrjár dætur, sem hétu: Guðrún Rósa, Guðný og Rósa Guðný, og dóu þær allar ungar.

**Guðbrandur Narfason.** — Í landnámssöguþætti mínum næstliðið ár, er mynd af þessum manni ásamt konu hans og þeirra lauslega getið sem þeirra manna, er litla sögu eiga í bygðinni. En nú fyrir nákvæmari og lengri samvinnu við nágranna þessara hjóna hefi eg orðið þess var, að frásögn mín fyrra ár viðurkennir ekki fullkomlega mannkosta yfirburði hinna látnu heiðurshjóna, og þykir mér fyrir því. Endurminningin um þessi hjón er sem helgur dómur í öllu nágrenninu, og það er sem alt óþvingað samtal hætti um stund, þegar nöfn þeirra eru nefnd. Báru allir, sem þeim kyntust, fullkomið traust og virðingu fyrir þeim. — Einn mikilhæfur samvinnumaður Guðbrandar heitins sagði við mig: "Hann var maður áreiðanlegur í orði og verki, og aldrei heyrði eg hann tala ljótt orð, jafnvel þegar mál hans var ákveðnast." — Svo hefi eg og fengið upplýsingar um, að Narfi Halldórsson, faðir Guðbrandar, fluttist með syni sínum frá Þingvallanýlendu og tók hér land með öðrum rétti, N.E. ¼ af 10-32-11. En hans mun rækilega getið í landnámssögu úr Þingvallanýlendu, og því sleppi eg að geta hans frekar.

**Guðmundur Elías Guðmundsson.**—Hann er sonur Guðmundar bónda á Seljatungu í Gaulverjabæjarhreppi í Árnessýslu, Vigfússonar bónda á Lambhús-



koti í Biskupstungum. Móðir Guðmundar hét Elísabet Jónsdóttir bónda á Þrándarholti í Gnúpverjahreppi í Árnessýslu. Kona Guðmundar er Guðrún Steingrímsdóttir bónda á Kópareykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu Grímssonar bónda á Grímsstöðum í Reykholtsdal. Kona Gríms var Guðrún Þórðardóttir prests að Lundi. Móðir Guðrúnar konu Guðmundar er Guðrún Jónsdóttir bónda á Kjalvararstöðum.—Árið 1900 flutti Guðmundur Elías til Ameríku. Settist hann að í Norður-Dakota og var þar tvö ár; fluttist þaðan til Winnipegosis, og bjó þar önnur tvö ár. Í þessa bygð fluttust þau hjón árið 1904 og námu n.v. ¼ af 30-31-11. — Börn þeirar eru tíu á lífi. Tvö af þeim eru heima á Íslandi: Guðmundur og Sigrún; hin önnur börn þeirra eru: Matthías (sjálfboðaliði í

Canadahernum), Henrietta Elísabet, Valtýr, Guðrún Dagmar Kristín Ester, Agnes Ísafold, Steinrún Jóna og Þórhallur Garðar. — Þegar Guðmundur flutti sig frá Winnipegosis, fór hann ásamt Ingvari Ólafssyni og þeim bræðrum, gangandi alla leið, og ráku þeir nautgripahjörð, nokkuð á annað hundrað talsins; en ekki átti Guðmundur nema átta gripi í hjörðinni. Voru þeir mánuð á leiðinni, og má nærri geta, að margt hefir á dagana drifið, sem til þurfti snarræði og þrautseigju; nokkrar endurminningar á Guðmundur af ferð þessari, en hér er ekki rúm til að segja frekar af því, nema að þeir komust með heilu og höldnu á áfangastaðinn.—Um það leyti sem Guðmundur kom hingað, var frekar lítið um atvinnu yfir vetrarmánuði og kaup lágt, $10 um mánuðinn. Sá hann, að það kaup mundi lítið hrökkva til að forsorga fjölskylduna, og sótti þá um leyfi til að mega fiska upp um ís á Fishing Lake, en það hafði aldrei verið reynt áður og þótti ólíklegt til hagsmuna. En Guðmundur aflaði vel og hafði nokkuð í aðra hönd. Hann er greindur maður, ræðinn og skemtilegur heim að sækja. Hann er Íslandsvinur og heldur mikið upp á íslenzkar bókmentir. Þykir honum mest til Jónasar Hallgrímssonar koma af íslenzkum skáldum og hefir stækkaða mynd af Jónasi á stofuveggnum hjá sér.—Guðmundur er vel efnaður maður, á sjálfur tvö lönd (½ fermílu) og leigir þess utan heyland. Hann hefir og gott bú og lausafé.

**Þorsteinn Markússon,** bónda á Kimbastöðum í Sauðárhreppi í Skagafjarðarsýslu, Arasonar bónda á Reykjum á Reykjaströnd. Móðir Þorsteins var Steinunn Jónsdóttir bónda í Seiluhreppi í Skagafjarðarsýslu. — Kona Þorsteins er Rósa Lilja, dóttir Jóns bónda á Holtastaðaseli í Húnavatnssýslu. Móðir Rósu hét Soffía Evertsdóttir ættuð úr Skagafirði. — Þessi hjón bjuggu fimm ár heima á Íslandi á Eyhildarholti í Hegranesi, og fluttust þaðan árið 1899 til Ameríku og settust að í Þingvallanýlendu; þar voru þau bú-

sett eitt ár. Þaðan fóru þau árið 1900 í þessa bygð og námu n.a. ¼ af 20-31-11. Hafa þau eignast 12 börn; af þeim eru á lífi 4 synir og 3 dætur: Jón, Aðalsteinn Markús, Gísli Valdimar, Hjörtur, Jónína Soffía, Steinunn og Sigurlína Sigríður. — Eg heimsótti Þorstein eins og aðra, til að fræðast um ætt hans og ástæður. Nágranni hans, Guðmundur Elías, var með mér, og komum við þar rétt fyrir miðjan dag. Bað Guðmundur Þorstein að ljá sér mann, það sem eftir væri dags til að kippa heim með sér heyi. En sökum þess að Þorsteinn stóð sjáanlega í miklu annríki með pilta sína, óttaðist eg að hann mundi neita tilmælum Guðmundar, en eftir litla umhugsun svaraði Þorsteinn því, að mann skyldi hann að vísu ljá honum, en það félli sér illa, að svo væri nú framorðið dags, að það kæmi honum að litlu liði. — Eg get þessa hér, af því það bregður ljósi á nágranna sambúðina og lýsir drenglyndi Þorsteins og minti mig á vísuorðin alkunnu: "Þéttur á velli og þéttur í lund." Hann er nú orðinn vel efnum búinn og er ánægjulegt að heimsækja þau hjón.

**Þorbergur Jónsson** er stjúpsonur Þorsteins Markússonar. Kona Þorsteins er tvígift, og er Þorbergur einkabarn hennar af fyrra hjónabandi. — Kona Þorbergs er Stefanía Ingibjörg Torfadóttir Jónssonar, bónda hér í bygð.—Þorbergur keypti s.v. ¼ af 5-31-11 og býr þar.

**Jón Veum** Þórðarson bónda á Valshamri í Geiradalshreppi í Barðastrandasýslu, Brynjólfssonar einnig bónda á Valshamri. Í föðurætt er Jón kominn af Jens Víum, sem um eit skeið var nafnkunnur heima á Íslandi. Móðir Jóns var Valgerður Jónsdóttir bónda á Fagradal í Barðastrandasýslu. — Árið 1902 fluttist Jón í bygð þessa og tók hér með heimilisrétti n.a. ¼ af 26-32-12, og þar bjó hann þar til árið 1908 að hann flutti sig í bæinn Foam Lake, sem þá var að

myndast, og bygði þar járnvörubúð; hefir hann ávalt rekið þar verzlun síðan í télagi við annan mann. — Jón er tvígiftur maður. Fyrri kona hans var Ása Tómasdóttir Hördal bónda norður af Leslie. Með þeirri konu sinni átti Jón tvo sonu og tvær dætur og eru nöfn þeirra: Tómas Þórður, Ingimundur Jón, Herbjörg og Margrét. Seinni kona Jóns er Jóhanna Þórdís, dóttir Stefáns bónda Ólafssonar við Foam Lake. — Jón Veum er, fyrir þátttöku sína í ýmsum almennum málum, einn allra markverðasti Íslendingur í þessari bygð. Á næstliðnu vori var hann útnefndur fyrir þingmannsefni Wynyard kjördæmis á fylkisþing af hálfu íhaldsmanna, og þó hann biði mikinn ósigur í kosningabaráttunni, þá er hann, að dómi þeirra manna, sem bezt þekkja hann, úr báðum flokkum, verðugur fyrir þá tiltrú, sem honum var sýnd. Allir bera traust til hans.

**Stefán Þórarinsson** (Thorn) bónda á Krossholti í Kolbeinstaðahreppi í Snæfellsnessýslu, Þorvaldssonar bónda í Krossholti. Móðir Stefáns er Kristín Jónsdóttir, ættuð af Vesturlandi. Kona Stefáns er Þóra Helgadóttir, systir Kristjáns Helgasonar bónda við Foam Lake (sjá Alm. 1917). — Stefán kom til Ameríku með foreldrum sínum árið 1883 og setist að í Winnipeg; vann hann þar í sjö ár sem yfir umsjónarmaður á strætisvögnum. Hingað kom hann árið 1903 og nam þá n.a ¼ af 22-31-12. Síðar flutti hann til bæjarins Foam Lake og rekur þar all-stóra verzlun fyrir eigin reikning .— Börn Stefáns eru fjögur og heita þau sem hér segir: Aurora Kristjana Rose Thorn, Minerva Elenora Violet Thorn, Desmonthenes Washington Alexander Thorn og Webster Lincoln Victor Thorn.

**Sigurður Sigurðsson**, ættaður úr Vopnafirði. Sigurður faðir hans bjó á Egilsstöðum í Vopnafirði og var sonur Sigurðar er bjó á Hróaldsstöðum í sömu sveit. Kona Sigurðar Sigurðssonar er Aðalbjörg Jó-

hanensdóttir Bjarnasonar frá Stóradal í Eyjafirði (sjá Alm. 1917). — Hjón þessi hafa eignast fjórar dætur og heita þær: Fanny, Rósa, Daisy og Dóra. Ein dætra þeirar er skólakennari og önnur vinnur á banka, en allar hafa þær heimili hjá foreldrum sínum. — Sigurður nam heimilisrétt á n.v. ¼a f 24-31-12 og keypti annað land áfast við bújörð sína. Leigir hann þessi lönd sín, en keypti hús í bænum Foam Lake og býr þar.

**Guðmundur Jónsson,** gullsmiðs og bónda á Laxnesi í Mosfellssveit í Gullbringusýslu. Móðir Guðmundar hét Margrét Bjarnadóttir. Til Ameríku fluttist hann árið 1901 og setist að hér í sveit hjá Bernharði bróður sínum, og hefir dvalið á því heimili síðan. Hann nam heimilisrétt á s.v. ¼ af 28-31-11.

**Vigfús Anderson.** Hann er sonur Sveins Árnasonar í bænum Leslie, er seinna verður getið. Kona Vigfúsar er Kristbjörg Elín, dóttir Gísla Bíldfells, sem getið var um í landnámssöguþætti mínum næstliðið ár. Börn þeirra hjóna eru: Edvard Helgi, Sveinbjörg Þórunn og Gíslína Valgerður. — Árið 1909 nam Vigfús s. a. ¼ af 19-32-11. Hann hefir og keypt n.a. part í sömu sec. og hefir hartnær 200 ekrur undir akri og talsvert af lausafé, og er þó kornungur maður.

**Gunnar Þorsteinsson.**—Hann er sonur Jakobs Þorsteinssonar málara í Winnipeg. Móðir Gunnars er Þóra Gunnarsdóttir Gíslasonar, er um nokkur ár bjó á Hrollaugsstöðum á Langanesi í N.-Þingeyjarsýslu; var hann ættfræðingur talsverður, lesinn og fróður um marga hluti, og talinn góður hagyrðingur.—Kona Gunnars er Elín Sigvaldadóttir Jónssonar frá Sunnudal í Vopnafirði.—Gunnar fluttist í þessa bygð árið 1908 og nam s.v. ¼ af 21-30-12, og býr hann þar.

**Jón Einarsson** bónda á Borðeyri í Strandasýslu og einnig á Valdasteinsstöðum í sömu sýslu. Einar faðir

Jóns var Guðnason. Móðir Jóns hét Margrét Magnúsdóttir. — Jón er tvígiftur; 16. jan. 1889, þá er hann var 27 ára gamall, giftist hann ungfrú Guðrúnu Jakobsdóttur prests Finnbogasonar á Mel í Húnavatnssýslu; var hún gáfukona með afbrigðum. Með þeirri konu eignaðist Jón þrjú börn og eru tvö á lífi: Kristín, gift enskum manni, Barry Sperling að nafni, og búa þau austur í Manitoba; Herdís Margrét, gift Kára Fredericksyni í Winnipeg. Guðrún kona Jóns andaðist 24. okt. 1894. Árið 1897 giftist Jón í annað sinn ungfrú Kristjönu Sigríði Helgadóttur Sigurðssonar frá Vatnsenda í Eyjafirði, systur Kristjáns Helgasonar bónda hér í bygð. Með henni hefir Jón eignast fimm börn: Jóhann Benedikt, Finnur Hafsteinn, Helga Guðbjörg, Emilía Guðrún og Karl Leó. — Jón ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hann var 26 ára gamall er hann fluttist til Ameríku. Ekki naut hann skólamentunar í uppvexti, nema hvað hann var þrjár vikur á Hvolsskóla í Saurbæ í Dalasýslu, og var hann þó strax á unga aldri hneigður til bóka. Hann var að eins 16 ára gamall, þegar hann byrjaði að skrifa ritgerðir í dagblöðin, og um þær mundir skrifaði hann Dr. Jónassen landlækni prívat bréf áhrærandi sullaveikina á Íslandi, og þótti Jónassen svo mikið í það varið, að hann lét prenta bréfið í Ísafold. Hins vegar er það alkunnugt, að Jón hefir oft tekið til máls í vikublöðum vorum, og eigi allsjaldan um þau mál, sem ekki eru almennings meðfæri. Seinustu ár sín heima á Íslandi fékst Jón talsvert við smáskamtalækningar og þar að auki stundaði hann bókband og trésmíðar. — Til Ameríku fluttist Jón 1888 og setist að í Winnipeg; stundaði þar aðallega húsabyggingar. Árið 1907 fluttist hann í þessa bygð og hafði árið áður numið s.v. ¼ af 32-31-11. Síðan hann byıjaði búskap hefir hann jafnan lagt áherzlu á það, að gera tilraunir með nýjar korntegundir og matjurtir, og hefir hann árlega selt af uppskeru sinni talsvert mikið fyrir útsæði til annara bænda. — Jón er sjálfstæður í stjórnmála-

skoðunum sínum. Hneigist hann mjög að kenningum jafnaðarmanna og í trúmálum er hann nýstefnumaður. Dulfræði í ýmsum greinum eru honum hversdagsleg umhugsunarefni. Hann ann hugástum söng og öðrum listum og saknar þess æ hve örsnautt lífið hefir verið af þægum tökum til að ná í dýpri þekkingu á almennum og fátíðum efnum.

**Jón Skagfjörð,** sonur Sveins bónda á Hrauni á Skaga í Skagafjarðarsýslu. Guðbjörg heitir móðir Jóns, ættuð úr sömu sveit. Kona Jóns heitir Gróa Þorsteinsdóttir Vigfússonar, ættuð úr Biskupstungum. —Hingað fluttist Jón árið 1904 og nam land eina og hálfa mílu vestan við Foam Lake bæinn. Seinna seldi hann það land og keypti tvö önnur lönd (eða hálfa fermílu), sem er norður helmingur af 32-32-11, og býr hann þar.

**Bjarni Guðmundsson**, tómthúsmanns á Stokkseyri, Bjarnasonar bónda í Norður-Garði á Skeiðum í Árnessýslu. Móðir Bjarna var Gjaflaug Þórðardóttir bónda á Kverkhóli í Grímsnesi. Kona Bjarna heitir Ingibjörg Jónsdóttir tómthússmanns í Gegnishólum í Flóanum í Árnessýslu. Móðir konu Bjarna er Elín Pálsdóttir prests á Gaulverjabæ Sigurðssonar. — Bjarni fluttist hingað í bygð frá Winnipeg árið 1905 og nam suðv. ¼ af 30-30-13. Seinna seldi hann það og keypti land austur í röð 11.—Börn þessara hjóna eru tíu og heita: Hannes, Guðmundur, Jóel Sverrir, Jón, Páll Jakob, Þórður, Karl, Ólafur, Elín og Anna Guðný.

**Ólafur Jónsson** bjó á Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Kona hans er Valgerður Felixdóttir bónda á Mel í Þykkvabæ. — Þessi hjón fluttust til Ameríku árið 1885. Hafa þau verið 62 ár í hjónabandi næstl. sumar og eignast 17 börn. Af þeim eru fjögur á lífi: Guðbjörg, gift Jóni Samson lögregluþjóni í Winni-

peg; Hallbera, gift enskum manni suður í Bandaríkjum; Ólafía Hallfríður, gift skozkum manni, sem býr vestur hjá Saskatoon, og Kristján, sem gömlu hjónin eru nú hjá; með honum komu þau í þessa bygð árið 1905 frá Winnipegosis, og námu n.v. ¼ af 18-32-11.

**Kristján Ólafsson,** bónda á Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Móðir Kristjáns er Valgerður Felixdóttir bónda á Mel í sömu sveit. Kona Kristjáns heitir Guðrún Þorláksdóttir bónda á Galtastöðum í Flóanum í Árnessýslu og konu hans Maríu Friðfinnsdóttur á Galtastöðum. Kristján og Guðrún eiga sjö börn, er heita: María Þorláksína Ágústa, Ólafur Júlíus, Páll Ingimar, Þorlákur Edvin, Kristrún Hallfríður, Friðfinnur Valtýr og Guðbjörg Mable.—Kristján flutti frá Winnipegosis í þessa bygð árið 1905 og nam n.v. ¼ af 20-32-11. og býr þar góðu búi. — Kristján er mjög vel metinn maður í nágrenni sínu, félagslyndur og framgjarn.

**Bergþór Jónsson,** bónda á Kirkjubóli í Skutulfirði í Ísafj.s., Þórðarsonar frá Kjarna í Eyjafirði. Móðir Bergþórs var Þóra Eyjólfsdóttir frá Hnífsdal. Með konu sinni eignaðist Bergþór sex börn; tvö dóu í æsku. en fjögur eru á lífi og öll búsett hér vestan hafs. — Bergþór lærði trésmíði í æsku og stundaði þá iðn mikið, bæði austan hafs og vestan ásamt búskap. Frá Garði í Dýrafirði fluttist hann til Canada árið 1887 og settist fyrst að í Brandon, hvar hann stundaði handiðn sína og var fljótt í metum hafður sem ágætur smiður. Í þessa nýlendu fluttist Bergþór frá Yorkton árið 1904 og nam s. a. ¼ af 6-32-11. — Konu sína misti hann árið 1908 og bjó þá með dóttur sinni Þóru um tvö ár, unz hann brá búi og seldi landið; dvaldi þó um hríð hér í bygð, en fluttist síðan vestur á Kyrrahafsströnd til Jóns sonar síns og þar dó hann árið 1916. — Þó Bergþór væri aldrei ríkur, þá lét hann ávalt gott af

sér leiða, og átti góðan þátt í öllum félagsmálum. Hann var gleðimaður mikill, alstaðar velkominn og ágætur heim að sækja.

**Skúli Jónsson,** bónda á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá, Torfasonar á Sandbrekku í sömu sveit. —Til Ameríku fluttist Skúli árið 1894. Var fyrst lítið eitt í Þingvalla-nýlendu, en fluttist þaðan til White Sands og kom þaðan í þessa bygð árið 1898. Dvaldi fyrst hjá Þorsteini Þorsteinssyni og systur sinni Önnu, konu Þorsteins. Síðan fluttist hann til Bjarna Jasonssonar og hefir oftast talið þar heimili sitt. Nokkru áður en hann byrjaði að nema lönd hér í bygð, fór Skúli suður til Dakota í þreskingarvinnu, og mun hann þá hafa vakið eftirtekt Íslendinga þar, á hinu mikla óbygða landsvæði hér, enda kunni hann manna bezt um það að dæma, þar sem hann hafði komist í það æfintýri að vera vegviltur í tvö dægur á hinum svokölluðu Quill-sléttum, fótgangandi og mataralus. Árið 1903 nam Skúli hér land, n.v. ¼ af 4-32-11. — Skúli hefir reynst bygð sinni hinn nýtasti og bezti drengur. Stutt og eflt öll góð málefni og félagsskap og ávalt búinn til að liðsinna með fé og forsjá. Hefir marg sinnis verið til hans leitað viðvíkjandi einu og öðru og mun enginn vita til þess, að hann hafi daufheyrst við, eða þreyzt á að rétta hjálparhönd, þar sem með hefir þurft. —Skúli er enn ókvæntur. Er talinn vel efnaður. —



Hann var um eitt skeið meðráðamaður (councillor) fyrir þriðju kjördeild í L. I. Dist. 16, H 2.

(Um þessa tvo síðastnefndu landnema hefir sveitarskrifari, hr. Jón Janusson, ritað, þar eð eg, sökum ókunnugleika, kunni ekki af þeim að segja, nema hvað landnáminu einu viðkom.—F.G.)

**Sveinn Eiríksson,** bónda á Firði í Seyðisfirði, Guttormssonar. Móðir Sveins var Jóhanna Jóhannesdóttir. — Þegar Sveinn var þriggja vikna gamall, bar faðir hans hann í poka á bakinu frá Seyðisfirði upp yfir Fjarðarheiði í ófærð og vondu veðri norður í Kóreksstaðagerði og kom honum þar í fóstur hjá ömmusystur sinni, Sigríði að nafni, og bar ekki á, að Sveini yrði meint við ferðalagið. Eftir þrjú ár var Sveini komið fyrir í Reykholti í Hjaltastaðaþinghá hjá Agli Ísleifssyni og konu hans Önnu Oddsdóttur, til þess er hann var 14 ára. Eftir það var hann í vinnumensku, þar til hann 21 árs að aldri fór til Danmerkur til að læra trésmiðs-iðn, og fékk hann sveinsbréf í Kaupmannahöfn 1884. Tók þar og líka borgarabréf sem smíðameistari árið 1890 og rak þar verzlun í fimm ár. Sumarið 1895 fór hann heim til Íslands sem sendiboði kaþólska trúboðsins; var þá átta ár heima.—Til Ameríku fluttist Sveinn árið 1903 og einu ári seinna kom hann í bygð þessa og nam s.v. ¼ af 14-32-11. — Kona Sveins er dönsk, heitir Anna Kristine Jensen. Þau hjón eiga níu börn á lífi: Ingibjörg, gift Frank Mindorf, bónda hér í bygð; Stefnía, gift enskum manni; Guðrún, gift norskum manni; Eiríkur Guttormur, Antóníus, Jóhannes, Marie Louise, Max Vilhelm, Liljan Elisabet, Bjarni Richard Francis.

**Torfi Jónsson**, bónda á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu, Torfasonar frá Sandbrekku í sömu sveit. — Kona Torfa er Jórunn Jónsdóttir á Víðastöðum í Hjaltastaðaþinghá, Þórarinssonar. — Þessi hjón fluttust til Ameríku árið 1894;

voru fyrst í Grunnavantsbygð í Manitoba í 14 ár. Hingað komu þau árið 1908 og keyptu land af Stefáni Ólafssyni. Þessi hjón eiga átta börn: Guðrún, gift Jóni Bildfell; Kristín, gift Sigurgeir Ólafssyni; Stefanía Ingibjörg, gift Þorbergi Jónssyni; Jónína Björg, Anna Ágústa, Jón, Skúli Björn og Stefán Guðmundur. Þau börnin, sem ógift eru, dvelja í föðurgarði.

**Páll Jóhannsson,** bónda á Merkigili í Skagafjarðarsýslu, Jónssonar bónda á Merkigili. Móðir Páls var Guðrún Arnbjarnardóttir, ættuð undan Eyjafjöllum. —Kona Páls er Guðbjörg Jóhannesdóttir bónda á Breiðagerði í Tungusveit í Lýtingsstaðahreppi. Móðir Guðbjargar, konu Páls, hétGuðbjörg Eyjólfsdóttir, á Daufá í Neðribygð í Lýtingsstaðahreppi; kominn af hinni stóru Valadalsætt. — Börn þeirra hjóna eru níu á lífi: Páll, járnsmiður í Mozart; Jóhann Vilhjálmur, heima; Kristinn Ólafur, giftur Önnu Jónsdóttur Jóhannessonar bónda hér í bygðinni; Árni Teódór, heima; Guðrún, gift frönskum manni; Guðbjörg Sigurlög, Oddný Ingibjörg, Pálína, öll heima og Helga, fósturdóttir Áskells Brandssonar bónda í Montana í Bandaríkjunum. — Þessi hjón komu hér árið 1905 og búa á landi, sem þau hafa keypt (s.v. ¼ af 32-32-11.

**Hinrik Gíslason,** ættaður úr Ölvesinu í Árnessýslu. Kona hans heitir Jórunn. Hann kom hér snemma á landnámstíð, nam s.v. ¼ of20-31-11. Seinna seldi hann landið og flutti burt.

**Jón Friðleifsson,** bónda á Efri Sýrlæk í Villingaholtshreppi í Árnessýslu. Kona Jóns heitir Sigríður Högnadóttir frá Skálmholtshrauni, úr sömu sveit. — Hann kom hér snemma á landnámstíð, nam s.v. ¼ af 32-32-11. Þetta land seldi hann og fluttist vestur á Kyrrahafsströnd.

**Halldór Friðleifsson,** bróðir Jóns. Kona hans

heitir Hildur Bjarnadóttir bónda á Önundarkoti í Villingaholtshreppi. Kom í þessa bygð árið 1903 og nam hér s.a. ¼ af 4-32-11. Seldi það og fluttist burt.

**Friðleifur Jónsson** frá Efra Sýrlæk í Villingaholtshreppi í Árnessýslu. Kona hans, Þorbjörg, ættuð úr Flóanum. Kom hér 1903, nam n.a. ¼ af 30-32-11. Seldi það land og fluttist burt.

**Guðrún Halldórsdóttir,** systir konu Högna föður Sigríðar konu Jóns Friðleifssonar, nam n.a. ¼ af 32-32-11.

**Halldór Jónsson,** bónda á Brúnastöðum í Flóa í Árnessýslu, Pálssonar. Móðir hans hét Aldís. Kona Halldórs heitir Margrét Hallgrímsdóttir.—Hann tók hér s.a. ¼ af 4-32-11. Seldi það og flutist burt.

**Guðmundur Egilsson,** bónda á Hákoti í Ásahreppi í Rangárvallasýslu. Móðir Guðmundar hét Margrét Guðmundsdóttir bónda á Hákoti. Kona Guðmundar heitir Katrín Magnúsdóttir bónda á Kvíaholti í sömu sveit. Móðir Katrínar hét Helga Stefánsdóttir bónda á Skútum í sömu sveit. Einkabarn þessara hjóna er Margrét, kona Hannesar Anderson að Wynyard, Sask. — Guðmundur kom í þessa bygð árið 1905 og nam n.v. ¼ af 7-32-11. Nýlega seldi hann þetta land og fluttist til Winnipegosis, Man.

**Ólafur Jónsson,** giftur Svöfu Jónasdóttur Samsonsonar við Kristnes. Ólafur kom hér snemma og nam s.a. ¼ af 30-31-11.

**Ingimundur Arason,** Egilsonar í Austurkoti í Strandhreppi í Gullbringusýslu. Móðir Ingimundar er Margrét Gísladóttir, ættuð úr Árnessýslu. — Hann kom hér snemma á landnámtíð og nam s.v. ¼ af 34-31-11.

**Kristján Þorvaldsson** kom hingað um 1903 og nam n.a. ¼ af 28-31-11.

**Guðjón Þórðarson,** bóndi á Vegamótum á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu, Þórðarsonar bónda á Innrihólmi á Akranesi. Móðir Guðjóns heitir Helga Guðmundsdóttir bónda á Dægru á Akranesi. Fluttist inn í þessa bygð árið 1903 og nam s.v. ¼ af 4-32-11. Seinna seldi hann land þetta og fór heim til Íslands.

**Guðmundur Einarsson,** bónda á Nesi í Flóanum í Árnessýslu, Hannessonar bónda í Tungu í Flóa. Móðir Guðmundar var Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Rangárvallasýslu. Kona Guðmundar er Ingibjörg Friðleifsdóttir Jónssonar, þess sem hér að framan er getið. Guðmundur kom hér árið 1903 og nam n.a. ¼ af 16-32-11.

**Gústav Ivarsen.** Faðir hans danskur maður, að nafni Ivarsen, var um nokkur ár verzlunarstjóri á Vopnafirði og seinna meðeigandi í Örum & Wulffs verzlun í Kaupmannahöfn. Gustav Ivarsen fluttist hingað seint á landnámstíð, ásamt konu sinni, er Sigurbjörg hét, sem andaðist hér fyrir nokkrum árum. Gustav nam s.v. ¼ af 5-32-11.. Þetta land hefir hann selt og er fluttur vestur á Kyrrahafsströnd.

**Stefanía Sigurðardóttir** nam s.v. ¼ af 13-32-11. Giftist hún norskum manni, er Karlson heitir. Börn eignuðust þau sex, er heita: Charly, Lúðvík, Jón, Ninna, Emma og Louise. Stefnaía þessi dó hér í bygðinni árið 1911.

---

# *Viðauki við œttfœrslu Sigurðar Eiríkssonar, afa Þórðar Árnasonar.*

(Sjá Almanak O. S. Th. 1917, bls. 99).



*ÁRNI SIGURÐSSON*

(Sjá Almanak 1917, bls. 100)

Kona Sveins á Svínafelli, Jónssonar, Jónssonar í Skaftafelli Sigmundssonar, hét Vilborg Árnadóttir bónda á Fljótsdalshéraði. Faðir hans var Páll Skriðuklaustursshaldari og lögsagnari Bjarna Oddsonar sýslumanns í Múlasýslu. Faðir Páls var Björn Gunnarsson (d. 1512) sýslumaður í Múlaþingi. Faðir Björns var Gunnar Gíslason sýslumaður í Hegranesþingi, er bjó á Víðivöllum í Skagafirði. Kona Gunnars og móðir Björns sýslumanns var Guðrún Magnúsdóttir prests á Grenjaðarstað (d. 1554), Jónssonar Arasonar biskups á Hólum. Kona Björns sýslumanns og móðir Páls var Ragnhildur Þórðard. bónda á Bustarfelli í Vopnafirði. Bjó Björn þar síðan eftir lát Þórðar. Faðir Þórðar var Björn á Eyvindará Jónsson. Kona Þórðar á Bustarfelli var Guðlög Árnad. Brandssonar prests á Hofi í Vopnafirði, Rafnssonar lögmanns frá Barði Halldórssonar.

Kona Páls var Þuríður dóttir Árna á Eyðum Magnússonar. Kona Árna Pálssonar var Þóra dóttir Einars prests á Valþjófsstað (d. 1657), Þorvarðssonar. Dóttir Árna og Þóru var Vilborg kona Sveins á Svínafelli, og móðir Þóru konu séra Jóns Gissurssonar prests á Hálsi í Hamarsfirði 1730—1757. Þeirra son var Árni í Berufirði, faðir Rannveigar móður Sigurðar Eiríkssonar föður Árna föður Þórðar Árnasonar.

**Árni Sigurðsson.**

---

**Viðauki og leiðrétting** við ættfærslu Þorgríms á Hámundastöðum. föður Kristínar konu Guðvalda Jónssonar. (Sjá Almanak O. S. Th. 1917, bls. 106:—Ættfærslan, prentuð þar, er ekki rétt. Eg skrifaði hana eftir munnlegri sögn árið 1913. Fékk seinna grun um, að hún væri ekki ábyggileg. Leitaði upplýsinga, er eg hefi nú ekki alls fyrir löngu fengið. Eftir þeim upplýsingum set eg ættfærsluna hér, og mun hún tæplega verða vefengd það sem hún nær.

Þorgrímur bóndi á Hámundarstöðum í Vopnafirði var Pétursson, bónda á Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, Péturssonar á Bót í Hróarstungu, s. s. Péturssonar bónda

á Skjöldólfsstöðum á Jökuldal, Jónssonar bónda s. st. **ættfræðings**, Gunnlögssonar prests í Möðrudal, Sölvasonar prests s. st. Gottskálkssonar. Kona Péturs Jónssonar á Skjöldólfsstöðum var Ólöf systir Björns Péturssonar ríka á Bustarfelli sýslumanns. Faðir þeirra var Pétur lögréttumaður, bjó á Bustarfelli. Faðir hans var Bjarni sýslumaður á Busterfelli, d. 1667. Faðir hans var Oddur prestur á Hofi í Vopnafirði (d. 1620) Þorkelsson, Hallgrímssonar bónda á Egilsstöðum, Sveinbjörnssonar Officiales í Múla. — Kona Péturs á Bustarfelli og móðir Ólafar var Elísabet dóttir Jochums Múm Jóhannessonar. Hann var hollenzkur í báðar ættir. Kona Jochums Múm var Ólöf Jónsdóttir Einarssonar frá Snartarstöðum. Bjuggu þau hjón í Keldunesi. Kona Bjarna Oddsonar sýslumanns var Þórunn dóttir Björns sýslumanns á Bustarfelli Gunnarssonar (sjá Viðauka næst á undan). Kona Péturs á Hákonarstöðum, móðir Þorgríms á Hámundarstöðum hét Hallfríður Eggertsdóttir Einarssonar Eggertssonar prests á Svalbarði. Þau Pétur og Hallfríður áttu mörg börn. Einn af sonum þeirra hét Pétur; bjó hann allan sinn búskap áHákonarstöðum eftir föður sinn. Það voru því ekki nema tveir Pétrar, sem bjuggu þar, af þessari ætt, og Pétur Jökull sá þriðji, er þar bjó fá ár áður hann fór til Ameríku.

**Árni Sigurðsson.**



## *Ágrip af sögu*

# ÞINGVALLABYGÐAR.

*Safnað af HELGA ÁRNASYNI.*

---

Landnám þetta er í Township 22 og 23, R. 31, 32 og 33 w., um 250 mílur norðvestur af Winnipeg, og var stofnsett árið 1885 af Helga Jónssyni (frá honum er sagt í þessu almanaki fyrir árið 1904, bls. 69---74). Voru þá sveitir þær er Íslendingar höfðu flutt í að mestu bygðar. Helgi sótti þá um til Kanadastjórnar, að mega velja nýlendusvæði fyrir Íslendinga, og leizt honum á þessu svæði landskostir góðir. Sjálfur hafði Helgi verzlun i Shellmouth um 16 mílur burtu frá nýlendunni, og var búið að mæla fyrir járnbraut þar í gegn og líka gegnum nýlenduna. Sögunarmylna var í Shellmouth, og því eigi ervitt með timbur til húsabygginga fyrir landnema.

Veturinn 1885—86 var verið að byggja járnbrautarbrú yfir Assiniboine-ána við Shellmouth, og vann Vigfús Þorsteinsson járnsmiður að því smíði, en þegar til kom var járnbrautin eigi lögð til Shellmouth, heldur yfir ána 15 mílum sunnar, og var sögunarmillan flutt þangað að járnbrautinni og staðurinn nefndur Millwood.

Fyrsti Íslendingur sem nam land í Þingvallanýlendu, var Jón Magnússon frá Vallanesi í S.-Múlas., og bygði hann á því hús; var það árið 1885. Um veturinn 1886, lögðu tveir Íslendingar vestur til Þingvallanýlendu frá Winnipeg, þeir Einar Jónsson Suðfjörð og Björn Ólafsson, til að byggja á löndum sínum, sem þeir höfðu þá tekið. Og

um vorið 1886 tóku fimtán fjölskyldur heimilisréttarlönd í bygðinni. Á því tímabili var verið að byggja járnbrautina, sem nú liggur í gegnum nýlenduna, og var hún járnlögð til Salzgirth þá um haustið 1885, svo þær fjölskyldur sem komu um vorið eftir, gátu komist þangað með járnbrautinni, en áttu þó eftir um 60 mílur í nýlenduna, og urðu menn að fara þá leið á uxum, þeir sem þá áttu, eða kaupa flutning. Í ágústmánuði um sumarið komu sex fjölskyldur frá Íslandi, er héldu beint til nýlendunnar, og tvær síðar það haust. Veturinn 1886 var járnbrautin komin til Langenburg, og voru þá frá 6 til 10 mílur úr nýlendunni til kaupstaðar. Voru það tveir Þjóðverjar er fyrstir settu upp verzlun í Langenburg. hétu þeir Ulrik og Flink. Og snemma á árinu 1887, bygði Helgi Jónsson þar verzlunar og íbúðarhús, og flutti þangað frá Shellmouth. Ingibjörg Guðmundsdóttir, kona Helga, var talin fyrir verzlaninni og var Bjarni Davíðsson Westmann verzlunarstjórinn. Var Helgi Jónsson þá mjög þrotinn að heilsu, og lézt í Winnipeg í nóvembermánuði 1887, — Veturinn 1886—87, munu hafa verið 23 fjölskyldur búsettar í bygðinni. Húsakynni voru þá lítil og ómerkileg, sem eðlilegt var, en þann vetur gengu menn vel að því að afla bjálka úr skóginum til viðu, og bygðu betri hús, Sjö pör af uxum voru til í bygðinni þann vetur, og það áttunda keypti Guðbrandur Narfason um vorið, og voru þau alt af í brúki þegar veður leyfði. Vorið 1887 var talsverður innflutningur af enskum bændum á löndin, er lágu að Þingvallanýlendu, og höfðu Íslendingar gott af komu þeirra, bæði með að selja þeim hey og vinna fyrir þá að húsabyggingum og fleiru. Líka unnu nýlendumenn allmikið við járnbrautina, sem verið var að lengja vestur þau árin, og þó kaupið væri eigi hátt, var það mörgum góð búbót á frumbýlingsárunum.

Haustið 1887 kom fyrst til umtals að mynda skólahérað og byggja skólahús, og var mönnum mjög ant um að koma því í framkvæmd, og þegar kom fram á vetur, var farið að höggva bjálka og flytja að, og byrjað að byggja í marzmánuði um vorið. Hjálpuðust allir bændur að því að koma því upp, alt endurgjaldslaust; yfirsmiður hússins var Tómas Paulsson. Eitt hundrað dollara styrkur fekst hjá járnbrautarfélaginu til byggingarinnar, og komst húsið upp án þess nokkurt lán þyrfti að taka til þess. Um sumarið fór fram barnakensla, og var ráðin kennari ungfrú Guðný Jónsdóttir, sem nú er kona Magnúsar Paulson, fyrrum ritsj. Lögbergs í Winnipeg.

Í janúar 1888 var boðað til almenns fundar í húsi Einars Suðfjörð, til að ræða um myndun safnaðar. Á þeim fundi var Þingvallasöfnuður myndaður, og innrituðust á fundinum 36 manns. Tómas Paulson var kosinn forseti, Árni Jónsson skrifari og Jón Ögmundsson féhirðir; Sigurður Jónsson og Kristján Helgason meðráðendur. Sunnudagsskóla kennari, húsfrú Elin Scheving og Sigurður Jónsson fyrir austurbygðina, og konurnar Guðbjörg Suðfjörð og Margrét Jónsson fyrir vesturbygðina. Síðar í sama mánuði var annar fundur haldinn í skólahúsinu, og bættust þá æðimargir í söfnuðinn.

Fyrsti prestur er heimsótti nýlenduna var séra Jón Bjarnason, kom hann í lok októbermánaðar 1888, og flutti guðsþjónustu í skólahúsinu. Skírði 22 börn og gaf saman í hjónaband átta hjónaefni og vígði grafreitinn. — Hér má segja frá því að 1. marz 1887 lézt Guðbjörg Sveinsdóttír, kona Helga Sigurðssonar frá Vatnsenda í Eyjafirði. Skutu nýlendumenn þá á fundi til að velja grafreit. og varð niðurstaðan að þiggja tilboð Narfa Halldórssonar, sem bauð að gefa ekru af landi sínu fyrir grafreitinn, var sá staður hentugur, af því að hann mátti heita að vera í miðr

bygðinni. Þar var og kirkja safnaðarins síðar bygð. Guðbjörg var fyrsta manneskjan er þar var lögð til hvíldar. Einar Suðfjörð og kona hans mistu barn í það mund, og var það lagt í sömn gröf.

Tvö næstu árin heimsótti enginn prestur nýlendubúa, þrátt fyrir ítrekaðar tilraunir safnaðarmanna. En söfnuðurinn hélt uppi húslestrasamkomum, og voru lesarar kosnir Bjarni Stefánsson og Magnús Einarsson í vesturbygðinni, og höfðu jafnframt á hendi sunnudagsskóla kenslu. Einar Suðfjörð var kosinn lesari í austurbygðinni og Guðmundur Guðmundsson, forsöngvari. Árið 1891 kaus söfnuðurinn Tómas Paulson fyrir fullrrúa á kirkjuþing það ár. Eftir það kirkjuþing heimsótti okkur síra Hafsteinn Pétursson, og dvaldi hér um lítinn tíma, og aftur næsta árið. Síra Björn B. Jónsson þjónaði söfnuðinum nokkurn tíma um sumarið 1893, og aftur var hann hér árið eftir. Næstu árin þar á eftir kom síra Oddur V. Gíslason, og dvaldi lítinn tíma hvert árið. Og síra Hafsteinn að vorinu 1898.

Á fundi nýlendubúa 14. marz 1891, bar Ólafur Guðmundsson frá Arnarbæli upp það nýmæli, að nauðsyn bæri til að koma upp samkomuhúsi, og var vel undir það tekið af fundarmönnum, og samþykt að framkvæma það eins fljótt og hægt væri. Einar Suðfjörð bauð að gefa ekru af landi undir húsið, og var boð hans þakklátlega þegið. Tómas Paulson var kosinn umsjónarmaður byggingarinnar, og beztu skógarhöggsmenn bygðarinnar fengnir til að fella tré í skóginum norður í Lögbergsnýlendu. Voru menn einkar samtaka í því að viða að og koma upp húsinu. Húsið var að stærð 24 og 40 fet og kór 16 og 18, vegghæð 10 fet. Fjórir gluggar á hvorri hlið. Kvenfélag bygðarinnar lagði talsvert að mörkum til hússins, og svo mikið kom inn af peningum, að hægt var

að koma því undir þak það vor, og á næstu árum var það að mestu fullgert innan.

Ekki leið á löngu eftir að menn settust hér að, að farið væri að vinna jörðina og sá í nokkrar ekrur, en verkfærin voru fá og ómerkileg, engin sáðvél, öllu sáð með höndunum, og notuðu fuglarnir sér það eftir vonum. Sumrin voru þurkasöm og haustfrostin komu áður en kornið gat móðnað. Sumarið 1892 var framúrskarandi þurkasamt, svo grasbrestur varð tilfinnanlegur og vatnsskortur hjá mörgum fyrir menn og skepnur. Leiddi hvorutveggja til þess, að nokkrir bygðarmanna fóru burtu til að leita heyskapar fyrir fénað sinn. Fóru nokkrir vestur til Fishing Lake og White Sand River. Komu svo aftur um haustið til að sækja fénað sinn og búslóð og voru þannig alfluttir úr bygðinni. Veturinn eftir var mjög harður og voraði seint, og þó lítil væru heyin, komust nýlendubúar í gegnum veturinn án þess nokkur skepnufellir yrði. En aftur mistu enskir bændur talsvert. Milli tuttugu og þrjátíu bændur fluttu burtu það vor, og héldu flestir austur að Manitobavatni. Sumarið 1893 var heyskapur fremur góður og gnægð af vatni alstaðar, en samt hélzt útflutningurinn; vorið 1894 fóru enn yfir tuttugu bændur, og settust sumir þeirra að í nágrenni við kunningja sína austan við Manitobavatn. Úr því smádróg úr útflutningnum, enda þó nokkrir færu smátt og smátt á næstu árum.

Hér fara á eftir æfiágrip landnemanna, þó ekki í þeirri röð sem þeir komu til nýlendunnar. Varð ekki við því gert.

(Við þennan kafla verður bætt nokkrum atriðum, þegar niðurlag sögunnar birtist og líka eftirmáli frá höf.)

**Jón Magnússon,** Guðmundssonar, og Ingibjargar Benidiktsdóttur frá Dæli í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu. Móðir Magnúsar föður Jóns var Guðrún Magnúsdóttir prests frá Bjarnanesi í sömu sýslu. Jón Magnússon fluttist hingað til lands frá Vallanesi í S.-Múlasýslu og nam fyrstur Íslendinga land í Þingvalla-nýlendu og reisti hús á því; var það haustið 1885, en flutti ekki á land það fyrr en um vorið 1887 og bygði þá hús fyrir fénað sinn. Jón var ókvæntur, en hafði tímum saman vinnumann til fjárgeymslu og heyskapar. Hann var gleðimaður og spaugsamur og var því tíðum kátt á hjalla, þar sem Jón var staddur.—Fluttist hann austur að Manitobavatni 1892.

**Bjarni Davíðsson Westmann** er fæddur 18. sept. 1855. Voru foreldrar hans Davíð Bjarnason og kona hans Þórdís Jónsdóttir, er bjuggu í Snóksdal í Dalasýslu. Bjarni ólst upp hjá foreldrum sínum og átti þar heimili þar til hann fluttist til Vesturheims árið 1882. Fyrstu árin eftir að hingað kom stundaði hann hverja þá daglaunavinnu, sem kostur var á. Árið 1886 fór hann í félag við Helga Jónsson og settu þeir á stofn verlun í Shellmouth, en fluttu að ári liðnu verzlunina til Langenburg, sem getið er í inngangi til sögu þeirrar. Og ári síðar (1888) flutti Bjarni verzlunina til Churchbridge og hefir rekið hana þar síðan. Haustið 1889 gekk Bjarni að eiga Ingibjörgu ekkju Helga Jónssonar félaga síns. Ingibjörg er Guðmundsdóttir prófasts frá Arnarbæli, og er myndarkona mikil eins og hún á kyn til. Son hafa þau hjón eignast, er Davíð Albert heitir, mentaður maður og hinn mannvænlegasti; stundar hann verzlunina og búskapinn með föður sínum, er hefir bú mikið tvær mílur austur af Churchbridge; heldur hann þar vinnuhjú og fénað—nálægt hundrað nautgripa og um hundrað fjár og mörg hross. Öllum framfarafyrirtækjum bygðarinnar hefir Bjarni verið hinn nýtasti styrktarmaður. Þegar Þingvalla skólahérað var stofnað, gaf hann peninga til

skólans og var skrifari skólahéraðsins framan af árum. Bjarni er myndarmaður, fróður um margt og hefir mikið af þeim hyggindum, sem í hag koma.

**Davíð Bjarnason** Westmann var fæddur á Þóroddsstöðum í Húnavatnssýslu 1822. Höfðu forfeður hans búið þar á eignarjörð sinni hver fram af öðrum um langt skeið. Kona Bjarna en móðir Davíðs hét Guðbjörg og var Jónsdóttir frá Söndum í Miðfirði. Kona Davíðs hét Þórdís Jónsdóttir. Bjó Davíð 14 árin síðustu á Íslandi í Fornahvammi í Mýrasýslu, og munu margir, er fóru þar um farinn veg, minnast þess rausnarheimilis að mörgu góðu. Þar misti Davíð Þórdísi konu sína og fór síðan til Ameríku 1899 og dvaldi um hríð hjá Bjarna syni sínum, kaupmanni í Churchbridge. Síðar tók hann land hér í bygðinni og bjó þar til dauðadags, 19. maí 1904. Davíð var í röð greindustu manna, fríður sýnum og snyrtimaður hinn mesti í allri framkomu. Smiður var hann á kopar og járn og tré og alt fór honum mjög vel úr hendi.

**Narfi Halldórsson.** Foreldrar hans voru Halldór Sveinsson og Guðrún Narfadóttir, hjón á Kálfhóli á Skeiðum í Árnessýslu. Var hann hjá foreldrum sínum þar til hann varð 24 ára, að hann vistaðist að Hákoti á Álptanesi til ekkjunnar Ástríðar Árnadóttur og giftust þau nokkru seinna. Einn son eignuðust þau, er látinn var heita Guðbrandur eftir fyrra manni Ástríðar. Sambúð hjónanna var hin bezta, hún var rausnar- og ráðdeildarkona og í öllu falli ágætiskona. Hann aftur framúrskarandi ljúfmenni og lét hana ráða um margt. Narfi stundaði sjó og hélt úti skipi, en var ekki aflasæll og var því efnahagurinn þannig, að hafa þurfti alla varkárni. Sleptu þau síðar jörðinni og settust að í Reykjavík um tíma. Árið 1883 fluttust þau ásamt Guðbrandi til Ameríku og fóru fyrst til Dakota og voru um tíma hjá Ólafi Guðmundssyni og konu hans, Sigþrúði, dóttur Ástríðar af fyrra hjónabandi. Síðan

fluttust þau til Winnipeg og vorið 1886 í þessa bygð og tóku feðgarnir sitt landið hvor, en bygðu íbúðarhúsið á landi Narfa. Höfðu þeir eignir allar í félagi og urðu efni þeirra blómlegri með hverju árinu sem leið. Árið 1899 seldi Narfi land sitt með byggingum fyrir $300 og Guðbrandur gaf sitt land aftur til stjórnarinnar. Fluttust þau síðan búferlum vestur í Foam Lake bygð og dvöldu þar til dauðadags. Lézt Ástríður 6. ágúst 1902, en Narfi 31. marz 1911.

**Guðbrandur Narfason,** sonur Narfa og Ástríðar, sem hér á undan eru nefnd. Var hann eins og áður er sagt með foreldrum sínum. Narfi var alt af við heimilið og vann þau verk, sem þar þurfti að vinna, en Guðbrandur vann annarsstaðar þá tíma, sem vinnu var að fá. Veturinn 1887 keypti Guðbrandur uxapar ótamið, en tamdi þá að áliðnum vetri og vann svo með þeim hjá nágrönnum sínum við heyskap og annað. Öllum líkaði vel við Guðbrand, því auk þess sem hann var góður verkmaður, var hann hið mesta ljúfmenni. Hann var einn af þeim fáu, sem enginn gat misjafnt um sagt. Mátti um hann segja, að hann hefði erft beztu eiginleika foreldra sinna: ráðdeildina og dugnaðinn frá móður sinni, en stillinguna og ljúfmensku frá föður sínum. Þeir feðgar tóku góðan þátt í öllum félagsskap bæði með peningaframlögum og vinnu. Kristindómsmálin studdi Guðbrandur af miklum áhuga, var í safnaðarnefndinni meðan hann var hér. Líka sat hann lengst af í skólanefnd bygðarinnar. Í nóvember 1888 gekk hann að eiga Önnu Eiríksdóttur, Ingimundarsonar og Gróu Ásbjarnardóttur frá Áhrauni í Árnessýslu. Var Anna mesta góðkvendi. Eins og áður er sagt fluttist öll fjölskyldan til Foam Lake bygðar og bjó þar rausnarbúi til æfiloka. Guðbrandur dó 15. marz 1913 og Anna kona hans 13. júní sama ár.

**Einar Jónsson Suðfjörð** er fæddur á Seljalandi í

Skutulfirði 25. maí 1837. Faðir hans hét Jón Arnfinnsson, Arnfinnssonar, Gíslasonar, er lengi bjó í Gröf í Gufudalssveit í Barðastrandarsýslu. Móðir Einars var Júdit Jónsdóttir, Einarssonar, hreppstjóra á Höfðaströnd í Grunnavík í Ísafjarðarsýslu. Kona Einars er Guðbjörg dóttir Einars Jónatanssonar og Sigríðar Hjaltadóttur, prófasts á Stað í Steingrímsfirði. Ólst hún upp hjá móðurbróður sínum séra Andrési. Þau Einar og Guðbjörg fluttust frá Fossi í Suðurfjörðum í Barðastrandasýslu ásamt þrem börnum sínum til Ameríku 1883, stigu á land 20. ág. í Quebec. Dvöldu hálft annað ár í Ontario og vann Einar þar hjá enskum bónda. Sumarið 1885 lagði Einar á stað vestur til Winnipeg og vann á járnbraut til haustsins og sendi þá konu sinni og börnum fargjald til að komast til W.peg og settust þau þar að. Um það leyti var Helgi Jónsson ritstjóri að stofna til Þingvallanýlendunnar og átti verzlun í Shellmouth. Seint í jan. 1886 lagði Einar á stað vestur þangað í fylgd með Helga og konu hans, fyrst með járnbraut til Solsgirth, og síðan keyrðu þau þaðan til Shellmouth og tók það ferðalag tvo daga í skafbyl og hörkufrosti og urðu þau við og við að skjótast inn í húsin með fram brautinni til að hlýja sér. Þegar Einar lagði upp frá Winnipeg átti hann $10, en þegar til Shellmouth kom, voru eftir 50 cents, gekk það í ferðakostnaðinn, en eftir það lánaði Helgi Einari alt, sem hann þurfti með. Í Shellmouth gisti Einar hjá Vigfúsi Þorsteinssyni, járnsmið, og konu hans Guðríði Guðmundsdóttur, er sýndu honum, sem öllum Íslendingum er til þeirar komu, gíðvild mikla endurgjaldslaust. Seint í febrúar fór Einar á stað til að leita uppi land það, er Helgi hafði tekið fyrir hann í Þingvalla, og fékk með sér enskan bónda, er Williton hét; fóru þeir á uxum og komu að húsi því sem Jón Magnússon hafði bygt haustið áður, og skildi Einar þar eftir föt og annað nauðsynlegt og héldu þeir svo tvær mílur vestur og gizkaði Williton á að þar væri land Einars, því landamerki fundust eng-

in þar sem alt var á kafi í snjó. Einar byrjaði þegar að fella tré í hús sitt, en hélt til í húsi Jóns Magnússonar um nætur, sem var tvær mílur burtu; gekk hann þá vegalengd kvöld og morgna á skíðum, sem hann bjó sér til úr blautum við úr skóginum. Eftir átta daga var hann búinn að koma upp hústópt, 20 fet á lengd og 12 á breidd, og hélt svo til Shellmouth aftur.. 23. marz um vorið lagði Einar aftur til nýlendunnar, og voru þá í fylgd með honum þeir Jón Magnússon og Björn Ólafsson og höfðust þeir við í húsi Jóns. Björn og Einar fóru þá að höggva við í hús handa Birni. Dag einn fóru þeir að leita eftir landamerkjahælum hjá Einari, því snjór var þá mjög farinn að síga. Urðu þeir þess þá varir, að húsið stóð ekki á Einars landi og varð því að færa það, og hjálpuðust þeir Björn og Einar að því og gekk vel. Var það fyrsta húsið (utan Jóns) í Þingvalla, sem fjölskylda gat hafst við í og varð eftir það mörgum skýli. Síðan komu þeir upp húsi handa Birni og fóru svo inn til Shellmouth. 9. apríl fór Einar aftur með borðvið í þakið á húsi sínu og kom því þá undir þak, en lá við í húsi Jóns á meðan. Eftir átta daga flutti hann sig alfarinn í hús sitt, þó væri það glugga og hurðarlaust. 28. apríl fékk hann Williton, sem áður er nefndur, til að rista upp blett fyrir jarðepli, og voru það fyrstu strengirnir, sem ristir voru með plógi í Þingvalla. — Fyrsta maímánaðar kom fjölskylda Einars frá Winnipeg. Frá því hann fór þaðan í janúar um veturinn, hafði Guðbjörg kona hans unnið fyrir fjölskyldunni og þar að auki borgað $20 í ferðakostnaðinn vestur. Þau Einar og Guðbjörg bjuggu á landi sínu í sjö ár og tóku ætíð góðan þátt í félagsskap bygðarinnar. Voru gestrisin og var því oft gestkvæmt á heimili þeirra. Árið 1893 fluttust þau í grend við Manitoba-vatn og bjuggu þar á ýmsum stöðum og tóku þar síðan rétt á landi. Hættu búskap 1904 og fluttu til dóttur sinnar Moniku, sem gift var Magnúsi S. Thorlákssyni í Churchbridge, og síðar til hinnar dótturinnar er Kristín heitir og gift

er Halli G. Egilssyni bónda í Lögbergsnýlendu. Nú eru þau hjá Moniku, sem orðin er ekkja og býr hér í bygðinni.

**Jón Ögmundsson** er fæddur á Bíldsfelli í Árnessýslu 29. desember 1833. Foreldrar hans voru þau Ögmundur bóndi Jónsson Sigurðsonar frá Ásgarði í Grímsnesi og Elín Þorláksdóttir ættuð andan Eyjafjöllum. Jón ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hann var 30 ára gamall; þá giftist hann Þjóðbjörgu Ingimundardóttur Gíslasonar frá Króki í Grafningi, og reistu þau hjón bú á smábýli einu, Torfastöðum, þar í sveit. Árið 1865 dó Ögmundur faðir Jóns og fluttust þau hjón þá ásamt elzta syni sínum, Gísla, að Bíldsfelli, og bjuggu þar síðan samfleytt í 20 ár. Búhöldur var Jón góður og efldist því brátt að efnum og áliti, fyrir dugnað og framtakssemi, ekki að eins frá efnalegu sjónarmiði, heldur tók hann líka mikinn og góðan þátt í héraðsmálum og þótti ætíð tillögu- og úrræðagóður í öllum vandamálum og naut því trausts og virðingar allra, sem hann þektu. Jón var hreppstjóri í Grafningshreppi í 22 ár og hreppsnefndar oddviti um langt skeið. — Árið 1885 misti Jón konu sína og tveim árum síðar, eða 1887, seldi hann Bíldsfellið, sem verið hafði ættareign lengi, og búið alt, og fluttist vestur um haf ásamt sex börnum sínum. Þegar Jón kom til Ameríku flutti hann tafar-



laust til Þingvallanýlendunnar, tók hér heimilisréttarland og reisti snoturt bú, og stjórnaði því þar til hann lét algerlega af búskap 1892 og gaf land og eignir í hendur barna sinna; sama ár fluttist hann með elzta syni sínum, Gísla, til Fishing Lake og litlu síðar til Foam Lake, þar sem Gísli sonur hans reisti sér bú 1894, og hefir Jón aðallega dvalið þar síðan. Á meðan Jón dvaldi í Þingvallanýlendu tók hann góðan þátt í félagsmálum bygðarmanna og studdi öll framfaramál og góð fyrirtæki í orði og verki. — Jón er meðalmaður á hæð, nokkuð þrekinn, dökkur á hár og skegg, léttur á fæti og snar í öllum hreyfingum, fastur í skoðunum, lundin hrein og nokkuð rík, en hún hefir stjórnast af góðum gáfum og heilbrigðri dómgreind. — Þau hjón, Jón og Þjóðbjörg, áttu tíu börn, fjögur þeirra: Ólafar tveir, Þórður og Guðrún, dáu heima á Íslandi, þrjú hafa dáið hér í Ameríku: Elín og Kristín komnar undir tvítugt og Elías 13 ára. Þrjú eru lifandi, öll búsett í Ameríku: Gísli J. Bildfell bóndi að Foam Lake, Sask.; Ögmundur J. Bildfell, eftirlitsmaður við strætisvagna í Winnipeg, og Jón J. Bildfell, ritstjóri Lögbergs í Winnipeg.

**Björn Jónsson** er fæddur á Skáney í Reykoltsdal í Borgarfjarðarsýslu 14. júlí 1852. Foreldrar hans voru: Jón Björnsson, Jónssonar, Erlendssonar, sem lengi bjó í Fljótstungu í Hvítársíðu, í Mýrasýslu, og dó þar. Var ætt sú kölluð Fljótstunguætt. Móðir Björns var Ingibjörg Eileifsdóttir og Unu Kristjánsdóttur, er bjuggu um tíma myndarbúi á Hesti í Andakíl í Borgarfjarðarsýslu. — Þegar Björn var átta ára gamall fluttust foreldrar hans að Efrahreppi í Skorradal í sömu sýslu. Bjuggu þar þangað til um vorið 1863. Þá dó faðir Björns. Tóku Björn þá til fósturs Steinólfur Grímsson og Guðrún Guðmundsdóttir. Bjuggu þau þá á Búrfelli í Hálsasveit. Dvaldi Björn þar til 14 ára aldurs. Fór hann þá til Guðlaugs prests að Reykholti og Halldóru konu hans. Var hann hjá

þeim hjónum til 18 ára aldurs. Var hann síðan ýmist hjú eða lausamaður á ýmsum stöðum þangað til haustið 1881. Gekk hann þá að eiga Ólafíu Stefánsdóttur



Björn Jónsson og Ólafía Stéfánsdóttir,

Ólafssonar og konu hans Ólafar Magnúsdóttur, er þá bjuggu rausnarbúi í Kalmannstungu. Var kona Björns fædd 20. júlí 1859 og ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hún giftist. — Björn og Ólafía bjuggu á móti foreldrum hennar í Kalmannstungu í eitt ár og fluttust síðan að Hamraendum í Stofholtstungum og bjuggu þar í 4 ár. Um 1881—82 var óáran mikil í landi. Leiddi það til þess, að þau hjón brugðu búi, og fluttu til Vesturheims, því þó þau ættu gott bú litust þeim

framtíðarhorfurnar ekki trygglegar. Fóru þau vestur frá Reykjavík 1886 og létu í haf 4. júlí,, með tvö börn, Stephaniu Jónínu tveggja ára og Jón á fyrsta ári, og komu til Winnipeg eftir tæpa mánaðarferð. — Tóku þar vel á móti þeim fornvinir Björns: Ólafur Ólafsson og Helga Guðmundsóttir frá Akranesi. Urðu kona Björns og börn þar eftir, en hann réðst strax í vinnu á Manitoba og Norðvesturbrautinni, og byrjaði vinnu í Portage la Prairie. Varð starf það þó endaslept, því eftir ellefu daga vildi það til, að maður nokkur, Freysteinn Jónsson, er þar vann, varð veikur. Var engin læknishjálp fáanleg. Fór þá Björn úr vinnunni til þess að hjálpa Freysteini heim. Járnbraut var ekki lögð lengra en til Birtle, og urðu þeir því að ganga, er járnbraut þraut. Náttstað höfðu þeir í Millwood og Shellmouth og var ætíð sem í forldrahús væri komið, er landar þeir er þar bjuggu veittu þeim viðtöku og næturgreiða, vísuðu þeim til vegar og leiðbeindu, alt endurgjaldslaust. Sýna þessi dæmi hjálpfýsi frumbyggjanna, samheldni og vinarþel. — Þegar til Þingvallanýlendu kom var það verk fyrir hendi, að afla heys með orfi og ljá eins og heima, því ekkert var til er goldið gæti hesta og vélar. Húsnæði fengu þeir hjá Vigfúsi Þorsteinssyni, járnsmið, og konu hans Guðríði Guðmundsdóttur. Var þó ein fjölskylda þar áður fyrir auk heimafólks, og voru þó húsakynni ekki stór. — Ef til vill hafa Íslendingar á frumbýlingsárunum gengið lengra í því að hjálpa hverir öðrum, en nokkur annar þjóðflokkur, er til Ameríku hefir flutt. —Lönd námu þeir Björn og Freysteinn í Þingvallanýlendu 2—3 mílur norður frá Churchbridge. Kom fjölskylda Björns vestur um haustið og hafði hann þá bygt fjós fyrir sex gripi; bjuggu þau þar hinn fyrsta vetur. — Í Þingvallanýlendu hafa þau búið síðan. Þröngt var í búi fyrstu árin. Frost og þurkar eyðilögðu uppskeru, og vatnsskortur var svo tilfinnanlegur, að margir fluttu burt. Samt eru þau hjón nú komin vel í álnir, enda unnið dyggilega fyrir sér og börnum

sínum. Sex eru á lífi, en fjögur dóu í æsku og eitt nær fulltíða. Þarf þrautseigju og starf til að annast svo stóran hóp og auka þó bú sitt með hverju ári. Eiga þau nú fjögur góð lönd og fjölda gripa. Öll löndin eru skuldlaus. — Börn Björns og Ólafíu, sem nú eru á lífi, auk þeirra tveggja, sem áður er getið, eru: Ólöf Emilia, gift Guðmundi Camoens Helgasyni Árnasonar og Guðrúnar Jónsdóttur, velmetinna hjóna þar í bygð; búa þau hjón á föðurleifð Guðmundar og eiga fleiri lönd þar í kring. Þórunn, gift Guðmundi Ólafssyni Guðmundssonar prests á Arnarbæli og konu hans Sigþrúðar Guðbrandsdóttur; búa þau nú í Ísafoldarbygð í Manitoba. Stefán, og Halldór, báðir heima hjá foreldrum sínum. — Drjúgan þátt hefir Björn tekið í félagsmálum bygðar sinnar, bæði andlegum og veraldlegum. Er það einkenni þeirra hjóna, að veita af alvöru lið því, sem þau álíta að betur sé. Gestrisni og viðfeldni er þeim hjónum eiginlegt að sýna öllum, sem til þeirra koma og sömuleiðis að rétta hjálparhönd þar sem þau vita að þess þarf.

**Freysteinn Jónsson** var fæddur í Gaulverjabæ í Árnessýslu 2. júní 1848. Voru foreldrar hans Jón Freysteinsson og Guðný kona hans. Ólst Freysteinn að mestu upp hjá Ófeigi Vigfússyni ríka á Fjalli á Skeiðum. 16 ára vistaðist hann að Hálsakoti á Vatnsleysuströnd; bjó þar þá Gunnar Erlendsson, og hjá honum var hann þangað til 1871, að hann réðist til Ingibjargar Konráðsdóttur á Innri-Ásláksstöðum í sömu sveit. Var hún ekkja Eyjólfs Högnasonar. Ári síðar gekk Freysteinn að eiga dóttur hennar, Kristínu Eyjólfsdóttur, fædd 22. marz 1850. Um það mund tók hann við búsforráðum af tengdamóður sinni. Öll þau ár, sem Freysteinn bjó á Innri-Ásláksstöðum, hafði hann auk búskaparins mikinn sjávarútveg og hepnaðist vel, svo hann gat framan af bætt við skipaútveginn og bygt vandað íbúðarhús. En fiskileysisárin eftir 1880 gerðu framtíðarhorfur útvegsbænda annað en

glæsilegar, svo hann sá það ráð vænst, að leita gæfunnar vestur um haf, með það jafnframt fyrir augum, að tryggja framtíð barna sinna. Svo vorið 1886 seldu



Freysteinn Jónsson og Krístín Eyjólfsdóttir,

þau hjón allar eignir sínar og fluttust til Canada og tóku land hér í bygð, sem þau bjuggu á til dauðadags. Þegar hingað kom, voru efnin lítil og tók hann lán til að byrja búskapinn með. En bæði hjónin voru á bezta aldri, með óbilandi hug á að yfirvinna erviðleikana, sem landneminn á við að stríða. í þessu landi. Freysteinn var mesta hraustmenni og kappsamur til hverrar vinnu sem hann gekk, samfara fyrirhyggju. Þegar hann lézt átti hann fimm lönd með reisulegum byggingum af beztu tegund, akuryrkjuverkfæri öll og fjölda af nautgripum og öðrum skepnum í bezta ásig-

komulagi. Því má við bæta, að alt var skuldlaust. Freysteinn lézt 17. marz 1914; hafði hann um nokkur ár kent sjúkleiks í hálsi, sem ágerðist. Var hann á leið til Winnipeg að leita læknishjálpar. Kvaddi hann konu sína og vini á járnbrautarstöðinni í Churchbridge og um leið og hann tók sæti í vagnlsestinni var hann örendur. Kristín kona Freysteins var merkiskona. Alt sem hún tókst á hendur, rækti hún með trúmensku, sem aldrei brást. Heimilið annaðist hún með ráðdeild og með svo miklum kærleik til manns síns og barna, að aðdáanlegt var. Meðan á veikindum manns hennar stóð, var eins og heilsa hennar færi þverrandi. Hún var tilfinninganæm, hafði orðið fyrir sársauka miklum 1901 við fráfall sextán ára dóttur af slysi, sem hún aldrei gat gleymt. Og við fráfall manns síns fanst henni líf sitt hlyti að vera á enda og þráði af alhug að mega verða bónda sínum samferða. "Ung var eg Njáli gefin" sagði Bergþóra forðum. Kristín andaðist 20. júlí sama ár og hvílir við hlið manns síns í grafreit Þingvallakirkju. — Á þeim 28 árum, sem þau hjón dvöldu hér í bygðinni, tóku þau mikinn og góðan þátt í félagslífinu. Hann var öruggur starfsmaður kristindómsmálanna og fulltrúi á kirkjuþingum Vestur-Íslendinga nokkrum sinnum. Alúð og gestrisni sýndu þau hjón öllum er að garði bárust. Hafði hann gott lag á að gleðja gesti sína með spaugsyrðum og með þeim vekja skemtilegar samræður. — Fimm börn þeirra eru á lífi: Kristín, kona Halldórs Reykjalín á Mountain; Högni, í Winnipeg; Ingibjörg, kona Jónasar Þorvarðssonar kaupmanns í Winnipeg; og Jón og Guðný, sem nú sitja í búi foreldra sinna. Líka áttu þau fósturbarn, Önnu Hannesdóttur, gifta J. G. Snædal, tannlækni í Winnipeg. — Jón sonur Freysteins býr á landi föður síns, með systur sína fyrir bústýru, eins og áður er sagt. Hefir Jón mörg lönd yfir að ráða, er dugnaðarmaður með afbrigðum og býr stórbúi og líklegur að eiga góða framtíð.—1916.

**Ólafur Guðmundsson,** fæddur í Litla-Dunhaga í Möðruvallaklaustursssókn í Eyjafirði 17. febrúar 1850. Faðir hans var síra Guðmuudur Einarsson, stúdents og



Ólafur Guðmundsson og Sigþríður Guðbrandsdóttir.

kaupmanns í Reykjavík, Jónssonar; var Einar stúdent eins og kunnugt er; föðurbróðir Jóns forseta Sigurðssonar og faðir Ingibjargar konu hans. Móðir Ólafs var Guðrún dóttir Georgs Péturs Hjaltsted. Í það mund var síra Guðmundur prestur Möðruvalla prestakalls. Þegar Ólafur var sjö vetra tók faðir hans veitingu fyrir Arnarbæli í Ölfusi og fluttist hann þangað með ferldrum sínum. Þegar fram liðu stundir ætlaði síra Guðmundur að láta son sinn ganga skólaveginn, en Ólafur neitaði; var það skapi hans nær, að

standa við slátt og aðra vinnu sem að búskap laut, en skólanám, enda var hann hraustmenni og einkar létt um vinnu. Hjá foreldrum sínum var hann þar til árið 1872, að hann tók sig upp ásamt nokkrum öðrum af Eyrarbakka, undir forystu síra Páls Þorlákssonar, og fór til Bandaríkja Norður-Ameríku, og léttu eigi ferð sinni fyr en þeir komu til Washingtoneyjarinnar, því þangað voru áður nokkrir landar komnir. Staðnæmdust þeir flestir þar um veturinn, en Ólafur hélt til Milwaukee og dvaldi þar til næsta haust. Um veturinn 1873, 28. febrúar, druknaði síra Guðmundur faðir Ólafs í Ölfusá. Svo að á næsta hausti hvarf Ólafur aftur heim til Íslands, samferða Torfa búfræðingi frá Ólafsdal, sem þá var á heimleið. Fór Ólafur þá til móður sinnar og var hjá henni þar til hún lét af búskap 1876. Það sama vor giftist Ólafur ungfrú Sigþrúði Guðbrandsdóttur. Fædd í Hákoti á Álftanesi 1858, dóttir Guðbrandar Hinrikssonar og Ástríðar Árnadóttur, er síðar giftist Narfa Halldórssyni. Það sumar hurfu ungu hjónin vestur um haf og til Nýja Íslands og voru þar í tvo vetur en í Winnipeg á sumrum. Síðan flutust þau til Dakota og námu þar land og dvöldu þar til 1886, að þau fluttust til Þingvallabygðar, sem á því vori var að byggjast. Voru þau ein með þeim efnuðustu, er til bygðarinnar komu, áttu 20 nautgripi, uxapar og öll nauðsynleg vinnuáhöld. Ólafur var maður lipur og skemtinn í allri framkomu og bæði eru þau hin mestu myndarhjón. Hafa komið upp tíu mannvænlegum börnum og heita þau: Guðmundur, Guðbrandur, Óli Frímann, Jóhannes, Júlíus og Kjartan; Ingibjörg, Guðrún, Sigurlína, Kamilla Kristín og Ásta Marfína. — Guðmundur er giftur Þórunni Björnsdóttur, bónda í Þingvalla; Ingibjörg, gift Magnúsi Péturssyni bónda á Big Point, Man.; og Sigurlína, gift Kristjáni Backman, er nú stundar nám við læknaskólann í Winnipeg. — Héðan flutti Ólafur 1898 til Glenforsa í Manitoba og

var þar um hríð, og síðan að Ísafoldar pósthúsi og býr þar nú.

**Jósep Ólafsson.** Voru foreldrar hans Ólafur Guðmundsson Jónssonar frá Fornhaga í Hörgárdal og Sigríður Jósepsdóttir Jósepssonar, er eitt sinn bjó á



Jósep Ólafsson og Margrét Kristjánsdóttir.

Munkaþverá og síðar í Hvammi í Eyjafirði. Þau Ólafur og Sgiríður foreldrar Jóseps bjuggu allan sinn búskap í Hvammi yfir 40 ár. Jósep, þá ungur maður, var í hópi þeirra er frá Akureyri fóru vestur um haf 1873. Fyrsta veturinn hér í landi var hann í Ontario, en fór svo til Millwaukee og dvaldi þar eitthvað og í öðrum stöðum í Bandaríkjunum þar til kringum 1880 að hann fluttist til Winnipeg. 1883 gekk hann að eiga Margréti Kristjánsdóttur, frá Steðja á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu. Um nokkur ár hafði Jósep á hendi kjötverzlan í Winnipeg, en seldi þá verzlan og

fluttist til Þingvalla 1888. Tók hér eignarrétt á landi og reisti snoturt bú og mundu þau hjón hafa átt hér góða framtíð, bæði fyrir sig og félagslíf bygðarinnar, ef heilsa og líf hefði enzt til, því bæði voru þau samvalin að myndarskap. Tvo syni áttu þau, sem upp komust, Alexander Óskar, giftur Ingibjörgu Þóru dóttur Magnúsar Hinrikssonar og konu hans Kristínar Þorsteinsdóttur hér í bygð. Búa þau í Churchbridge. Hinn heitir Victor Emanúel og á heima hér í bygðinni. Jósep lézt eftir langt heilsuleysi vorið 1892.

**Sigurður Jónsson** er fæddur á Draflastöðum í Saurbæjarhreppi í Eyjafjarðarsýsluu 29. apríl 1852. Foreldrar hans voru Jón Bjarnason og Rannveig Sigurðardóttur. Kornungur misti Sigurður föður sinn. Ólst hann upp hjá móður sinni, er giftist í annað sinn Jósep Jóhannssyni og bjuggu að Hólum í Eyjafirði lengi. Eftir að Sigurður varð fulltíða réðist hann í vinnumensku þar í sveitinni. 1873 gekk hann að eiga Þóru Hannesdóttur, Jóhannssonar, og konu hans Rut Ólafsdóttur, ættuð vestan úr Skagafirði. Árið eftir fluttust þau til Canada og dvöldu fyrsta árið í Ontario. Og voru síðan í fyrsta hópi Íslendinga (1875) til Nýja Íslands og námu land tvær mílur suður af Gimli og nefndu bújörð sína Fögruvelli. Þar voru þau þangað til 1886, að þau fluttust til Þingvalla og reistu þar bú. 1893 keypti Sigurður land í nágrenni við sig, með byggingum og nokkuð af landinu plægt, fyrir eitt lítið hross. Þau Sigurður og Þóra eignuðust níu börn, og eru fjögur á lífi: Rannveig, gift norskum manni, Julius Skaalrud, og búa í nágrenni við Sigurð og eiga þrjú börn; svo eru þrír synir: William Sigurður, Eggert og Pálmi. Þeir bræður tóku heimilisréttarllönd strax og þeir höfðu aldur til. Hafa þar að auki gert kaup á löndum í nágrenni við sig og reka félagsbú; hafa mikla jarðrækt og öll akuryrkjuverkfæri, þar á meðal þreskivél, sem þeir halda úti á haustum fyrir sjálfa sig og nágrannana. William Sigurður gekk í herlið Canada í marzmán. 1916.—Þóra kona Sigurðar lézt 6. júní

1899. Árið 1905 kvæntist Sigurður í annað sinn Pálínu Marteinsdóttur Guðlaugssonar frá Álftagerði við Mývatn. Var hún ekkja eftir Snorra Jónsson Reykja-



Sigurður Jónsson og Þóra Hannesdóttir.

lín frá Þönglabakka í Þingeyjarsýslu, er lézt 1904. Með honum hafði Pálína eignast fjóra syni og eina dóttur, sem nú eru fullorðin. Gekk elzti sonurinn, Guðmundur að nafni, í herþjónustu í jan. 1916. Þau Pálína og Sigurður hafa eignast þrjú börn, 2 pilta og eina dóttur. Búa þau á landi, er þau hafa keypt, og hafa bygt þar vandað hús og hafa allmikla akra. — Sigurður hefir tekið mikinn og góðan þátt í öllum félagsskap, er til framfara hefir leitt, síðan hann kom í þessa bygð. Látið sér einkar ant um skólamál héraðsins og verið góður styrktarmaður Þingvallasafnaðar og mætt sem erindsreki fyrir þann söfnuð á kirkjuþingi.

**Helgi Árnason** er fæddur 2. september 1847, sonur Árna Ólafssonar og Gróu Bjarnadóttur, hjóna á Steinkrossi á Rangárvöllum. Hjá foreldrum sínum ólst hann upp. Lézt faðir hans 1858, en móðir hans giftist aftur 1861, Guðm. Sigurðssyni, ættuðum úr Hrunamanna hreppi Árið 1864 réðist Helgi í vist að Reyðarvatni til Böðvars Tómassonar og var þar í níu ár. Síðan var hann fjögur ár á Kornbrekkum. Kona Helga er Guðrún Jónsdóttir Tómassonar og Rannveigar Þorvarðsdóttur, hjóna á Uppsölum í Hvolhreppi. 1864 fór hún frá foreldrum sínum að Reyðarvatni í Rangárvallas. til föðurbróður síns, sem áður er nefndur, og var þar í þrettán ár. Vorið 1877 byrjuðu þau Helgi og Guðrún að eiga með sig sjálf í húsmensku í Auðsholti í Ölfusi um eitt ár. Annað ár voru þau í Króki í Arnarbælishverfi; þaðan fluttust þau að Hvammi í Ölfusi og bjuggu þar sjö ár. Þau byrjuðu búskap með litlum efnum og þótt efnahagurinn færi heldur batnandi, var búskapur þeirra alt af í smáum stíl. Meðan þau voru í vinnumensku fékk hann sjö spesíur um árið (nálægt $8) og tólf sauðkinda fóður og öll föt, en kaup hennar um þriðji partur móti hans. Vorið 1886 réðu þau af að fara vestur um haf, seldu bú sitt, sumt við uppboð og sumt eftir því sem bezt gekk þess utan. Um fjörutíu sauðir voru óseldir til haustsins, sem góður nágranni hans, Hannes Hannesson í Bakkaholti, tók að sér að selja og leysti vel af hendi; aðrar eignir, sem



Helgi átti útistandandi, tók sóknarprestur hans, séra Ísleifur Gíslason að sér að innkalla, og gekk frá því sómasamlega. Helgi og Tómas Ingimundarson frá Egilsstöðum höfðu ráðgert að halda saman og verða samferða til Þingvallanýlendu. Höfðu þeir lesið lýsing af því héraði í blaðinu "Leifur", sem þá var sent gefins til Íslands. Að kveldi 4. júlí var farið um borð í Reykjavík á gufuskipið Camoens. Fór skipið kring um land og tók fólk og hesta á fimm höfnum. Komum við til Skotlands þann 16., til Quebec þann 25. og til Winnipeg 30. s.m. Eftir að til Winnipeg kom varð töf á því að Helgi og Tómas færu vestur til Þingvalla. Fór Helgi um tíma suður til Pembina og vann þar öðru hverju, svo að hann vann fyrir því, sem fjölskyldan þurfti. Fór svo um haustið aftur til Winnipeg og þaðan vestur til Þingvalla í október. Var í húsi með Birni Ólafssyni um veturinn og flutti á land sitt um vorið 1887, í nágrenni við Tómas, sem áður er getið. Aðrir nágrannar Helga voru Ólafur Guðmundsson frá Arnarbæli og Þiðrik Eyvindsson frá Útey; voru þeir fjórir á 14-22-32. — Þau Helgi og Guðrún eignuðust sex börn; komust þrjú til fullorðins ára: Helgi, fæddur 24. ágúst 1882, var skólakennari, mikið mannsefni, er lézt 1906. Guðmundur Camoens, fæddur 13. júlí 1886 á skipinu Camoens við Skotland; skírður í Glasgow 15. s.m. Yfirmaðurinn á skipinu bað þess, að hann væri látinn heita nafni skipsins,. er giftur Ólöfu Emilíu Björnsdóttur, og býr á landi föður síns. Arnheiður, fædd 24. marz 1889, gift Hjálmari Ólafsyni Loptssonar. Með Helga kom og að heiman fósturdóttir þeirar hjóna, systurdóttir Guðrúnar, Sesselja Jónsdóttir Sigurðssonar, sagnfræðings frá Steinum undir Eyjafjöllum og konu hans Rannveigar Jónsdóttur frá Uppsölum í Hvolhreppi. Er hún gift Steingrími Jónssyni bónda við Kandahar, Sask.— Þau Helgi og Guðrún bjuggu á landi sínu í 25 ár, fluttust til Bredenbury, sem er lítill bær vestan við nýlenduna, 1912, keyptu lóð og bygðu á því lítið hús, sem

þau hafa búið síðan. Þau eru við góða heilsu og eru líkindi til að þau njóti þar æfikveldsins.—1915.

**Bjarni Stefánsson,** fæddur á Litla-Bakka í Miðfirði í Húnavatnssýslu 1. október 1854. Foreldrar hans voru hjónin Stefán Stefánsson og Karólína Bjarna-



Bjarni Stefánsson og Elín Indíana Eiríksdóttir.

dóttir, sem þar bjuggu. Bjarni misti föður sinn ungur og varð hann þá að fara til vandalausra, en vann jafnan fyrir sér. Þótti hann verkmaður ágætur, lét vel alt smíði, bæði á tré og málm, og stundaði það jafnan alla æfi. Árið 1878 giftist hann Elínu Indíönu Eiríksdóttur; voru foreldrar hennar Eiríkur Jónsson og Anna Eiríksdóttir. Dvöldu þau að Reykjum í Hrútafirði og síðar fluttust þau að Óspaksstöðum í sömu sveit og þaðan fóru þau vestur um haf árið 1883 og voru búsett í Winnipeg þar til þau fluttust í þessa bygð vorið

1886. Á þeim árum var tregt um vinnu hér í landi og kaupgjald lágt, og voru því efni þeirra hjóna lítil þegar hingað kom, en dugnaður og þrautseigja beggja hjónanna komu þeim yfir örðugleikana, sem frumbýlingsárin hér í landi höfðu í för með sér. Þau áttu hóp barna fyrir að sjá og leystu uppeldi þeirra af hendi með sóma. Í félagslífi nýlendunnar tóku þau hjón mikinn og góðan þátt. Hélt Bjarni uppi sunnudagsskóla um nokkur ár og lét sér ant um kristindómsmálin. Á samkomum bygðarinnar kom hann oft fram á ræðupallinn og var ánægjulegt á hann að hlusta, því hann var maður mjög skýr og vel greindur. Í skólanefnd sveitarinnar sat hann alt af. — Tólf ár bjó Bjarni í Þingvallabygð; þá fluttist hann ásamt þrem öðrum íslenzkum bændum austur í Strathclair-sveit í Manitoba og settist á land er hann keypti. Þar bjó Bjarni rausnarbúi í fjórtán ár. En þá höfðu smámsaman íslenzku nágrannarnir flutt burtu og var Bjarni einn orðinn eftir Íslendinganna og kunni þá eigi við sig þar lengur; vildi hann þá komast í bygð með Íslendingum til þess að geta notið félagsskapar með þeim á elliárunum. Börn hans voru þá og fulltíða og sum komin vestur í Vatnabygð í Saskatchewan og stóð því hugur hans þangað. Seldi hann þá lönd sín í Manitoba og keypti aftur nálægt bænum Elfros. Var hann á leiðinni þangað með búslóð sína, þegar hann féll út af járnbrautarflutningsvagni og beið bana af. — Bjarni og kona hans Elín Indíana eignuðust tíu börn, en sex af þeim komust til fullorðinsára: Stephan Danival, ráðsmaður hjá útgáfufélagi Heimskringlu í Winnipeg; Eiríkur, bóndi við Elfros, Sask., giftur Þorbjörgu dóttur Þorvarðar Einarssonar í Pembina, N.-D.; Engilráð, gift Ó. Ögmundssyni, bónda hjá Winnipegosis; Anna Jakobína, gift Gunnari Gíslasyni, bónda hjá Elfros, Sask.; Elí Bjarni, býr með móður sinni við Elfros, og Karólína, heima hjá móður sinni.

---

*Heiðraði kunningi, Helgi Árnason!*

Fjöldi kornanna myndar bynginn, jafnvel þó ekki sé hægt að taka mikið tillit til hvers einstaks út af fyrir sig, sízt þeirra smærri.

Þú hefir beðið mig að gefa þér einhverja punkta, sjálfum mér viðvíkjandi, í landatökusafn þitt, neitaði eg því, mundir þú tína eitthvað saman. En þar sem hver er sínum hnútum kunnugastur, má eg eins vel verða við þeim tilmælum. Samt hefi eg ekkert sem fólk sækist mest eftir að eiga kost á að lesa í æfiatriðum. Um ekkert ættgöfgi er að ræða, sem eg kann að telja til. Engar æsku unaðsemdir, engin skólaganga og sökum þess engin mentastig, engar háar stöður eða embættaveitingar, engar skemtiferðir, engin veizluhöld eða virðinga heimsóknir.

Flest af hinu síðar talda fer nú raunar fram hjá fleirum en mér, það leggur leið sína oftast fram hjá þeim, sem plægja eða sá akra, ala fénað eða leggja brautir eða gera flutningatæki. Uppskeruarðurinn lendir sjaldan hjá þeim, sem hafa hlotið þá atvinnugrein að lífsstarfi. Ekki einu sinni eitt einasta æfintýri að segja frá, því það er ekki að telja það, sem næstum hver einn hefir frá að segja, af þeim sem fyrir kring um 30 árum tóku sér bólfestu út um mannauðar sléttur og skóga Norðvesturlands Kanada, svo sem nokkrar kaldar frostnætur eða eitthvert ferðastrit, helzt að vetri til.

Þegar lagt var upp til heimilis aðdrátta, var oft yfir auð svæði að fara, og þó þar hefði verið gististaðir, var varla fé til, eða ekki tímt að eyða einum dal til skýlis fyrir sjálfa sig og uxana, sem þá voru að mestu leyti leiðtogar ferðalagsins, og báru ekki eingöngu hita og þunga dagsins með okkur starfsbræðrum sínum, heldur líka oft kulda næturinnar, og þar sem þá má telja aðra helztu bjargvætti landnemans, (næst kúnum), eiga þeir sannarlega skilið að

þeirra sé minst. Þeir höfðu líka marga mikils verða kosti. Gátu lifað og unnið mikið verk, að eins með heygjöf og vatni, og þó þeim, sem voru mjög ákafir, þætti þeir stundum seinir í förum, voru þeir, sérstaklega er þeir áttu hey að sækja, vel hraðir á gangi, og svo vissir að rata um vegleysu, þó myrkur væri, að vegvísustu menn gátu þar tæplega jafnast við.

En eftir því sem mig minnir um útlit sumra þeirra, munu þeir tæplega hafa fengið verðugt endurgjald fyrir verk sín; en slíkt er oft og einatt mannseðlið við fleiri en uxana. Samt fóru margir vel með þá, og hafa minst þeirra með hlýhug. Og hvað mig snertir, ætti eg von á því að mæta kunningjum mínum hinum megin landamæranna, væri það ekki stór hópur, sem mér væri meiri ánægja að mæta, en fyrstu uxarnir, sem eg vann með. Hvort þeir mundu taka mér eins hlýlega, er eg síður fær um að leiða getur að. Hefi samt von um, að ef þeir bæru kjör sín saman við það, sem lakast var. yrði þeir ekki mjög óánægðir. Og skyldi nú svo líta út að þeir væru svangir og eg vissi þar af góðri graslaut, skyldi eg vísa þeim á hana eða fá góðan bás í hlýju fjósi. Og þó mér sé unaður að hlusta á fagran söng og hljóðfæraslátt, trúi eg ekki öðru en eg mundi skreppa frá því og bæta við tuggu, ef lítið væri orðið í stallinum. Nú eru uxarnir varla til nema í endurminningu. Hestar eru komnir í þeirra stað, þeir eru liðlegri og fljótari í ferðum, en miklu kostnaðarmeiri til fóðurs. Ferðalög eru mikið breytt frá því sem fyrst var, yfirleitt miklu styttri og vegir talsvert farnir að myndast. Svo má telja það til ferðasparnaðar, að talþráður (Telephone) er nú kominn um alla bygðina, og svo eru bifreiðarnar að taka sér heimilisrétt.

Eg er fæddur á Efra Apavatni í Laugardal í Árnessýslu, 24. nóvember 1857. Foreldrar mínir: Hinrik Gíslason frá Nethömrum í Ölfusi, móðir mín, Jór-

unn Magnúsdóttir, Eyjólfssonar frá Steinsholti í Leirársveit. Steinsholt var föðurleifð móður minnar á móti systur hennar, Guðrúnar. Þangað flutti faðir minn til búskapar, en varð vegna fátæktar að bregða búi eftir nokkur ár, og var eg þá kringum níu ára gamall, fluttur ásamt öðrum systkinum mínum á fæðingarhrepp föður míns. Það tímabil er mér sem í fersku minni og í því engir sólskinsdagar. Einu ánægjudagarnir frá því tímabili eru dagarnir sem eg gekk til prestsins og eina virðingin, sem mér hefir hlotnast, var, að vera settur instur af fimm drengjum, sem þá voru fermdir, fyrir að vera fróður í kverinu.

En eg ætla ekki að fara að hripa upp neinar æsku endurminningar, þó þær séu lítilsháttar að komast í móð, og ættu nú reyndar að geta jafnast til nytsemdar við sumt af því, sem sézt á prenti, ef þær eru greinilega fram settar og satt frá sagt, þar sem lifnaðarhættir mannfélagsins stafa að miklu leyti frá þeim hugsunarhætti, sem innleiddur er hjá ungmennunum. En svo hefir vottað fyrir því, að þeirri frásögn mundi veitt hlýrri móttaka frá þeim mönnum, sem höfðu opinn veg að skólamentun, er gaf þeim tækifæri að þægilegri lífsstöðu en hinum, sem ólust upp svipað því sem Einar Hjörleifsson lýsir í sögunni „Vistaskifti", og urðu svo að flýja land vegna vonleysis um að geta lifað þar sjálfum sér og öðrum til gagns eða ánægju, og verða svo að lifa i nokkurs konar útlegð. Því hvað sem nægtunum í þessu landi viðvíkur, eru það víst býsna margir, jafnt Íslendingar sem aðrir þjóðflokkar, sem skilja við heimalöndin á fullorðins aldri, að þeir þrá átthagana, og láti sú tilfinning ekki á sér bera með hlýhug, hefir mér stundum fundist votta fyrir gremju yfir því, að hafa ekki átt kost á að eyða þar æfidögunum.

Eins og flestir aðrir á þeim líma, dvaldi eg í vinnumensku til ársins 1887. Giftist það ár 4. júlí

Kristínu Þorsteinsdóttur, Jónssonar frá Haugshúsum á Álftanesi, og konu hans Kristínar Guðmundsdóttur, Jakobssonar frá Húsafelli.

Lögðum við af stað 11. sama mánaðar til þessa lands og lentum í Winnipeg 1. ágúst.

Fyrsta verk mitt í þessu landi var, að moka sandi undir trébönd á járnbraut, og vann eg fyrstu árin mest við járnbrautarvinnu. því hún var þá helzt á boðstólum. Eg fluttist á heimilisréttarland mitt í janúar 1891, og er það sem tvær og hálfa mílu austur frá þorpinu Churchbridge, og átti þar heima til ársins 1905, að eg flutti þangað sem eg nú bý, sem er um fimm mílur norðaustur frá Churchbridge, og þar sem nú er Thingvalla pósthús.

Börn okkar eru þrjár dætur: Ingibjörg Þóra, fædd 12. september 1888, nú gift Alexander Óskar Jósepssyni, Ólafssonar, og eiga þau heima í Churchbridge. Jórunn er fædd 9. febrúar 1895; gengur hún á háskóla, en kennir við alþýðuskóla á sumrin. Elin Kristín er fædd 19. júní 1903.

2. marz 1916.

*Magnús Hinriksson.*

(Framhald á sögu Þingvallabygðar í næstu útgáfu.)

# ÁSTSJÚKA UNGMENNIÐ.

(Æfintýri eftir J. Magnús Bjarnason.)

Einu sinni var ungur og efnalaus maður, sem var allmikið hörpuskáld. Hann fékk alt í einu brennadi ást á auðugri miðaldra konu, sem var af tignum ættum. En hún elskaði ekki hann. — — Einhverju sinni hitti hann hana niður við sjó, þar sem hún sat á stórum steini í flæðarmálinu. Og var hún að lesa ástarljóð, sem þessi ungi maður hafði nýlega gefið út.

"Hjartað í mér logar og brennur af ást til þín," sagði hann.

"Það hlýtur að vera voðalegt ástand," sagði hin ættgöfuga kona og leit ekki upp.

"Og getur þú þá ekki elskað mig?" sagði hann.

"Nei, — — ómögulega," sagði hún.

"Þá er bezt að eg vaði hérna út í sjóinn."

"Já, gjörðu það," sagði hún. "því það kælir þig."

"Og þá drukna hinir sáru harmar mínir."

"Auðvitað," sagði hún.

"Og þá endar þessi átakanlegi sorgarleikur."

"Já, eins og betur fer," sagði hún.

"Og eg ætla að arfleiða þig að þessum fáu hörpuljóðum, sem eg hefi ort."

"Eg þakka þér fyrir að ætla að muna eftir mér, þegar þú semur erfðaskrá þína," sagði hún.

"Hún er þegar samin. Og kvæðin mín eru það eina, sem eg skil eftir mig."

"Eg er þá eini erfinginn?" sagði hún.

"Já, sá eini."

"Og heldurðu, að þú farir bráðum að deyja?" spurði hún.

"Skilurðu mig ekki? Eg er í þann veginn, að vaða út í sjóinn til þess að deyja."

"Eg hélt, að þú ætlaðir út í sjóinn að eins til þess að kæla þig," sagði hún.

"Nei, eg ætla blátt áfram að **fyrirfara** mér."

"Og er það fullkomin alvara þín?" sagði hún.

"Já, eins sannarlega og eg stend hér og himininn er yfir höfði mér, þá er eg fastráðinn í því að deyja hér í dag og lofa þér að horfa á dauðastríð mitt."

"Getur ekkert aftrað þér frá því áformi?" sagði hún.

"Nei, ekkert. Því eg hefi æ og æfinlega staðið við orð mín og áform."

"Það **á** svo að vera," sagði hún.

"Ó, þú, hin undurfagra, en harðbrjóstaða kona! Vertu nú sæl." — — —

Og hann óð út í sjóinn. — — En þar var útgrynni mikið.

"Farðu vel," sagði konan. Og hún leit ekki upp.

Hann horfði til baka sem snöggvast.

"Við sjáumst **aldrei** framar!" sagði hann og varir hans titruðu.

"Jú, hinum megin," sagði hún.

"Innan örfárra augnablika verður sál mín komin inn í eilífðina," sagði hann og óð lengra út í sjóinn.

"Eg bið að heilsa vinum og ættingjum, sem eg á þar," sagði hún og horfði á kverið, sem hún hélt á. —

Hann leit enn til baka sem snöggvast.

"Ó, þú tálar-dís með tinnu-harða hjartað!" sagði hann og krepti hnefann, "hjarta-blóð mitt skal koma yfir höfuð þér!"

"En það litar samt aldrei hendur mínar," sagði hún og hélt áfram að lesa. — —

Fám augnablikum síðar var hinn ungi, ásthrifni maður kominn um hundrað faðma frá landi, en ekki þó dýpra en honum tók undir hendur.

"Kaldur er dauðinn, drottinn minn!" sagði hann og saup hveljur. "Eg held það sé vissara, að eg snúi nú aftur til lands, áður en eg fæ krampa-flog af kulda."

Og hann óð kappsamlega til lands, rétt eins og hann vissi af hákarli á eftir sér.

"Hvað! Ertu kominn strax aftur?" sagði hin tiginborna kona, þegar hún sá hinn unga, ástsjúka mann staðnæmast við steininn, sem hún sat á.

"Já," sagði hann og skalf af kulda.

"Og hvað kom til þess, að þú breyttir áformi þínu svona fljótt?" sagði hún.

"Sjórinn var alt of kaldur," sagði hann. Og tennurnar glömruðu í munni hans.

"Var **það** öll orsökin?" sagði hún **með** mikilli ró, og lét aftur kverið, sem hún hélt á.

"Já,. — — En geturðu nú ekki kent í brjósti um mig?" sagði hann, og það greip hann ofsa-kalda.

"Enginn kennir í brjósti um mann, sem **ekki stendur við orð sín,"** sagði hún þyrkingslega, stóð upp og gekk í burtu.



## Guðjónía Einarsdóttir Ólafsson.

(ÆSKUMINNING).

Hún var fædd að Syðra-Hraundal, í Álptanesshreppi í Mýrasýslu, þann 14. dag aprílmánaðar 1859. Foreldrar hennar voru þau heiðurs-hjón: *Einar Jónsson Hnappdal* og *Halla Jónsdóttir* frá Svarfhóli í Mýrasýslu. *Einar* var maður vel gefinn, kjarkmikill og bezti drengur, og svo barngóður, að hann átti fáa sína líka. Hann var fæddur 18. júlí 1829, og dó í N.-Dakota 22. feb. 1906. *Halla* var mesta merkiskona, prýðisvel skáldmælt og stórgáfuð. Alt, sem hún orti (og það var mikið) lýsti hreinu og göfugu hugarfari og viðkæmu hjarta. Hún var fædd að Háhóli í Mýrasýslu, þann 5. apríl 1816, og dó í N.-Dakota fyrir rúmum þrjátíu árum. Öll voru börn þeirra vel gefin og miklum mannkostum búin, og var öllum, sem nokkuð kyntist þeim, mjög hlýtt til þeirra. Af þeim (börnum þeirra) eru nú á lífi að eins tvö: *Sigurður B. Einarsson Hnappdal*, bóndi nærri Hallson P.O. í N.-Dakota, og *Ingiríður* (ekkja Snæbjarnar Ólafssonar) í Manitoba.

Einar og Halla tóku sér bólfestu í íslenzku nýlendunni á Mooselands-hálsum í Nýja-Skotlandi, og fluttust þrjú af börnum þeirra þangað með þeim: Jón, Sigurður og Guðjónía; en Ingiríður kom ekki vestur um haf, fyr en tólf eða þrettán árum síðar.—Býli sitt þar í nýlendunni kölluðu þau *Fljótsbrekku.* Það var austasta býlið í íslenzku bygðinni. Var þar jafnan gestkvæmt mjög, og var öllum tekið með opnum örmum gestrisninnar, þó oft væri þar þröngt í búi, eins og hjá öðrum þar í nýlendunni. —Eg man það, að enskur prestur og mann-vinur, Potter að nafni, sem þangað kom einu sinni, dáðist að því, hvað fólkið í

því húsi hefði tekið sér vel, þrátt fyrir fátæktina. Og það sagðist hann hafa séð á andliti hinnar öldruðu konu, að hún var stórgáfuð og af góðum ættum.

Eg man mjög vel eftir þessu fólki. Það var mér alt sérlega gott og innilegt, eins og allir þar í nýlendunni. En þau systkinin, Jón, Sigurður og Guðjónía, voru talsvert eldri en eg, og þau gengu aldrei á barnaskólann þar, eins og við yngri börnin íslenzku, og þess vegna kyntist eg þeim ekki eins mikið og annars hefði orðið, þó eg að vísu kæmi að Fljótsbrekku oft og iðulega. Þar þótti mér ætið gott að koma, því að Halla var mér eins og bezta móðir, og þreyttist aldrei á að segja mér fallegar sögur og láta mig heyra fögur kvæði. Og minnist eg jafnan þeirrar góðu og gáfuðu konu með þakklæti og aðdáun.

Allir hinir eldri unglingar í íslenzku nýlendunni í Nýja-Skotlandi urðu, fyrir fátæktar sakir, að fara á mis við alla skólamentun. Þeir urðu allir, bæði piltar og stúlkur, að fara í vistir til innlends fólks, til þess að vinna fyrir sér. Og þó kaupið, sem piltarnir fengu, væri sérlega lágt, var samt kaup stúlknanna mikið minna að tiltölu, jafnvel í erfiðustu vistum. Og hefði víst mörgum stúlkum nú á dögum þótt kaup það lágt, sem íslenzku stúlkurnar í Nýja-Skotlandi urðu að sætta sig við á þeim árum. Þær voru heldur ekki að kaupa neinn óþarfann, íslenzku stúlkurnar þar. En þær lærðu margt gagnlegt, sem hjálpaði þeim til að komast áfram síðar meir. Og það er eftirtektarvert, að allar, eða flestar, þessar stúlkur urðu vel efnaðar, þegar þær fóru að búa, og eignuðust líka (flestar af þeim) mestu ráðdeildar- og dugnaðar-menn. — Það má því með sanni segja, að íslenzku stúlkurnar, sem unnu í hinum ströngu vistum í Nýja-Skotlandi, hafi í raun og veru gengið í skóla, og hlotið þá þekking, sem verulega kom þeim í hag, þegar þær sjálfar tóku við hússtjórn.

*Guðjónía Einarsdóttir* var ein af þessum tápmiklu, þrautseigu íslenzku stúlkum, sem hlutu mentun sína að mestu í þessum harða skóla, og lærðu alt tilsagnarlaust. — Fyrst þegar eg sá hana, var hún á að gizka sextán eða seytján ára gömul, og nýkomin frá Íslandi. Það var árið 1876, ef eg man rétt. Hún var bráðþroska, þreklega vaxin, heilsugóð og rjóð í kinnum, og öll framkoma hennar djarfleg og um leið hispurslaus ; og hún bauð af sér sérlega góðan þokka. Hún var vel máli farin og orðheppin, röddin þýð og hrein, og það var eins og gleðibjarmi færðist yfir andlit hennar, þegar hún talaði. Og eg sá hana aldrei nema glaða og viðmótsþýða. Hún vildi öllum gott gjöra : gleðja fátæka og hugga þá, sem grétu, því a ð hjartagæzkan var henni meðfædd. — Hún undi sér bezt við barm náttúrunnar. Eg man, hvað henni þótti vænt um fuglana, og hversu vel hún hlúði að hreiðrunum þeirra, hvað hún dáðist að hinum tigulegu, sí-grænu furutrjám og hinum fagur-laufgaða hlynvið (maple), og hvað hún elskaði blómin. — Hún var afbragðs vel gáfuð. kjarkmikil og staðföst. Og hún var svo námfús og fljót að læra, að það vakti mjög eftirtekt innlends fólks, sem kyntist henni. Eg heyrði málsmetandi, gáfaða skozka konu, sem þekti Guðjóníu vel, segja það um hana við vinkonu sína, að hún (Guðjónía) væri undantekningarlaust sú bráðgáfaðasta stúlka, sem hún hefði nokkurn tíma þekt, að hún væri prýðisvel að sér, bæði til munns og handa, og að hún væri eins góð og hreinhjörtuð og hún væri gáfuð. — Eg man, að eg gladdist, þegar eg heyrði þetta (eg var þá fimtán ára gamall drengur), og eg gladdist vegna þess, að þetta hrós var um *íslenzka* stúlku (og hrósið snerti mig því óbeinlínis), en aðallega gladdist eg þó af því, að eg vissi, að þetta var ekkert oflof — eg vissi, að Guðjónía átti það alt með réttu. — Hún sjálf var þá komin vestur til Win-

nipeg, og hefur að líkindum aldrei heyrt þenna ágæta og sanna vitnisburð, sem skozka konan góða gaf henni. — En hinar íslenzku stúlkurnar í Nýja-Skotlandi hlutu líka yfirleitt svipaðan vitnisburð hjá þarlendu fólki, sem kyntist þeim. Allar fengu þær lof, að verðugu, fyrir gáfur, ráðvendni og dugnað.

Eg man það, að Guðjónía var sérlega bókhneigð, þegar hún var unglingur, og hún var undur fljót að komast niður í því, að lesa og skilja enska tungu, þó enginn veitti henni tilsögn í því. Einkum voru það ljóðabækur, sem hún hafði mest yndi af að lesa. Hún var vel að sér í íslenzkum bókmentum, og kunni ákaflega mikið af kvæðum utanbókar, og mun líka sjálf hafa ort nokkuð á yngri árum, þó hún léti mjög fáa vita um það ; að minsta kosti hef eg alt af verið þeirrar skoðunar, að hún hafi verið prýðisvel hagorð. — Hún dáðist að öllu, sem var vel sagt, hvort sem það var í bundnu eða óbundnu máli, og hún hafði mjög glögt auga fyrir öllu, sem var fagurt og gott. — Sigurður Breiðfjörð var uppáhalds-skáldið hennar, þegar hún var um tvítugt. Eða svo minnir mig. Hún fór iðulega með vísur eftir hann, og margar af þeim vísum eru það lang-bezta, sem Sigurður Breiðfjörð hefur ort. Hún kunni líka margt fallegt eftir Jónas Hallgrímsson, Kristján Jónsson, Benedikt Gröndal, Steingrím og Matthías, að eg ekki nefni síra Hallgrím Pétursson og ýms fleiri eldri skáld. — En eftir því tók eg (eða tek eftir því nú), að sá skáldskapur hreif hana mest, sem var alíslenzkur að efni og formi. Hún unni líka öllu íslenzku : landinu, þjóðinni, tungunni og bókmentunum ; og hún vildi alt af íslenzk vera.

Hún var sérlega viðkvæma, og mátti aldrei neitt aumt sjá, og vildi engan hryggja ; en hún gat þó sagt hreint og beint það, sem henni þótti að vera, hver sem í hlut átti. Aldrei deildi hún við aðra um trú-

mál, en mun hafa verið trúrækin vel, eins og móðir hennar. — Og það, sem, ef til vill, einkendi hana einna mest, var staðfesta og trygð ; og hún var svo vinföst, að hún átti fáa sína líka, hvað það snerti. Og þess vegna tók hún sér svo nærri ástvinamissi, „en var þó jafnan stilt og bar harma sína í hljóði, og vissu bara þeir, sem bezt þektu hana, hvað hún fann sárt til," eins og dóttir hennar, Elin, segir í bréfi til mín.

Haustið 1903 dvaldi eg nokkra daga í húsi hennar nærri Hallson P.O., N.-Dakota. Þá lét hún mig heyra sum af kvæðum þeim, sem henni höfðu verið kær í æsku, og sem hún hafði sungið fyrir mig, þegar eg var lítill drengur í Nýja-Skotlandi ; en eg tók fljótt eftir því, að allar þær vísur, sem hún lagði sérstaka áherzlu á, voru að einhverju leyti raunalegar, og að angurvæð var í rödd hennar. En þá var hún líka fyrir stuttu búin að missa ungan og efnilegan son á þréttánda ári, *Ólaf Kristinn* að nafni, sem hún tregaði mjög. Og líka var maðurinn hennar þá að missa sjónina algjörlega. En hún bar sig eins og sönn hetja, og hetja hafði hún líka alt af verið, og var það til síðustu stundar.

Þann 2. dag ágústmanaðar 1883 giftist hún *Sigfúsi* bónda *Ólafssyni*, mesta dugnaðar- og ráðdeildarmanni, og var hún síðari kona hans. Þau eignuðust fjögur börn, og eru þrjár dætur þeirra á lífi : *Elín*, skólakennari að Uppham, N.-Dakota ; *Halla Sigríður María*, nú í Hallson, N.-Dakota ; og *Jóna Ingiríður Grace*, nú á kennara-skólanum í Mayville í N.-Dakota. Þær eru allar góðar og gáfaðar stúlkur og hafa mjög gott orð á sér. Og hef eg heyrt, að Elín Ólafsson sé álitin að vera í fremstu röð ungra alþýðuskólakennara í N.-Dakota. Hún kendi um eitt skeið við skóla í Manitoba, og þótti góður kennari.

Guðjónía dó að heimili sínu í N.-Dakota, þann

29. október 1913. Og er hennar sárt saknað af öllum, sem nokkuð kyntust henni.

Eg vil að síðustu geta þess hér, að Solveig Eysteinsdóttir hefur ort sérlega fagurt kvæði eftir Guðjóníu sálugu. Þær voru frændkonur. Kvæði þetta birtist í báðum Vestur-íslenzku vikublöðunum. Í því er þetta:

,,Bar sú grein
blöð litfögur,
innra og ytra
atgjörvi prýdd.
Náttúran veitti henni
vænleik mætan,
svo af öðrum bar
yndis-þokka.

*J. Magnús Bjarnason.*

Vancouver, B.C.
22. marz 1916.

# Æfiágrip Sigfúsar Ólafssonar.

---

*Sigfús Ólafsson* var fæddur haustið 1836 í Hvammkoti í Möðruvallaklausturssókn í Eyjafjarðarsýslu. Voru foreldrar hans, Ólafur Jónsson frá Hjalla á Látraströnd og Guðlaug Ólafsdóttir, alin upp á Skeri við Eyjafjörð. Átta systkini átti Sigfús sem upp komust, og hafa fjögur af þeim fluzt til þessa lands: Ólöf, kona Magnúsar Halldórssonar, sem lengi bjó í Hringsdal í S.-Þingeyjars., og nú hafa búið um 36 ár í Hallsonbygð í Norður-Dakota; Oddur, giftur Guðrúnu Einarsdóttir frá Grenivík, og búa í Vestur-Kanada; Jónas, heitir síðari kona hans Katrín Magnúsdóttir, ættuð af Jökuldal, búa í Minneota Minn. Guðrún, nú ekkja eftir Indriða Indriðason, og býr í Seattle, Wash.

Um tuttugu ára aldur réðist Sigfús Ólafsson til Þorsteins Daníelsens á Skipalóni í Eyjafirði, til að læra skipasmíðar og var hjá honum í þrjú ár. Tvö næstu árin stundaði hann sjó á sumrum, en skipasmíðar að vetrum á Akureyri. Um 1860 kvæntist Sigfús Elínu Jónsdóttur, var hún ættuð úr Mývatnssveit. Reistu þau bú á Veigastöðum við Eyjafjörð, þaðan fluttust þau að Brekku í Kaupangssveit, og þaðan til Vesturheims 1876, beina leið til Nýja Íslands, og námu land eina mílu vestur af Gimli. Eftir þriggja ára dvöl í Nýja Íslandi fluttust þau suður í Dakota og námu land í Hallson bygð. Arið 1881 lézt kona Sigfúsar. Var hún sögð af þeim, er hana þektu, góð kona. Fjögur börn eignuðust þau, dreng er dó í æsku og þrjár dætur: Guðlaug, ekkja Kristjáns heitins Lífmann á Gimli; Jórunn kona Einars Jónassonar, sem býr á Gimli; Ólöf, kona Magnúsar Stef-

ánssonar, bónda í Vestur-Kanada. Eftir lát konu sinnar bjó Sigfús með dætrum sínum þangað til 1888, að hann giftist í annað sinn, Guðjóníu Einarsdóttur Jónssonar Hnappdal, sem skáldið J. Magnús Bjarnason skrifar um æskuminningar og hér fara á undan. Sigfús var tæplega meðalmaður að vexti, með mikið dökkjarpt hár, er liðaðist í lokkum niður á hálsinn, augun blágrá. hörundið bjart og rjóður í kinnum. Hann var maður dulur í skapi við þá, sem hann lítt þekti, en hreinn í lund og setti fram sannfæring sína hispurslaust, hafði skýra dómgreind og ágætt minni. Reglumaður var hann svo mikill, að fá dæmi eru til, alt varð að vera í röð og reglu utan húss og innan, og viss stund fyrir hvert verk er vinna þurfti, og að sama skapi voru öll viðskifti hans við aðra bundin. Hann fór manna bezt með skepnur sínar, og á hverju sviði var hann skylduraékinn heimilisfaðir. Eftir fráfall síðari konu sinnar lét Sigfús af búskap. Hann andaðíst 15. sept. 1914.

26. ág. 1916. G. E.

# HELZTU VIÐBURÐIR OG MANNALÁT MEÐAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

5. apríl. Halldór Johnson, guðfræðis-kandídat tók burtfararpróf við prestaskóla General Council í Chicago.

---

Við vorpróf háskólans í Manítoba útskrifaðist Jórunn Hinrikson, dóttir Magnúsar Hinrikssonar, bónda í Þingvallabygð. Les lögfræði.

---

Við vorpróf háskólans í Saskatoon, Sask., útskrifaðist Valdimar A. Vigfússon, sonur Narfa Vigfússonar, bónda í Vatnsdalsnýlendu. Lagði stund á efnafrœði.

---

Skúli Johnson, B. A. var sæmdur Magister Artium lærdómsgráðunni við háskólann í Manitoba, fyrir ritgerð um: Einnar aldar sonnettu-skáldskap á íslenzku.

---

Jón S. Árnason. B. A., frá Manitöba-háskólanum (1913), var sæmdur Magister Artium nafnbótinní fyrir ritgerð er hann samdi um *Thyroid Extirpation* við sama háskóla.

---

27. júní 1917. — Landnemahátíð Foam Lake-búa,

---

Í nóvember 1917, lauk námi við læknaskólann í Winnipeg, Sigurgeir Bardal, sonur Páls Sigurgeirssonar Bardals og Halldóru Björnsdóttur í Winnipeg.

---

1917.—Við fylkis þingkosningar í Saskatchewan, náði endurkosning í Wynyard-kjördæmi W. H. Paulson í Leslie.

---

Hið Evangeliska lút. kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi, hélt sitt 33. ársþing í Minneota, Minn., frá 14. til 20. júní.

---

Haustið 1917. Síra Runólfur Fjeldsted fekk veiting fyrir yfirkennarastöðu í latínu og grísku — við Midland-skólann í Kansas í Bandaríkjunum.

# MANNALÁT.

---

DESEMBER 1916

11. Valgerður Björnsdóttir, í Spanish Fork, Utah; fædd í Litluborg í Víðidal; ekkja Eyjólfs Guðmundssonar; bjuggu á Eyjarbakka á Vatnsnesi; 91 árs.
11. Hermann Hillmann Jónsson, við Markerville, Alta.; frá Hóli á Skaga; á sjötugs aldri.
15. Margrét Sveinsdóttir, til heimilis hjá dóttursyni sínum, Jóni Hávarðssyni, bónda við Dog Creek, Man.; ekkja Jóns Þorsteinssonar (d. 1904); á Íslandi bjuggu þau um langt skeið á Kirkjubóli í Norðfirði í S.-Múlasýslu 77 ára.
19. Ósk Jónasson, kona Ármanns Jónassonar bónda við Howardville, Man.; ættuð úr Húnavatnssýslu.
23. Einar Einarsson, bóndi í Argyle-bygð hafði búið þar um 30 ár; 93 ára.
28. Anna Þórunn Björnsdóttir, kona Hans M. Thorarinssonar í Blaine, Wash.; 35 ára.
29. Kristín Jónsdóttir (ljósmóðir), til heimilis hjá Jóni Brandssyni að Garðar, N.-D.; ættuð af Austurlandi; ekkja Jóns Þorsteinssonar, og bjuggu þau, eftir að hingað kom í ísl. bygðinni í Minnesota; 98 ára.

JANÚAR 1917

1. Agatha Magnúsdóttir, hjá syni sínum Magnúsi Einarssyni Grandy, í Blaine, Wash.; fædd á Sandi í Aðal-Reykjadal í Þingeyjarsýslu 1830; ekkja Einars Grímssonar frá Krossi í Ljósavatnsskarði; fluttist hingað til lands 1883.
2. Brynjólfur Brynjólfsson, til heimilis hjá tengdasyni sínum Kristjáni Indriðasyni, bónda við Mountain, N.-D.; voru foreldrar hans Brynjólfur Magnússon og Sigríður kona hans, er bjuggu að Gilsbakka í Austurdal í Skagafjarðarsýslu; kona Brynjólfs hét Þórunn Ólafsdóttir (d. 1892); fluttust vestur um haf 1874; 88 ára.
4. Karólína María, kona Sigurðar Arasonar við Elfros, Sask., dóttir Rafns Nordal, sem lengi var bóndi í Argyle-bygð; ung kona.
6. Andrés Þorleifur Freeman, í Winnipeg, yfirmaður á eftirlitsskrifstofu skóglenda ríkisins í Manitoba; ættaður úr Húnavatnssýslu; hétu foreldrar hans Bjarni Frímann Jónsson og Ingibjörg Jónsdóttir; 1874 fluttist hann með móður sinni, sem þá var ekkja, hingað vestur; giftur Oddnýju Pálsdóttur Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði; 55 ára
7. Anton Sturluson, á heimili foreldra sinna við Kanadahr, Sask.; 23 ára.
9. Kristjana Lárusdóttir Thorarensen, í Winnipeg (ættuð úr Eyjafirði); um fimtugt.
9. Ingibjörg Hákonardóttir, í Winnipeg.
10. Kristín Jónsdóttir, á Selstöðum í Geysis-bygð í Nýja Ísl.; var hún dóttir síra Jóns Bergssonar í Einholti á Mýrum í Austur-Skaptafellssýslu; 73 ára.
12. Björn Jónsson, í Calgary, Alta., sonur Jóns Péturssonar og Dorotheu Halldórsdóttur, sem lengi bjuggu á Blikalóni á Melrakkasléttu; fluttist hingað vestur 1885; 61 árs.

14. Gísli Sæmundsson, að heimili sonar síns Þórarins, í Blaine, Wash.; (frá Hóli á Melrakkasléttu); 87 ára.
14. Sigríður Þorleifsdóttir, ekkja, til heimilis hjá dóttur sinni, Ingibjörgu Pétursdóttur, í Winnipeg; ættuð úr Norður-Múlasýslu; 78 ára.
19. Þorbjörn Sigurðson, bóndi við Elfros, Sask.; ættaður úr Borgarfirði.
21. Sigþrúður Gísladóttir, kona Sveinbjarnar J. Eiríkssonar, bónda í Árnessbygð í Nýja Íslandi; ættuð frá Njarðvík í Norður-Múlasýslu; 37 ára.
23. Einar Jóhannesson, bóndi við Sinclair, Man.; voru foreldrar hans Jóhannes Bjarnason og Sigríður Friðfinnsdóttir á Gilsá í Eyjafirði ekkja hans heitir Guðrún Abrahamsdóttir, úr Eyjafirði; 82 ára.
23. Kjartan Magnús Halldórsson, hjá dóttur sinni í Cavalier, N.-Dak.
25. Ólafur Árnason, bóndi í Morden-nýlendunni, sonur Árna Gíslasonar, er bjó lengi á Bakka í Hólmi í Skagafirði.
27. Jón Árnason, trésmiður, í Blaine, Wash.; ættaður frá Hlíð í Selvogi í Árnessýslu; tvígiftur: fyrri kona, Björg Bjarnardóttir, systir síra Þorkels, sem var á Reynivöllum; en ekkjan heitir Jónína Baldvinsdóttir frá Sigluvík við Eyjafjörð.
30. Helga, dóttir Sigurðar Jósúa Björnssonar og Kristveigar Jóhannesdóttur; gift hérlendum manni, Leslie Fox, í Blaine, Wash.; 28 ára.

FEBRÚAR 1917

8. Halldór Halldórsson, bóndi í Hayland-bygð við Manitobavatn; milli þrítugs og fertugs.
17. Antóníus Eiríksson, bóndi í Fagraskógi við Ísl.fljót; foreldrar hans voru Eiríkur Árnason og Katrín Eiríksdóttir á Hærukollsnesi í Álftaf. í S.-Múlasýslu; kona hans Ingveldur Jóhannesdóttir; fluttust hingað 1878 frá Steinborg í S.-Múlasýslu; 92 ára.
18. Þórunn Lilian Ingibjörg, dóttir Bjarna Lúðvíkssonar og Margrétar konu hans, á Point Roberts, Wash.; var gift manni er George Waters heitir; 21 árs.
21. Stefán Pétursson, prentari í Winnipeg; foreldrar: Pétur Björnsson og Rannveig Magnúsdóttir á Leifsstöðum í Húnavatnssýslu; flutist hingað til lands 1890; er ekkja hans Hólmfríður Sigurðardóttir, úr Gullbringus.; 50 ára.
24. Sigurbjörg Jónsdóttir, í Selkirk; ekkja Guðm. Guðmundssonar frá Manaskál í Húnavatnssýslu; 100 ára.
25. Björn Einarsson, hjá Haraldi syni sínum, bónda við Kristnes-pósthús, Sask.; fæddur á Brú á Jökuldal 1843; heitir ekja hans Jóhanna Jóhannesdóttir; fluttust hingað til lands 1876.
27. Margrét Sigurðardóttir Freeman, í Winnipeg; dóttir Sigurðar Gíslasonar og Elínar Þórðard. á Saurum í Helgafellssveit, ekkja Sturla Björnssonar Freeman; komu hingað 1893 frá Kötluholti í Neshreppi.

MARZ 1917

2. Járnbrá Benjamínsdóttir, að Reynistað í Mikley; ekkja watin, Ont.
3. Járnbrá Bnjamínsdóttir, að Reynistað í Mikley; ekkja Bessa Tómassonar; voru þau ættuð úr Þistilfirði; 87 ára.
5. Einar Eiríksson við Mozart, Sask.; ættaður úr Breiðdal í S.-Múlasýslu; 76 ára.
6. Svanhildur Jóelsdóttir, kona Jóhanns Jónssonar, bónda að Winnipegosis; foreldrar hennar: Jóel Jónasson frá

Hvammi í Höfðahverfi og Dóróthea Friðrika Loptsdóttir frá Sauðanesi; 36 ára.
10. Stefán Stefánsson, trésmiður, sonur síra Stefáns Vigfússonar í Grunnavatns-bygð,, Man.; kom hingað með föður sínum 1901; 32 ára.
15. Kristín Anna, dóttir Jónasar Bergmanns og konu hans, í Winnipeg; 22 ára.
23. Jóhannes Frímann Runólfsson, á Gimli; 100 ára.
24. Arnbjörg Aradóttir, til heimilis hjá dóttur sinni og tengdasyni, Arngrími Jónssyni í Winnipeg; ekkja Jóns Jónssonar; bjuggu á Íslandi í Syðri-Tungu á Tjörnesi; 77 ára.

APRÍL 1917

5. Hildur Friðriksdóttir Johnson, ekkja; ættuð úr Þingeyjarsýslu; 75 ára.
6. Herborg Jónsdóttir, við Mozart, Sask.; ættuð af Hólsföllum; ekkja Kristjáns Kristjánssonar (d. 1915) á Gunnarsstöðum í Nýja Íslandi; 66 ára.
8. Vigfús Hallson Sigurðsson, til heimilis að Mountain, N.-D.; fluttist vestur um haf frá Krossi í Ljósavatnsskarði 1883; 79 ára.
12. Gísli Árnason, bóndi á Víðirhóli í Nýja Íslandi; kvæntur Dýrunni Steinsdóttur, bæði ættuð úr Skagafirði; 67 ára.
13. Pétur Illugáson Ásmundarsonar, bóndi við Wynyard; ættaður úr Húnavatnssýslu; 40 ára.
14. Jóhannes Guðmundsson, til heimilis í Blaine, Wash.; ættaður úr Húnavatnssýslu; hét kona hans Sólveig Jónsdóttir (d. 1910); fluttist hingað til lands 1874; 88 ára.
16. Guðbjörg, kona Sigurðar Hnappdal í Winnipeg; 41 árs að aldri.
19. Margrét Jónsdóttir Ísakssonar, kona Gísla Tómassonar bónda í ísl. bygðinni við Hekkla pósthús í Ontario; flutt- us frá Hamraendum í Stafholtstungum til Canada 1888; 87 ára gömul.
20. Benidikt Jónsson, til heimilis í Wynyard, Sask., sonur Jóns Ólafssonar hómóata, frá Hornstöðum í Dalasýslu; 55 ára.
30. Alexandra Sigurósk Jackson, dóttir Magnúsar Einarssonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur í Salt Lake City, Utah; 28 ára gömul.
Rannveig Jónsdóttir, kona Bjarna Þórðar Joseph í Winnipeg; foreldrar hennar voru Jón Jónatansson og Rannveig Hákonardóttir prests Jónssonar sýslum. Espólín; fædd á Höfða á Höfðaströnd í Skagafirði.
Jóhanna Jónsdóttir, kona Jóns Filippussonar, bónda við Osland pósthús, B.C.; dóttir Jóns Guðmundssonar og Veigalín Eiríksdóttur í Vestmannaeyjnum; 39 ára.

MAÍ 1917

1. Krisinn Ingvar Víglundur, sonur Jóns Jónssonar járnsmiðs í Geysis-bygð í Nýja Íslandi; 20 ára.
3. Eiríka Dorotea, dóttir Benedikts Gíslasonar, bónda við Elfros, Sask.; 21 árs.
9. Þorkell Jónsson, að heimili sonar síns í South West Harbor í Bandaríkjunum; frá Brún í Svartárdal í Húnavatnssýslu; 80 ára.
9. Guðmundur Sveinn Árnason Vigfússonar og Ingibjargar Guðmundsdóttur, er búa við Bifröst pósthús í Nýja Ísl.; ættuð úr Borgarfirði. ?
17. Sigurbjörg Sigurðardóttir Jónssonar og konu hans Elínar fæddur á Stórulaugum í Þingeyjarsýslu 1864; foreldar:

Sigurður Erlendsson og Guðrún Eiríksdóttir; fluttust vestur um haf 1876; 53 ára.
17. Ingibjörg Sigurðardóttir Jónssonar og konu hans Elínar Jónsdóttur á Refstað, kona Sigfinns Péturssonar frá Hákonarstöðum í Vopnafirði; 74 ára.
21. Jóhann Jóhannsson, bóndi í Steinnesi við Íslendingafljót; ættaður úr Skagafirði; Guðfinna Þórðardóttir heitir ekkja hans; fluttust hingað til lands 1876.
22. Þorsteinn Hillmann Albertsson, Þiðrikssonar á Steinsstöðum í Víðines-bygð í Nýja Íslandi; 22 ára.
22. Kristján Helgi Kristjánsson, Bjarnasonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur á Sandeyri við Ísafjörð; fæddur 1853; til heimilis í Selkirk, Man.; fluttist hingað 1887; tvígiftur: Sigríði Guðbrandsdóttur (d. 1902), Ólínu Björgu Bríet Ólafsdóttur Nordal.
27. Carl V. Sveinsson, við Winnipegosis-vatn, stjúpsonur Guðl. Magnússonar að Nes pósthúsi, Man.
28. Sigurður Erlendsson í Winnipeg.
29. Pétur Pétursson, að heimili Sigurbjörns Hofteig í Minnesota; 81 árs.
30. Jónas Jónsson, bóndi í Argyle-bygð; 71 árs.
Geirdís Ólafsdóttir, kona Jóns O. Þorbjarnarsonar í Blaine, Wash.; ættuð undan Eyjafjöllum.

JÚNÍ 1917

4. Sigríður Bjarnadóttir Gillies, hjá dóttur sinni Ástrós í Svoldar-bygð, N.-D.; fædd á Bökkum á Rifi í Snæfellsness. 1834; ekkja Gísla Sigurðssonar, og bjuggu á Geitastekk í Dalasýslu.
5. Einar Sveinn, sonur Brynjólfs Magnússonar í Selkirk; 26 ára.
7. Björn Ágúst Ísleifsson, að heimili foreldra sinna í Glenboro, Ísleifs Jónssonar og Margrétar Jónsdóttur frá Þórustöðum í Bitru í Strandasýslu; 34 ára.
8. Þorsteinn Þorkelsson, bóndi við Oak Point, Man.; foreldrar hans: Þorkell Þorsteinsson og Guðrún Jónsdóttir á Ytri-Márssstöðum í Svarfaðardal; 51 árs.
8. Guðrún Þórðardóttir Anderson í Selkirk; 68 ára.
12. Þuríður Jónasdóttir, til heimilis að Wild Oak, Man.; ekkja eftir Friðfinn Þorkelsson (d. 25. júlí 1915); foreldrar hennar: Jónas Guðmundson og Guðrún Þorláksdóttir á Finnastöðum í Eyjafirði; 65 ára.
12. Jóhann Jóhannsson Reykdal, á heimili sonar síns Jóns Ásgríms, bónda við Kandahar, Sask.; foreldrar hans: Jóhann Ásgrímsson og Rósa Halldórsdóttir, er bjuggu í Fótaskinni í S.-Þingeyjarsýslu; kona Jóh. hét Guðrún Sigríður Ólafsdóttir frá Hjalla í Reykjadal; fluttust til Nýja Íslands 1878; 74 ára.
20. Björn Geirmundsson, hjá dóttursyni sínum Birni Eyjólfssyni bónda í Árdalsbygð í Nýja Ísl.; ættaður úr Borgarfirði eystra; 84 ára.
21. Lára Jónasdóttir, kona Stefáns Tómassonar í N.-Dak., dóttir Jónasar Sturlaugssonar og Ásgerðar Björnsdóttur í Svoldar-bygð, N.-D.; 34 ára.
27. Ólöf Benidiktsdóttir Benidiktssonar á Grund í Höfðahverfi, kona Jóns Jóhannessonar Nordals við Markerville, Alta.; komu hingað til lands 1883; 68 ára.
30. Anna Brynjólfsdóttir, kona Gunnars Einarssonar bónda við Cold Springs, Man.; var fyrri maður hennar Jón Jónsson, er bjó á Rauðseyjum á Breiðafirði og hingað fluttist 1898; 55 ára.

JÚLÍ 1917

2. Ragnheiður Halldóra Jóhannsdóttir, kona Gísla Egilssonar bónda í Lögbergs-nýlendu í Sask.; fædd 20. sept. 1852; foreldrar hennar voru Jóhann Pétur Hallsson og Ragnheiður Pálsdóttir; hefir þeirra oft verið getið í landnámssöguþáttum í þessu almanaki.
5. Jónína Helga, dóttir Magnúsar Johnson í Winnipeg; 22 ára.
7. Bergljót Friðriksdóttir, kona Sigurgeirs Friðrikssonar í Argyle-bygð; 61 árs.
12. Marta Ólína, dóttir hjónanna Gísla Sveinssonar og Sigurlaugar Kristmundsdóttur á Lóni við Gimli-bæ; 18 ára.
16. Helga Árnadóttir, kona Ólafs Halldórssonar Sæmundssonar í Victoria B. C.; ættuð úr Gullbringusýslu; 71 árs.
25. Jens F. V. Knudsen, til heimilis á Gimli; foreldrar hans: Jens kaupm. Knudsen á Hólanesi, og seinni konu hans Elísabet Sigurðardóttur frá Höfnum á Skaga; ekkja hans er Sigurlaug Gunnlaugsdóttir; bjuggu á Eyjarkoti á Skaga, og fluttust þaðan vestur um haf 1889; 55 ára.
27. Tobías Finnbogason, við Mervin pósthús, Sask.; ættaður af Vestfjörðum; hétu forledrar hans Finnbogi Oddsson og Guðfinna Sumarliðason; ekkja hans er Stefanía Kristjánsdóttir af Reyðarfirði; 56 ára.
30. Þorsteinn Guðmundsson í Winnipeg, ættaður úr Norður-Múlasýslu; hafði verið hér í Canada 28 ár.
30. Susanna, dóttir Chris. Johnson og konu hans í Duluth, Minn; 21 árs.
31. Árni Jónsson, bóndi við White Sand River, Sask.; úr Landeyjum; 61 árs.
Ólöf Benidiktsdóttir, kona Jóns Nordals, Jóhannessonar, bónda við Markerville, Alta.; ættuð úr Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu; 67 ára.

ÁGÚST 1917

4. Ólafía Sigríður, dóttir Ólafs S. Thorgeirssonar og konu hans Jakobínu Jakobsdóttur í Winnipeg; 23 ára.
7. Málmfríður Jónsdóttir, kona Þórodds Halldórssonar í Winnipeg, dóttir Jóns Valdimars Jónssonar og Jórunnar Jónsdóttur; fædd í Sandvík í Þingeyjarsýslu 12. ág. 1875.
11. Jón Helgason í Winnipeg; ættaður af Vesturlandi; 73 ára.
12. Ingibjörg Hallson, kona Eiríks Hallssonar bónda í Álptavatnsbygð í Manitoba.
12. Sigurveig Einarsdóttir, kona Ólafs Guðmundsosnar á Gimli; eru foreldrar hennar Einar Sveinsson, gullsmiður, og Málfríður Sigurðardóttir, til heimilis á Gimli; rúmlega þrítug.
13. Ingvar Franklin, sonur Ingvars og Önnu Goodman á Point Roberts, Wash.; 15 ára.
1. Tryggvi Guðmundsson, í Duluth; frá Brettingsstöðum á Flateyjardal í Þingeyjarsýslu; 50 ára.
20. Helga Sölvadóttir Ólafssonar og konu hans Margrétar Jónsdóttur, er bjuggu á Steini á Reykjaströnd; til heimilis hjá dóttur sinni Guðrúnu og tengdasyni, Jóhanni Þorleifssyni í Yorkton, Sask.; 83 ára.
27. Guðmundur Jónsson Borgfjörð, í Seattle, Wash.; ættaður úr Borgarfirði; 50 ára.
31. Guðrún Björg Guðmundsdóttir Austfjörð, að Árborg, Man.; ættuð úr Fljótsdalshéraði; 67 ára.
Jóhannes Jóelsson, í Winnipeg; voru foreldrar hans Jóel Jónasson og Dorothea Loptsdóttir; uppalinn hjá Þorsteini Jónassyni á Grýtubakka við Eyjafjörð; fæddur 1873; 34 ára.
Þuríður Magnúsdóttir,, hjá dóttur sinni Sigríði, á Point

Roberts, Wash.; bjó búskap sinn á Íslandi í Króki í Árnessýslu og misti þar menn sína báða, Björn og Þorkel; 70 ára.

SEPTEMBER 1917

4. Lukka Gísladóttir, hjá tengdasyni sínum Einari Scheving, bónda við Akra, N.-D.; dóttir Gísla Nikulássonar og Margrétar Árnadóttur, að Dalhúsum í Eiðaþinghá; ekkja Eyjólfs Kristjánssonar frá Tókastöðum (d. 1913); fluttust frá Breiðavaði til Aemríku 1878; 86 ára.
6. Ólafur Sigmundsosn í Selkirk, Man.
14. Jón Hallgrímsson, að Wynyard, Sask.; 68 ára.
15. Sigurlín Halldórsdóttir, kona Guðmundar Sigurðssonar bónda að Silver Bay, Man.; 33 ára.
16. Þuríður Ísleifsdóttir, ljósmóðir, að heimili Sigurðar A. Anderson, við Piney, Man.; háöldruð kona.
20. Teitur Ingimundarson Thomas, úrsmiður í Winnipeg; ekkja hans heitir Júlíana Guðmundsdóttir; 61 árs.
20. Jakob Andrésson, bóndi við Fairford, Man,; sonur Andrésar, er bjó að Hvassafelli í Mýrasýslu; um fimtugt.
22. Jóhann Einarsson, til heimilis í Duluth, Minn.; bróðir Indriða skrifstofustjóra í Reykjavík; 63 ára.
23. Baldur Jónsson, B.A., í Winnipeg, sonur Jóns Jónssonar og Kristjönu Jónsdóttur, er bjuggu að Mýri í Bárðardal; 30 ára.
26. Björg Jónsdóttir, ekkja eftir Sigfús Jónsson á Blómsturvöllum í Geysisbygð í Nýja Íslandi; 70 ára.
26. Guðjón Runólfsson, bóndi á Siglunes-bygð; fæddur í Eyjaseli í Jökulsárhlíð 1864; foreldrar hans: Runólfur Guðmundsson og Sigríður Jónsdóttir; Herdís Lúðvíksdóttir, Finnbogasonar, af Vopnafirði, heitir ekkjan; 53 ára.
27. Kristjana Sigurrós Jónsdóttir Dínussonar og konu hans Kristínar Guðnadóttur, kona Björns Stefánssonar, bónda við Hallson, N.-Dak.; 30 ára.
28. Jakobína Sigfúsdóttir, kona Stefáns Pálssonar í Minneapolis; foreldrar: Sigfús Rafnsson og Sigurborg Gísladóttir á Gilsárstekkshjáleigu í S.-Múlasýslu; 53 ára.
29. Þorbergur Guðbrandsson í Minneota, Minn.; hafði dvalið þar í 30 ár; fæddur á Íslandi 12. okt. 1846.

Guðjón Runólfsson, bóndi að Siglunes pósthúsi, Manitoba; ættaður úr Vpnafirði; roskinn maður.

OKTÓBER 1917

1. Júlíana Helga Ásgrímsdóttir, Ásgrímssonar Hallsonar, kona Hálfdáns Hallgrímssonar í Seattle, Wash.; ættur úr Skagafirði; 28 ára.
8. Sólveig Jónsdóttir, kona Einars Einarssonar við Somerset, Man.; ættuð frá Borgum á Skógaströnd í Snæfellsnes-52 ára.
10. Sigurður Þorleifur Bjarnason Guðmundssonar á Gimli; 20 ára.
18. Frímann Trpggvi, sonur Indriða Einarsonar, er lengi bjó í Svoldarbygð í N.-Dak.; 24 ára.
24. Jón Jónsson, til til heimilis hjá Páli Guðmundssyni, bónda við Baldur, Man.; voru foreldrar hans Jón Guðmundsson og Guðrún Guðmundsdóttir, er bjuggu í Kelduskógum á Berufjarðarströnd; Jón fluttist frá Gilsárstekk í Breiðdal 1876 til Nýja Íslands; 94 ára.
25. Guðmundur Guðmundsson, á Gimli; ættaður úr Húnavatnssýslu; Guðrún Torfadóttir heitir ekkja hans; roskinn maður.

26. Jónas Jóhannesson í Winnipeg; foreldrar hans: Jóhannes Jónsson og Hólmfríður Jónsdóttir, er bjuggu á Örlygsstöðum í Snæfellsness.; Ásdís Pálína Sæmundsdóttir heitir ekkjan; 58 ára.
29. Jón Árnason, hjá dóttur sinni og tengdasyni við Elfros, Sask., sonur Árna Árnasonar og Sigurveigar Árnadóttur á Skógum í Axarfirði; 63 ára.

NÓVEMBER 1917

1. Steinunn Hjálmarsdóttir, hjá tengdasyni sínum, Sigurði Eyjólfssyni bónda í Víðir-bygð; ekkja Gísla Guðmundssonar frá Húki í Miðfirði; 100 ára.
1. Benidikt Frímannsson, á Gimli; fæddur 9. júní 1853 að Vatnsenda í Húnavatnss., sonur Jóhannesar F. Runólfssonar og Guðrúnar Jónsdóttur; fluttist hingað vestur 1888; Ingibjörg Björnsdóttir heitir ekkjan; 64 ára.
6. Jón Guðmundsson, í Winnipeg; fæddur í Teigakoti á Akranesi; Guðmundur Jónsson og Guðrún Hákonardóttir hétu foreldrar hans; ekkja hans heitir Guðríður; komu hingað til lands 1892; 77 ára.
20. Laufey Hrólfsdóttir Mattíassonar og Sesselju Jónsdóttur frá Draflastöðum í Fnjóskadal, kona Jóns M. Ólafssonar bónda í Skálholtsbygð í Manitoba, frá Ásgerðarstöðum í Hörgárdal; 55 ára.
22. Guðrún Sigfríður Sigurðardóttir, að heimili sínu á Point Roberts, Wash.; voru foreldrar hennar Sigurður Árnason og Hólfríður Einarsdóttir, er bjuggu lengi á Kirkjuhvammi í Húnavatnssýslu; 42 ára.
23. Jón Jóhannesson Nordal, að Markerville, Alta.; ættaður úr Skagafirði; 76 ára.
23. Magnús Vigfússon, í Langruth; fluttist frá Reykjavík á Íslandi 1900; 70 ára.

DESEMBER 1917

2. Elísabet Jónsdóttir; kona J. G. Gillies í Winnipeg; ættuð frá Björnólfsstöðum í Langadal; 61 árs.
9. Óli Sigurjón Þormóðsson í San Diego, Cal.; foreldrar hans: Þormóður Jónsson og Úrsaley Grímsdóttir að Eyðhúsum í Snæfellsnessýslu; eftirskilur ekkju, Vigdísi Kristjánsdóttur úr Gufudalssveit; 59 ára.
13. Solveig Rebekka Benidiktsdóttir, hjá syni sínum Indriða í Red Deer, Alta.; ekkja Friðriks járnsmiðs Jafetssonar Reinholt; fluttust frá Akureyri vestur um haf 1879; 85 ára.
14. Sigfús Sveinsson, til heimilis hjá Guðm. Stefánssyni bónda í Framnes-bygð; fæddur 8. júlí 1833 á Sleitustöðum í Skagafirði; foreldrar hans voru: Sveinn Sveinsson og Sigríður Skúladóttir, prests í Múla; fluttist af Austurlandi hingað vestur 1891.
19. Monika Jónsdóttir á Gamalmenna heimilinu Betel á Gimli, ekkja Sveins Sölvasonar; bjuggu þau lengi á Skarði í í Skagafirði.
20. Jóannes Magnússon, bóndi að Dögurðarnesi í Árnessbygð; af Fellsströnd við Breiðafjörð (sjá Almanak 1916, bls. 51).
25. Guðlaugur Magnússon, bóndi að Dögurðarnesi í Árnesbygð, af Fellsströnd við Breiðafjörð (sjá Almanak 1916, bls. 53).
28. Guðmundur Jónsson Sörensen; fluttist hingað frá Reykjavík um aldamótin; 61 árs.

# Fallnir íslenzkir hermenn.

1915.

*Ástýr Valgeir Magdal Hermannsson.*

1916.

*William Priece*, móðir hans íslenzk, Jakobína Stefánsdóttir í Winnipeg.

*Jóhannes Stefánsson* Þorlákssonar frá Churchbridge.

*Sigurður E. Freeman* frá Selkirk.

*Bjarni Bjarnason* Bjarnasonar frá Íslendingafljóti.

*Stefán Helgi Stefánsson Thorson* frá Gimli.

*Jakob Jakobsson* Hanssonar Lindal í Wynyard.

*Guðmundur Asgeirsson* Þórðarsonar.

*Hjálmar S. Sigvaldason* Sigurðssonar.

*Árni Valdimarsson* Davíðssonar.

*Gísli Ásmundsson* frá Selkirk.

*Edward Curzon*, móðirin íslenzk.

*Guðmundur Ingimarsson* Magnússonar frá Windthorst, Sask.

*Óli Jónsson* frá Lundar, Man., foreldrar hans á Seyðisfirði.

*Sigurður Jónsson Anderson*, frá Leslie, Sask.

*Jón Magnússon* Ólafssonar frá Lundar, Man.

*Allan Sigurðsson* frá Selkirk.

*Walter Thorvaldsson* frá Bredenbury.

(Í dánarskrá Almanaksins fyrir 1915 og 1916 er þeirra, sem hér að ofan er getið – meiri hlutans — nákvæmar minst).

1917.

*Corporal Jónas Frederickson,* sonur Magnúsar Fredericksonar og konu hans, Helgu Kröyer við Vídipósthús í Nýja Íslandi, 26 ára.

*Friðfinnur Kjœrnested*, foreldrar Kristján J. Jóhannsson og Mikkalína Kjærnested á Ísafirði.

*Rútur Sigurður Sigurðsson* Sölvasonar, aktýgjasmiðs í Westbourne.

*Jón Pétursson* Jóhannssonar frá Calgary.

*Páll Jónsson*, kominn hingað fyrir sjö árum, sonur Jóns Guðmundssonar og Guðnýjar Kristjánsdóttur í A.-Skaftafellssýslu; 34 ára.

*Guðmundur S. Árnason* úr Víðir-bygð í Nýja-Íslandi.

*Þór Kristjánsson*, Sigurðssonar, (Sigurður og kona hans Sigurbjörg bjuggu lengi á Katastöðum í N.-Þingeyjars.)

*Páll Þorfinnsson* Jóhannessonar bónda í Argyle-bygð (úr Breiðdal í S.-Múlas.) og konu hans Karólínu Rannveigar Andrésdóttur (úr Þingeyjars.)

*Magnús Pétursson*. var til heimilis í Winnipeg, sonur Péturs Þórðarsonar og Þóru Þórarinsdóttur, sem heima eiga í Reykjavík.

*Sigurður Gíslason* frá Reykjavík.

*Halldór Johnson*, sagður í dánarskýrslu að vera frá Íslandi.

*Konráð Sigtryggsson*, úr Argyle-bygð.

*Þorsteinn Þorsteinsson*, sonur Þorst. Þorsteinssonar, bónda við Leslie, Sask.

*Júlíus Stefánsson* Eiríkssonar bónda á Nýjabæ við Gimli.

*Jóseph Nichlin*, móðir hans íslenzk, Vilhelmína Jónatansdóttir Jónatanssonar Lindal frá Miðhópi í Húnavatnss.

*Hörður Tómasson* Þorsteinssonar og Guðrúnar Jóelsdóttur, fæddur á Kolkuós í Skagafirði fyrir 25 árum.

*Jósep Höskuldur Þorsteinsson Thompson* frá Mathers, Man.

*Jón Þórarinsson* Jónssonar frá Hóli í Sæmundarhlíð í Skagafirði.

*Tómas*, sonur Jóns Þórðarsonar og konu hans Guðfinnu Tómasdóttur að Langruth, Man., 26 ára.

*Jón Benjamínsson*, sonur Jóns Benjamínssonar og konu hans Jóhönnu, við Lundar, Man.

*Hjalti Ögmundsson* Ögmundssonar og Þorbjargar Gísladóttur. Fæddur í Þingvalla nýlendu 1890.

*Guðmundur S. Árnason* úr Víðir-bygð í Nýja Íslandi.

*Jón Gilberi Philipsson* Johnsons, bónda í Álftavatnsbygð. Fæddur í Winnipeg 15. sept. 1898.

*Friðrík*, sonur H. J. Halldórssonar kaupmanns í Wynyard. Fæddur 6. júní 1895 í Hallson, N.-Dak.

*Óli Guðnason* Ólasonar. Fæddur á Gíslastöðum á Völlum í S.-Múlas. 7. ág. 1881.

*Þórarinn Björnsson,* til heimilis í Winnipeg; sonur Björns Jónssonar og Lukku Stefánsdóttur, er bjuggu á Bakkagerði i S.-Múlas.

*Árni Valdimarsson* Davíðssonar. Fæddur í Winnipeg og alinn upp af ömmu sinni, Kristjönu Sigfúsdóttur.

*Archibald Jón,* sonur August Polson og konu hans Elizabetar Árnadóttur, á Gimli,

*Óskar G. Goodman*, sonur Guðmundar Steinssonar og Gróu Jónsdóttur (frá Hólabæ í Langadal), 19 ára.

*Ásgeir*, sonur Finns Jónssonar frá Melum í Hrútafirði og konu hans Guðrúnar Ásgeirsdóttur frá Lundum í Borgarfirði, í Winnipeg, 22 ára.

*Björn,* sonur Jóels bónda Gislasonar við Silver Bay, Man. (af Tjörnesi).

*Lieut. Jón Einarsson,* sonur Jóhannesar Einarssonar og Sigurlaugar Þorsteinsdóttur, í Lögbergsbygð í Sask.

*Sigtryggur Valdimar Sigurðsson* frá Glenboro, Man.

*Konráð* Jónsson Halldórssonar bónda við Sinclair, Man.; 21 árs.

*Corporal Magnús Stefánsson* Sigurðssonar og Guðrúnar Magnúsdóttur í Arnesbygð.



# INNIHALD:

